# Stuttur
# Sida-Lærdómur
fyrir
## gódra Manna Börn,
af
**J. H. Campe.**

Utlagdur af Prófasti
**Gudlaugi sál. Sveinssyni.**

Asamt
## Vidbætir
um
## Barna-Aga,
af
**Mag. Hasse.**

útlögdum af Sýslumanni
**Sigurdi sál. Snorrasyni.**

**II. Utgáfa.**

Selst innbundinn 48 ß. Silfur-Mynt.

Videyar Klaustri, 1838.
Prentadur á Forlag Sekrt. O. M. Stephensens.
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

## Til Lesarans.

Þegar eg med þessum fáu línum er ad fullnægja ósk vors ydjusama Lærdóms = elskara, Prófastsins Hra. Gudlaugs Sveinssonar, ad eg med litlum Formála mæli fram, med þessum af honum útlagda bæklíngi, þarf eg ecki ad vera margordur, heldur ad eins láta nafn hans ódaudlega Høfunds, þess í Nordur=álfunni svo nafnfræga Barna=frædara, hvørs verk og kénnslu=adferd og lærdóms=bækur í margsháttar ríkindum, hafa fyrir laungu verid valdar

til munsturs og eptirbreytnis í skólum þeirra þjóda, sem mest láta sér vera annt um gott uppeldi barna, stutt: láta Campes nafn vera hans besta lofrædu. Og þegar eg rita til eldri Lesara þessa bæklíngs, má eg vita ad Sidgjædis-hatarinn les hvørki hann né minn formála, heldur sá besti og fjølmennasti hópur minna kjæru Landsmanna, fyrir hvørjum ecki er framar þørf ad brýna, hvørsu mikilsverd og naudsýnleg og losleg sé hvør og ein vidleitni, ad menta sem best og leiga únga góda borgara fyrir land og lýd og góda kristna til eilífdarinnar; því sjálfir hafa þessir Lesarar komist ad raun um, hvørsu tignarleg, ágjæt og heilla-rænleg ad dygdin er, sú

dygd, sem þegar á únga aldri er rótfest, fer sídan dagvaxandi, og verdur ad lokunum vid vana og æfíngu náttúru-far; sú sídprýdi og ætt-systir dygdarinnar, sem daglega sæmir sinn elskara heidri og ástsæld og heillum, þegar vidbjódur, óheill og vanvirda eltir sérhvørja óráðvendni, hvørja frekju, hvørn einn rustadóm.

Njóti þá einkum, mínir úngu Landsmenn! hvørjum bæklíngur þessi, eptir Titilsins ávísun, ætladur er, allrar þeirrar ánægju og uppbyggíngar af hans brúkun og lestri, sem Útgéfendurnir og Útleggjarinn svo innilega óska; allir saman þess heidurs og þeirra lángvinnu og ómetanlegu heilla, sem dygdarinnar lærdómur og æfíng og á dygd grundvøll-

ud Sidprýdi, til hvørs alls bækl=
íngur þessi vísar hér greinilega
veg, heita þeirra ýngri og eldri
stadføstu elskurum í þessu og ó=
komnu lífi!

Vidbætirinn um Barna=Aga
af Mag. Hasse, útlagdur af Hra.
Sigurdi Snorrasyni, lýtur
allur ad sama augnamidi og ád=
urnefnd Campes bók, og vonast
því ad verda velkominn íslendsk=
um Lesurum og Foreldrum.

Leirá, þann 10da Agústí 1799.

M. Stephensen.

# Inngánguriun.

Fyrir stuttum tíma, kjæru børn! lifði mað-
ur nockurr, harla vitur, sem hét Gott-
lib Krukjær.

Allir þeir, sem hann þecktu, gá enn
þá ecki um hann talað, án þess tárin stanði
þeim í augum; því hann var sérlega góð-
ur og valinkunnur maður, sem fann mestu
ánægju í því, að gjøra øðrum mønnum
gott. Frá barndómi hafði hann tekið sér
þá støduga reglu fyrir, að láta engann dag
hjálíða, án þess að gjøra eitthvað gott,
sem hann að hvørs dags qvøldi skrifaði í
dagbók sína; þeim, er var í bágindum, og
ecki vissi hvað hann skyldi til bragðs taka,
kom hann til aðstoðar með heilræðum,
því hann var bæði vitur maður og vel-
reyndur. Fátæklingnum hjálpaði hann af
egin efnum, og útvegaði honum hent-

ugleika til, að géta með framtíðinni, áunnið sér uppheldi; findi hann einhvørn vesæláun, hvørt heldur hann var kristinn, gyðíngur eða heiðíngi, aumkaðist hánn af hjarta yfir hánn, leitaðist við að hugga hann og hjálpa honum; hánn er maður, sagði hann, eg er og maður, það er nóg; væri í hans áheyrn talað ílla um nockurn mann á bak, þá forsvaraði hann þann sama, sem bróður. Hann gat ecki vitað að nockurr yrði fyrir órétti; en findist þaráméót svo ógudlegt fólk, sem gjörði honum sjálfum órétt, leitaðist hann aldrei við að gjalda íllt með íllu, ecki heldur hataði hann þá, sem gjørt høfðu á hluta hans heldur mótlættist að eins yfir óvitsku þeirra.

Ein af hans kjærustu skýslunum var sú, að safna saman sínum egin og nábúa finna børnum kríngum sig, og kénna þeim, hvørninn þau verða mættu góðar og farsælar manneskjur; ménn hafa og síðarmeir sjeð, að øllum þeim børnum hefir vel vegnað, sem þágu hans undirvísun og fylgdu hans føðurlegu ráðum.

Einusinni þegar hann nærstum var sjøtígi ára gamall, sat hann eitt fagurt sumardags = quøld, undir skuggafullu lindi=

tré, og hugsadi úti sitt undanfarid liferni; hans augu, hvør hann optlega hóf upp til himins, leyptrudu af gledi, þegar hann yfirvegadi þann dýrmæta þánka, ad hann hefdi þó ecki lifad forgéfins í heiminum; og vid sérhvørja endurminningu eins edur annars gódverks, sem hann gjørt hafdi á sínum umlidnu døgum, flódu yndælust fagnadar-tár ofan eptir hans gladværu kinnum; því, mín kjæru børn! trúid þeim, sem betur eru æfdir dygdanna vinir, uns þid loksins sjálf af egin reynslu lærid: **ad þad er hin ædsta farsæld, ad vera sér sjálfum medvitandi ágjætra athafna.**

Medan hann nú þannig sat, og naut þessarar sælu, kom hans frómlundadi nábúi **Andrés Gottvill**, og setti sig nidur hjá honum, til ad halda lærdóms-ríka rædu vid hann: „svo lengi sem „ eg nú hefi þeckt ydur, kjæri nábúi! sagdi hann, og lagdi um leid hønd sína á hønd hins gamla, „ hefi eg aldrei „ séd ydur alvarlega misfornægdann, „ segid mér þó, hvørra bragda þér neyt„ id til þess, ad vera sífeldt svo róleg„ ur? ætíd svo ánægdur?„ þar til géta verid rád, svaradi **Krukjær**, ef þér

vitid þad ecki, og leit med sama hýr-
lega í augu honum, en sækid fyrst, vor
ástkjæru ydar og mín børn, sem gánga
þarna í kál-gardinum, og eru ad leika
sér; þad er mér ætíd svo yndislegt, þeg-
ar þau eru kríngum mig, og eg óska
þau mættu líka heyra, hvada veg skuli
gánga, til þess ad þau verda mættu
farsæl.

Gottvill sókti þessa smælíngja;
varla høfdu þeir heyrt, ad fadir Æru-
kjær vildi tala vid þá, fyrr enn þeir
snørudu frá sér leikfángi þeirra, hlupu
sem hradast, og upp um háls og fadm
hins gamla. Þá taladi hann til þeirra
eptirfylgjandi rædur.

## Fyrsta Qvøldræda.

### Um skyldu mannsins vid sjálfann sig.

Mín kjæru børn! Gottvill nábúi minn
óskar af mér, ad vita, hvørnig eg hafi
svo hagad mér, ad eg alla mína æfi
til þessarar stundar, nærstum ætíd hafi
verid ánægdur, lángar ydur líka til ad

heyra þad? ójá! Fadir minn gódur! ójá! hrópudu þau öll í einu hljódi, og kloppudu höndunum saman af gledi, og sá gamli gódi Vrukjær, héldt fram rædunni:

Eg mun nú, mín gódu börn! ecki mikid eptir ega ólifad, og jafnvel þó eg lifdi lengi hér eptir, mundi eg þó ei æ-tíd hjá yckur vera; því skéd gétur ad, þid, innan fárra ára, verdid komin sitt í hvörja áttina; þá verdid þid sjálf ad ráda fyrir yckur, og séud þid þá ecki skynsöm og gód, þá gjörid þid yckur sannarlega sjálf ógjæfusöm, annadhvört sjúk edur fátæk, edur hötud af ödrum mönnum, ed-ur óánægd; og hvad gagna yckur þá allir hlutir í heiminum?

Þid vitid hvad mjög eg elska yck-ur, og ef eg nú dæi, og sæi fyrifram, ad þid nockru sinni mundud verda yck-ur til ólucku, þá yrdi eg, mín kjæru börn! óhuggandi á minni sóttar-sæng; (vid þessi ord gátu börnin ei tára bund-ist) veit eg þó, ad þid med ásetníngi viljid ei þannig hryggja yckar gamla födur; en ad þid ecki heldur skulud gjöra þad af vanvitsku, þá vil eg ad þessu

sinni | fegja yckur allt þad, er eg trúi, kunni ad gjøra=yckur ad svo skynsøm= um og gódum, og þessvegna svo luckn= legum manneskjum, sem nockurntíma er møgulegt.

Er þad ecki satt, mín kjæru børn! ad þid hafid optsinnis verid sjúk? láng= ar yckur til ad vera þad? vildud þid ecki heldur vera heilbrygd? þegar þid vórud sjúk, hofdud þid enga lyst á hvørki ad eta né drecka; þid máttud allann daginn liggja í rúminu, þegar yckar litlu leiks= brædur hlupu um kríng og skémtu sér undir lindi=trjánum, gengu um gólf í kálgardinum, fóru til laugar ad bada sig, edur med ødrum hætti skémtu sér, þá var yckur allt þetta bannad, þid fundud til verkjanna hér og þar í øll= um kroppnum; þid gátud ecki sofid á næturnar, og allt þad, sem var í kríng= um yckur, var yckur einúngis til áng= urs; vildud þid enn þá einusinni legg= jast veik? „ ónei! hrópudu børnin, þad er „ lángtum betra ad vera ætíd heilbrygd= ur.„ Rétt segid þid, sagdi fadirinn, en ad þinni vitid þid varla ad hálfu leiti hvørsu mikid yckur rídur á því ad vera

heil og hraust. Eg átti í úngdæmi mínu góðann vin,, sem lá veikur í 6 ár, þessi vesælíngur átti konu og 5 børn, sem vóru enn þá ýngri enn þið; hans ástand, áður hann sýktist, var einka blómlegt, því hann var nafnkéndur Kaupmaður, sem hafði mikla kauphøndlun. Á meðan hann sjálfur sá um kaupskap sinn, fékk hann lán hvar hann vildi, og luckan styrkti øll hans fyritæki, en undireins og hann veiktist, gékk allt af honum. Hann héllt Bókhaldara nockurn, hvørjum hann varð að trúa fyrir øllu; þetta greimenni forsómaði ecki einúngis hans høndlun, heldur og stal frá honum, og sveik þaraðauki aðra undir nafni húsbónda síns; hrakmenni þessu hefir líka aldrei síðan nema ílla vegnað, því enginn skeytti um þjónustu hans, sem vissi að hann bæði hafði svikið og stolið frá vin mínum. Þessi vinur minn varð nú á þeim fyrstu 4 árum síns sjúkdóms, svo fátækur, að hann neyddist til að selja allt sitt, og géfa frá sér kaupmannsskapinn; hefði hann í tíma aðgjætt Bókhaldarans svik, eður hefði konan, á meðan hans sjúkdómur yfirstóð, haft vak-

audi auga á øllu í húsi þeirra, þá hefdi ecki svo ógjæfusamlega tiltekist fyrir honum, en ólucân var, ad hann trúdi þessum þorpara allt ofvel, án þess fyrirfram ad hafa reynt hann, og konan var líka allt of hyrdulaus, loksins vard allt lakara og lakara fyrir honum; Læknirinn, sem var medaumkunarsamur madur, gjørdi ad sønnu sitt besta, án borgunar, ad hjálpa honum til heilsu, en þad var forgéfins; eptir ad þéssi vesælíngur hafdi þjádst enn nú eitt ár, deydi hann loksins. En heyrid nú, gódu børn! orsøkina til þessa hans sjúkdóms: hann hafdi einusinni dansad í brúdkaupi eins vinar síns, uns hann var allur í einu lødri, og til þess ad fyrri ríki af honum hitinn og svitinn, var hann svo óforsjáll ad hneppa frá sér, allt ad skirtunni, géck svo út ad glugganum, og þambadi fullt glas af sárkøldu vatni; af þessu féck hann uppdráttar-sýki, sem Læknarar kalla ólæknandi.

En af því hann annars var gódur og ágjætur madur, mundi hann hafa borid sjúkdóm sinn og mótgáng med þolgædi, og daudinn sjálfur mundi ecki

hafa ordid honum óttalegur; en þar hann var sér medvitandi, ad hans egin vangætsla hafdi orsakad hvört = tveggja, svo vard hann þar yfir óhuggandi; hann mátti aldrei til þess hugsa, án þess hann félli í nockurskonar ráðleysu, ad hann, sökum egin athugaleysis hlyti ad eptirskilja 4 saklaus børn, sem hann hjartanlega elskadi, og hefdi annars gétad gjørt farsæl, í svo mikilli fátækt, ad þau varla gátu hulid líkami sína, eg segi 4 saklaus børn, því þad 5ta hafdi hann mist medan hans sjúkdómur varadi; eg man nú ecki sjálfur med hvörjum hætti þad skédi; nábúi! munid þér þad ecki?

Jú! jú! man eg þad, svaradi **Gottvill**; þad var átvaglinn **Stizi**, sem misti lífid, fyrir sína ákøfu **grædgi**; hann hafdi gleipt steikta ávexti og **Bollur** *) bædi svo heitar og svo mikid í einu ad hann þaraf hlaut bana.

---

*) Bollur eru Kjeckir á stærd vid Hænuegg, eru þeir ýmist tilbúnir af nidurskøfnu kjøti, eda fiski, líka smáttmuldu hveiti = braudi, og bornir fram í Súpum hjá Fyri = fólki.

Utlegg.

Rétt, rétt! sagdi sá gamli Krú-kjær, nú man eg þad; þad var hörm-úng ad sjá, hvörsu þessi vesælíngur, teygd-ist sundur og saman, fyrr enn hann qvaddi heiminn; þad var ecki all-lítill sorgarauki fyrir hans þjáda födur, ad horfa á þetta á sinni sóttar-sæng.

Dajæfa konu hans, sem var módir þessa barns, afladi honum enn þá meira ángurs; eg hefi allareidu ádur sagt yckur, ad hún var ecki nógu umhyggjusöm um heimilis ástandid, og þad kom af-því, mín kjæru börn! ad þá hún í sjúkdómi manns síns, gat á stundum ecki notid sinnar vanalegu hvíldar á nóttunni, og ecki heldur alljafnt um daginn síns reglu-legs matar-ædis, fann hún uppá þad óyndis úrrædi, ad bæta hvöru-tveggji þennann skort med áfengum dryckjum; þad var ad sönnu satt, ad hún drack lít-id í fyrstunni, en ílaungun hennar óx dag-lega, eins og vant er; í stuttu máli: hún vandi sig dag frá degi þannig til ad drecka, ad hún varla gat lifad án þess hún væri svínkud; þetta var ecki minnsta orsökin til eydileggíngar alls þessa heim-kynnis. Um vesælíngs börnin hyrdti

enginn; Bókhaldara - mindin mátti nú gjöra hvad hann vildi, þar enginn leit eptir heimi, og þann lángþjáda, aumkunarverda födur hreyf daudinn til sín. Loksins hlaut konan sjálf ad lída fyrir sína ýfirsjón, hún fékk af þessu lúngnabrand, sem dró hana aumkunarlega til dauda. Eg var vidstaddur þá hún deyði, en ecki gét eg sagt yckur, börn mín góð! med hvíliku skapi eg var þar vid; eg vil ecki heldur í þetta sinn hugsa þar um, því ef eg gjördi þad, og á ný færi ad íhuga örvæntíngarord þessarar deyandi konu, eymd hennar ecktamanns, og qvein þeirra aumu og vesælu-barna, svo mundi eg ei vera fær til ad tala meira; Gud vardveiti sérhvörja manneskju frá þvílíkri endalykt! hér þagnadi vor gódi gamli madur um hríd, þurkadi tárin af augum sér, og héllt sídan fram rædunni.

Þid sjáid af þessu dæmi, börnin gód! hvörsu mikil eymd kann ad rísa af því, þegar menn ecki svo mikid sem mögulegt er, hafa gát á heilbrygdi sinni; vaktid yckur þess vegna fyrir öllu því, sem kann ad gjöra yckur veik; ad eta og drecka opt,

án þess madur sé svángur eda þyrstur; ad eta um óf og drecka um of einkum af áfeingum dryckjum; ad voga sér í hættu-fulla leiki; ad vera óadgætinn á vodaleg-um stödum; þetta alltsaman gétur gjört yck-ur sjúk og vesæl.

**Leti** og **ómennska** gétur líka svo aflad yckur sjúkdóms; er þad ecki satt, ad þegar þid hafid sofid oflengi, þá gángid þid miklu slenfyllri og naudugri ad verki yckar, enn annars, og þegar þid hafid ecki hrært yckur, þá smackast yckur ecki nærri svo vel matur og dryckur sem þá þid hafid af kappi hlaupid umkríng?. Þetta er strax byrjun til sjúkdóms; haldid þid nú áfram med ad sofa of lengi, og þann-ig sífellt ad verda latari og þúnglima-legri, þá vesnar þessi sjúkdómur dag frá degi, og ad sídustu verdid þid duglaus og ónýt til allra verka, og jafnvel til ad leika yckur.*)

Tvennslags erfidi er annars til, mín kjæru børn! sem hvørt-tveggja er jafn-

---

*) Sjá framar um þetta efni *Dr.* Martinets Edlis Utmálun Manneskjunnar. pag. 104.
Utlegg.

nytsamlegt: hid eina kallast Handverk, edur Handa=Erfidi, þar menn sérílagi brúka høndunar þar til; hitt er kallad Høfud=Erfidi, vegna þess menn framqvæma þad med høfdinu, edur, réttara sagt, med sálar=kræptunum, til dæmis: hinn ydjusami Skósmidur, sem saumar skó yckar og stígvél, hann fremur Handverk, edur Handa=Erfidi; Kénnandinn þar á móti, sem ástundar hvørninn hann fái gjørt yckur ad dygdugum og luckusælum manneskjum, erfidar med høfdinu; hvørutveggja erfidid er oss mønnunum nytsamlegt, ef vér viljum vera heilbrygdir á sálu og líkama. Vér megum vinna nockud med høndunum, edur fremja þvílíkt erfidi, sem géfi hræríngu líkømum vorum, annars meltist mjøg svo illa fæda sú, er vér til vor tøkum, þar af orsakast marghάttud veikindi og skjædir sjúkdómar; en, vér egum líka ad erfida med sálunni, þad er: kappkosta ad læra nockud nytsamlegt, annars verdum vér heimskíngjar, til einkis hæfir í heimi þessum; og komumst ad sídustu í armód og vanvirdu.

Eg hefi þeckt mann nockurn, hvørjum þannig afreiddi: hann var fæddur

af ríkum foreldrum, hvörja á stundum hendti sú óvitska, ad brýna fyrir syni sínum: ad þau hefdu safnad til handa hönum mikilli peninga-summu, hvörja hann fyrst skyldi fá, þá hann væri ordinn varinn. Þessi fávísi únglíngur hugsadi med sér: ad nú þyrfti hann ecki, sem adrir menn, ad vinna edur læra nockud, þared hann í framtídinni gæti keypt alla hluti fyrir peninga sína; hann vandi sig þess vegna á ad sofa til middegis, sídan bordadi hann, en þó optastnær án þess hann hefdi sanna matarlyst; þegar hann hafdi matast, settist hann vid spila-bordid, og spiladi til midnættis; nú géck hann til reckju og dormadi til nærsta middegis; hefdi hann eitthvad ad gjöra utan-húss, lét hann ætíd aka sér í vagni; 4 eda 5 þénarar höfdu fullt í fángi ad klæda hann í fötin, og þessu líkt var í fleiru; en — hvad skédi? þegar hann hafdi hér um fjóra um tvítugt, qviknadi eldur um nótt í húsi hans, sem glæddist svo fljótt og ákaflega, ad hann naumast féck tíma til ad kasta sér út ígégnum gluggann í tómum náttrocknum; á skémmri tíma enn einni kluckustundu vóru nú öll hans miklu audæfi

ordin ad öſku = hrúgu. Nú ſtód hann uppi félaus og hjálparlaus, og viſsi ecki hvad hann ſkyldi til bragds taka; af því hann hafdi eckért þad lært, hvar med hann gat unnid ſér braud, en ſkammadiſt ſín ad betla í þeim ſtad, hvar hann ádur hafdi lifad ſvo ríkmannlega, géck hann út á land og faladi þjónuſtu hjá bónda neckrum, til ad uppihalda lífi ſínu, en þá hann hafdi ſtadid ad verki ſínu hér um hálfa klucku= ſtund, edur ætti ad gánga til næſta bæjar, datt hann um koll af þreytu; bóndinn ſá ſkjótt, ad hann gat ecki nýtt hann til nock= urs hlutar, vegna hans þol = leyſis; hann hafdi ad ſönnu hendur og fætur, en hvoru= tveggi komu honum ad litlu haldi. Hans ſídurſtu úrrædi urdu þeſs vegna, ad ſetja ſig á gatna = mótin og betla ſér ölmuſu af vegfarendum. Æ! takid yckur vara fyr= ir, börn min gód! ad þad ecki gángi eins til fyrir yckur!

Hugſid ecki ad erfidid ſé þúngbært; því þegar menn fyrſt hafa vanid ſig á þad, þá finnſt ſvo mikil gledi og ánægja í því, ad tölveldt mundi ad lífa án þeſs; ydjuleyſid þarámóti ſpillir veſsum líkama

vors, og gjörir sligsa þá fastari parta hans, eykur lángsemi og gjörir manneskjuna óró-lega og gédstirda, þánkarnir hvaísla híng-ad og þángad, og lystíngin heimtir hitt og þetta; vér bordum án þess ad vera svángir, og dreckum án þess oss þyrsti, og gjörum oss með þeskum hætti einúngis óluckulega, sjúka, vesæla og fátæka, og þá ei líka vorra medbrædra medlídan horfin; því þeir mættu med réttu segja: letimaginn gjæti verid allteins ríkur og eg, ef hann hefdi nennt ad vinna, þess vegna er hann óverdugur vorrar hjálpar. O! mín gódu børn! erfídid má vera svo þúngt, sem þad vera vill, þetta er þó miklu óþolan-legra.

Þar fyrir utan er þess ei heldur krafist, ad vér skulum **sífellt** erfída, því líkamir vorir gætu ecki endst til þess, nei, børnin gód! vér megum líka þess á mill-um gjöra oss nockud til **gamans**, þetta þénar líka heilsu vorri til vidurhalds; leikid yckur því og verid gladvær, þegar þid hafid aflokid yckar erfídi, en fordist øld-úngis þá skémtun, er kann ad skada yckar heilsu eda líf. Opt hefi eg um æfi mína séd, ad børn, fyrir **gálausa leiki**,

hafa mist lífið; það var, t. d: hann frændi ydar, nábúi! hann Frantz litli, snotur og frískur drengur; en hvørninn fór fyrir hon- um? þegar hann var einusinni í Kálgarð- inum með bróður sínum, kom þeim það saman að reyna hvørjum betur gengi að ríða um kríng á tréverkinu er gjört var um brunninn; þá nú Frantz hafði klifrað uppá tréverkið og várð- litið ofan í brunn- inn, kom á hann høfuðsundli, rauk ofan og pompaði í vatnið. Fólkið heyrði hljóð bróður hans, og kom með øndina í hálsin- um að vita hvað um væri, en það var allt um seinna, því Frantz var þá sockinn til botns; að sønnu varð honum náð upp með krókstjaka, en hann var þá skilinn við.

Ecki var hann lengi að farga lífinu, mælti Gottvill; en engu minna hlaut hinn gjálífi Ferdínand, sonur Dieks Kaupmanns, að bæta fyrir gapaskapinn. Kaupmaður nockurr kom reisandi til føð- ur hans, og batt hest sinn við hrínginn í ports-hurðinni. Naumlega var Kaup- maður genginn inn í stofuna, áður Fer- dínand kom, sem kólfi væri skotið, nið- ur í portið, til að sæta tækifæri að koma

á bak hestinum; vegna þess, ad hesturinn stód vid háa stétt, er hladin var utanfyrir ports = dyrunum, komst hann andvestlega á bak. Hesturinn, sem ecki kunni vid taumhald þessa ókunnuga riddara, tók til ad reisa sig upp á apturfótunum og ausa; drengur vard nú laus í södlinum og hrøck aptur af, en klárinn veitti honum í sama vetfángi voldugt hogg med aptur = fótar = hófnum fyrir brjóstid, svo drengur hraut hér um 2ja fadma lángt burtu frá hestinum, þar lá hann, sem daudur, en blódid streymdi af nosum hans og munni, og meintu hann allir ørendann. Ad litlum tíma lidnum raknadi hann þó vid, en þá hófst líka qvøl sú og pína, er hann hlaut af fallinu, fyrir alvøru. Skadinn, sem hann fengid hafdi fyrir brjóstid, var ólæknandi; hann lifdi med megnum innvortis verkjum og sífeldri blóds = spítingu í 4 vikur, og deydi sídan. Þess vegna rís mér ávallt hugur vid, þá eg sje únglínga sýsla med hesta.

Þér hafid rétt í því, svaradi Wrukkjær, þad plagar og sjaldan ad gánga skadlaust af; hestar eru einúngis handa

vornu fólki, sem kann ad ríða og stýra þeim. Séfid gjætur ad þessu, börn mín góð! forðist œldúngis alla þá leiki, sem kunna ad leiða eitthvad íllt af sér; nógir meinlausir og leyfilegir leikir eru annars til, sem víð Nabúi minn skulum smámsaman kénna yckur. Vegna hvørs viljid þid hitta uppá leiki þá, er annadhvørt skada yckur sjálf eda yckar leiksbrœdur?

Enn þá vil eg segja yckur ágætt medal, sem ecki minnst styrkir til ad halda vid heilsu yckar, og þad heitir: Þrifnadur eda Ræksluſemi; ef þid forsómid ad þvo yckur ydugleaa, setjast óhreinindin í svita-holurnar og tilbyrgir þær, svo ad svitinn náir ei ad þreyngja sér ígégnum, sem orsakar mørg hættuleg sóttar-fælli; laugid yckur því opt á sumrum, og þvoid yckur ydúglega á vetrum; hafid opt, helst á sumrum, skyrtuskipti, og látid dagléga hreint lopt koma ad útan í svefn- og setu-húsi yckar, sem haldid sé hreinu frá øllum ílla luktandi óþverra, hvørr ætíd er ólifjan líkama yckar; etid heldur ecki né drecfid þad, sem yckur er sagt óheilnæmt.

Nú vitid þid, børn góð! nockur veg-

inu, hvørnig þid skulud hegda yckur, svo þid gjørid ei líkami yckar lakari enn þid hafid ødlast þá af náttúrunni; en þetta gétur þó ecki einúngis gjort yckur farsæl; því opt ber þad víd, ad einn hefir yfrid góda heilsu, en lifir þó engu ad sídur í eymd og vesældóm. Athugid þess vegna, mínir elskuverdu únglíngar! ad í þessum yckar sýnilegu líkømum býr ódaudleg og ósýnileg sála, sem eginlega er þad, er þeinkir og hefir tilfinníngu, glédst edur hryggist, er farsæl edur ófarsæl; jafnvel þó nú yckar líkami væri nógu hraustur og heilbrygdur, en sála yckar þarámóti veik og óhraust, þá mundud þid þó, engu ad sídur, vera hinar ófarsælustu manneskjur; eg hlýt því enn þá ad kénna yckur, hvørnig þid gétid vídhaldid sálum yckar hraustum og heilbrygdum; takid nú vel eptir, svo þid skiljid mig rétt!

Sálarinnar heilbrygdi er þarí fólgin: **ad hún hafi þeckíngu á mørgum nytsømum hlutum og sé hrein af øllum løstum.** En þetta er enn þá allt ofhátt fyrir yckur, eg vil reyna til, hvørt eg gét ecki gjørt yckur þad audskiljanlegra.

Eg segi: þegar sálunni á að líða vel, svo hlýtur hún strax í fyrstunni að vera sér út um allskonar nytsamlega þeckíngu, það er: hún hlýtur að læra allt það, sem í framtíðinni gæti veitt henni ánægju; heimsk sála hefir sár-litla gleði í heiminum; vitra og vel uppfrædda sálu þarámóti, brestur aldrei gladværdarefni. Þetta gét eg sannað með meir enn einu eptirdæmi; þegar eg var í skóla, átti eg tvo lagsmenn, sem vóru skilgétnir brædur, en aldrei hefi eg þeckt nockra tvo brædur ólíkari; sá ýngri hafði sjaldfengna námfýsi, hlýddi með hinni mestu athygli Skólameistarans undirvísun, og vildi ávallt vita røksemd fyrir hvørju því, er hann sá eður heyrði, og mørgumsinnum gleymdi hann að eta og drecka, þegar hann féck tækifæri að tala við skynsama menn, sem gátu frædt hann á einhvørju nytsömu. Hinn eldri þarámóti var sífellt latur að læra, sífellt fullur af leiðindum. Á medan Skólameistarinn var að undirvísa ockur, gapti hann og gónti innan um allann Skólann, eða lék sér undir borðinu, en tók ecki eptir einu einasta orði, sem med var farið; þegar skóla-tímarnir vóru á enda, nennti hann

engu ødru, enn eta, drecka og flat-skrocka í rúminu. Nú, hvad haldid þid ad hafi ordid úr bádum? **Karl** (svo hét sá ýngri) vard dag frá degi skynsamari, meir elskadur og lukkulegri; **Jörgin** bródir hans þarámóti, vard sífellt heimskari, sífellt verr þockadur og sífellt óláunsamari. Þegar ockur var lofad ad gánga út til skémtunar, svo fann hinn námgjarni **Karl** allavega ótal' hluti, sem hann skémti sér vid, því hann rannsakadi allt hvad hann sá med skynsemdarfullri náqvæmni; nú virdti hann fyrir sér blómstrin, nú trén, og minntist um leid á þad, hvad Skólameistarinn hafdi sagt honum um trjánna og grasanna vöxt; nú yfirvegadi hann himininn, og gladdi sig vid ad vita hvad loptid og skýin væru, hvaraf døgg, regn og vindar hefdu sinn uppruna, og hvada nytsemi hvert um sig gjördi; nú setti hann sig í forsælunna undir eitthvört tréd, og las ockur-skémtilegar frásögur úr einhvörri bók, sem hann hafdi med sér tekid. **Jörgin** þarámóti géck ætíd út med noldri, luntaraskap, og fýlu, leit eptir engum hlut, sem var í kríngum hann, edur nálægt honum, því hann hafdi ecki lært neitt um nockurn hlut; en þar

hann gat þó ecki með öllu verið ·ýðjulaus, svo hitti hann æfinlega uppá eitthvørt þrætu=efni, uns við að lyktum, með leyfi ockar Skólameistara, rákum hann úr vorum Félagskap, og vildum ecki framar vita af honum að segja, og þannig hefir æfi beggja þeßara bræðra verið síðan. **Jörgin** varð aldrei hæfur til nockurs hlutar, er gagn var að, hafði heldur ecki vit á að taka sér neitt gagnlegt fyrir hendur, var øllum óþeckur, sjálfur óánægdur og sér og ødrum til þýngsla. **Karl** þarámóti var ágætur og duglegur maður, sem kom sér vel við alla, því hann var ætíð glaður og ánægður og gat fræðtog gladt aðra. **Jörgin** dó í hugar-výli fyrr enn hann náði þrítugs aldri, en **Karl** lifir þann dag í dag er, og er fullkomlega svo hreß, sem eg, enn þótt hann sé fullum tveimur árum eldri.

Ha! ha! nú skil eg það að nockru leiti, Nábúi! mælti **Gottvill**, af hvørju það kémur, að eg sje ydur sífellt glaðann og ánægdann, eg merki nú að þér eruð lærður, og gétið því gladt og skémt ydur við fleiri hluti enn við bændurnir.

Fyrst þér haldið að svo sé, svaraði Krúkjar, þá má ég með sanni segja, að ecki mundi eg hast hafa helmíngs ánægju um daga mína, hefði eg lært minna í úngdæminu; en þó er það, sem maður lærir, ecki einhlýtt til þess. Egi sála vor að vera heilbrygð og farsæl, þá verðum við að kappkosta að varðveita hana ófleckaða frá øllum løstum.

Lesti, mín góðu børn! køllum vér allt það, með hvørju vér gjørum sjálfum oss, eður øðrum skaða, t. d.: óhlýðni er løstur, þar vér mest skøðum sjálfa oss með henni, því þegar vér ecki erum hlýðnir vorum yfirboðurum, verðum vér ecki einúngis straffaðir, heldur hætta menn einnig að elska oss, og þegar barnið hefir mist ást og elsku sinna foreldra eður kénnenda, þá er fyrir því illa ástadt. Deilur, skammaryrði og áflog eru einnig lestir, þareð vér með þeim ollsekum bæði sjálfum oss og øðrum óánægju; øðrum, sökum þess, að enginn girnist að eiga í deilum, skømmum og áflogum; en sjálfum oss, vegna þess, að vér fyri klæki þessa verðum straffaðir, og ofan í kaupið bøkum oss það, að allir

fordast ad hafa umgengni med oss. Skil-
jid þid nú, hvad lestir eru? „ója! Fadir
„minn gódur! hrópudu bornin! nú skiljum
„vid þad; lestir eru þad, hvar med vér gjør-
„um oss og ødrum mønnum skada."

Rétt, mín gódu børn! sagdi Kru-
kjær, þid hafid tekid dável eptir; en vitid
þid nú hvad þad kallast, sem løstunum er
gagnstædt? eg meina þad framferdi, med
hvørjum vér gjørum oss og adra farsæla?
þad kallast dygd.

Nú megid þid, børnin gód! trúa mér
til þess, sem oldrudum manni, er margt
hefir reynt, ad hvør ein lastafull athæfi
gjørir sálu vora sjúka og vesæla; þarámóti
gjørir sérhvør dygdug breytni hana heil-
brygda, hrausta og gladværa. Ad nockru
leiti getid þid nú vitad þetta af egin reynslu;
er þad ecki satt, ad þegar þid hafid adhafst
nockud þad, sem yckur var bannad, þá hafid
þid ecki verid med svo glødu bragdi, eins og
þegar þid hafid gjort nockud gott? þetta er
strax teikn til þess, ad yckar sála hafi þá
ecki verid fullkomlega hraust; ef þid haldid
nú áfram ad gjøra þad íllt er, svo verdur
þessi sjúkdómur sálarinnar ætíd lakari, þid

verdið dag-frá degi óánægðari með yður sjálf, og óteljandi hlutir, sem á nálægum tíma afla yður ánægju og unaðsemdar, mundu hætta að vera yður til geðþecknis.

Þessum sálarinnar sjúkdómi er allt-eins háttað og líkamlegum sjúkdómum; þeir koma hvørugir allt í einu, heldur vaxa þeir og formerkjast smámsaman. Þegar við, t. d.: høfum vorðað eitthvað óhollt, þá finnum vér ecki strax til sárinda þar af, en að nockrum tíma liðnum, og máské fyrst daginn eptir, gjørir ydra-qveisa og høfuð-verkur vart við sig; ef við þá ecki strax leitum oss lækninga, eður neytum aptur á ný þessarar óhollu fæðu, svo verðum vér ætíð lakari, uns sjúkdómurinn verður að síðustu ólæknandi; allt eins gengur það til fyrir þeim manni, sem aðhefst eitthvað íllt; í fyrstunni finnur hann máské til lítillar eður engrar óánægju yfir því í sálunni; en ydrist hann ecki strax-finna íllu athafna, og það af øllu hjarta, ellegar sé hann svo óskyn-samur að fremja þær að nýju, svo verður honum það þó einhvørntíma, til mikillar innvórtis óróæmi.

Ef, t. d.: eitthvørt yðar, børn! fengi

øfund eda hatur til annars, (sem Gud virdist nádarsamlega ad afstýra) fyrir þá skuld ad einhvørju yckar vildi til happ nockurt, sem hin hefou ei hlutdeild í, svo gæti þad af yckur, á því augna-bliki, sem þad væri reidt eda øfundsjúkt, ecki fundid til nockurrar innvortis ánægju eda rósemi; en ef þad kannadist þá jafnsnart vid, hvørsu stórann órétt þad gjört hefdi, beiddi fyrirgéfníngar og ástundadi ad vakta sig fyrir slíkri géds-hræríngu framvegis, þá væri lækníng sálarinnar á gódum vegi; en héldi þad þarámóti áfram í þessum skapløst vid hvørt eitt géfid tækifæri, þá segi eg ydur þad satt og víst, ad þad yrdi hin ófarsælasta manneskja alla-æfi.

Nýlega hefi eg sagt yckur, børnin gód! søguna af Kain og hvørnig honum reiddi af: nockrumsinnum hafdi hann reidst sínum góda og meinlausa brødur Abel, fyrir þá skuld, ad vor algódi Gud og Abels foreldrar elskudu hann sérdeilislega mikid fyrir hans dygda skuld. Uppfrá þeim tíma sá Kain varla nockurn gladann dag. Ætíd stód hans bródurs lucka honum fyrir sjónum, ætíd gramdist hann yfir henni, og ætíd

leitadi hann ad deilu-efni, jafnvel þó Abel gjørdi honum aldrei neitt á móti; þid vitid børn! hvørsu hátt hans vondska sté ad lyktum; þá gremjan og ofundin hafdi loksins gjørt hann afsinna, sló hann þenna sinn saklausa bródir í hel, og hlaut sídan, sem vidbjódslegt afhrak, ad flacka um verøldina. Hefdi einhvørr sagt honum fyrifram, þá hann øfundadi bródur sinn í fyrsta sinni, ad svona mundi fara fyrir honum, þá hefdi hann víst ecki trúad því. En svo gengur þad ætíd, mín gódu børn! þegar madur ecki strax í byrjuninni mótstendur løstunum. Vei oss! þegar þeir einusinni hafa fest rætur í vorum hjørtum, þá er á enda øll lagfæring, øll farsæld. Allteins og snjóhnøttur sá, er veltur ofan eptir brøttu fjalli, verdur ætíd stærri og stærri, og veltur því hardara, sem hann kémur lengra nidur eptir, svo verda og vorar lastafullu girndir, því optar, sem vér fullnægjum þeim, og því eldri vér gjørumst, verda þær æ sterkari, og ørdugra ad veita þeim mótstødu. Eg segi yckur þar fyrir enn á ný, mín gódu børn! vaktid yckur fyrir sérhvørri byrjun til hins vonda, edur hafi yckur eitthvørt sinn hendt nockur yfir-

sjón, þá vaktið yckur fyrir að gjöra hana optar, annars er útgjört með yckar dygð, með yckar farsæld, ó! að eg gæti skrifað þetta með gylltum bókstöfum á yckar hjörtu.

Þegar þið nú eruð ástundunarsöm að læra allt það, sem yckur er kennt, og takið yckur vara fyrir öllum löstum og ódygðum, þá eflið þið yckar sálna heill og heilbrygði. En — börn! þið hafið einnig líkama, sem þarf við uppheldis og umsorgunar; eg þarf varla að segja yckur: að það sé óhamíngja að vera þyrstur, svángur, nakinn, húss- og heimilis-laus; eg veit þið vitið þetta fyrir laungu. Hvar ætlið þið að fá allt þetta? um þessar mundir, og á meðan þið eruð ómagar, sorga foreldrar yckar þar fyrir; en þá þau burtkallast og enginn hefir umsorgun fyrir yckur framar, hvar ætlið þið þá að taka allt það, sem þið þurfið til yckar uppheldis og ánægju? þið hugsið máské: foreldrar ockar kunna að eptirláta ockur svo mikið, að við ættum gétum haft nóg; en, börn! það er mikið óviss von, því jafnvel þó yckar foreldrar væru aldrei svo ríkir, þá hafið þið svo mik-

id vit, ad þid sjáid hvørsu audveldlega þad getur skéd, ad þau missi øll sín audæfi; og látum vera, ad yckur tæmdist aldei svó mikill arfur eptir þau, hvørsu lengi mundi hann standa vid, ef þid ecki hefdud lært vel med ad fara? þad einasta og vissasta medal, børn mín gód! til ad vakta sig fyrir ad komast í armód, er þad: ad madur læri ad útvega sjálfur sitt uppheldi, og ad brúka þad sparsamlega, sem hann aflar. Sparsemin, elskuverdu børn! er einka naudsynleg dygd; þeim, sem ecki verdur neitt úr sínum egin efnum, hann mundi, hvørsu ríkur, sem hann væri, verda fátækur ad sídustu, og ad verda fátækur af sjálfskapar vítum, er stórt ólán.

Sá, sem án sinnar eginn óspilunar er kominn í bágindi, finnur þó opkast einhvern mann = vin, sem verdur til ad aumka hann og hjálpa honum. Sá, sem fæddur er af fátækum foreldrum, veit ad haga sér eptir sínu ástandi, af því hann er vanur vid þad frá barndómi, hefir líka lært ad erfida fyrir adra; en sá, sem hefir átt, edur getad átt nockud, og vegna eydslusemis eda forsómunar verdur fátækur, hann er sannar=

legá ílla staddur. Enginn er fús til ad géfa þeim, sem ecki þyrfti ad snikja, ef hann hefdi ødruvísi viljad haga sínu, ecki heldur vill nockurr madur taka slík óráds-dýr til vistar, þó annad sé í gódu lagi; því líklegast er: ad sá, sem hefir verid bædi hyrdulaus og eydslusamur, medan hann átti sjálfur med sig, þá muni hann ecki verda þad sídur, þegar hann kémur í annnara þjónustu.

Þótt einn sé alin í fátækt, edur vegna óláns tilfella sé kominn í armód, ef hann annars er skynsamur og gódur madur, verdur hann þó af øllum velþenkjandi meira metinn heldur enn ríka aula-mennid. Menn setja trú til hans, spyrja hann til ráds, og leita hans vinfengis; hvorsu fátækur, sem hann er, má þó hafa nytsemi af honum, sokum hans skynsemdar og rádvendni; hinn þarámóti, sem sjálfann sig hefir fátækan gjørt, med eydslusemi og óframsýni, er hvervetna hatadur og forsmádur, vegna þess hann sjálfur er skuld í því, ad hann ecki gétur verid ødrum til gagns og nota med sínum éfnum; menn trúa honum til enkis, þar augljóst er af reynslunni, hvorsu ílla

hann hefir höndlað með egin fémuni sína; hjá honum er ecki að vænta neinnra góðra ráða, þar hann hefir ráðið sjálfum sér svo illa; og pared hönn er ecki hæfur til annars enn þess, sem sterkir uxar og asnar eru brúkaðir til, svo er hann ecki heldur øllu meira metinn. Sjáið nú børn! svo mikið ríður á því, að þið kunnið vel að fara með það, sem þið egið.

Við þetta tækifæri vil eg segja yckur snotra søgu af sérlega sparsømu barni, sem, án þess að færa með sér einn skilding úr føður-garði, varð að síðustu mesti ríkismaður; hlustið nú til! Í Lundúna-borg (það er høfuðstaður Englands), hafði Kaupmaður nockurr stór ríkur tekið forstøðu-laust fátækisbarn í hús sitt, sem hét Richard Whittington. Á meðan barnið ecki var hæft til neins, var það látið hlaupa um kríng í húsinn. Richard gjørði sér það til skémtunar að tína upp alla þá títuprjóna og niðurfallna seglgarns-spotta, sem hann fann á gólfinu, geymdi hvørttveggja vandlega, uns hann hafði safnað einnri tylft prjóna og seglgarns-hnikli, er svaraði einni hespu, fór svo með hvørttveggja í skrifara-stofuna og færði fóstra sínum; þetta líkaði

Kaupmanni ýfrid vel, því hann fann ad drengurinn var bædi trúr og samheldinn, og lagdi þess vegna á hann mikinn ástarþocka. Einhvørn dag bar svo vid, ad einn af Kaupmanns-drengjorum átti ad dreckja nockrum kétlíngum. Richard bad fóstra sinn ad gèfa sèr einn þeirra, qvadst vilja ala hann upp og selja sídan. Kaupmadur leyfdi þad, og Richard ól upp kétlínginn, uns hann hafdi nád vexti sínum. Svo bar til, ad Kaupmadur bjó út eitt af skipum sínum med høndlunarvørur til framandi landa, og þá skipid var albúid til burtferdar, fór Kaupmadur um bord á þad, til ad sjá eptir hvørt øllu væri á því reglulega nidurradad. Richard mætti honum í þessu, og bar køtt sinn á handleggnum. Richard! sagdi Kaupmadur, hefir þú eckért ad senda med til ad selja? æ! þèr vitid, Herra gódur! svaradi drengurinn, ad eg er fátækur og á eckért annad enn køttinn minn. Nú, sendtú þá køttinn þinn med, sagdi Kaupmadur. Richard lét sèr þad ad gódri kénníngu verda, og hljóp med køttinn útá skipid og setti hann nidur á þilfarid, en skipid létti atkérum og sigldi á burt. Eptir nockra mánudi hittu skipverjar fyrir land nockurt ókéndt, stigu á

land og fréttu, ad þar rédi Köngur fyrir. Þegar Köngur heyrdi ad framandi skip væri komid vid land hans, lét hann bjóda nockrum af skipverjum til sín, ad þyggja veitslu. En þótt nægilegar vistir væru þar á bordum, var þó naumast kostur á ad ná einum munnbita; því svo var herbergid fullt af völskum og músum, ad þær hlupu í hundrada tali um stóla, bord og becki, en svo grádugar, ad þær gleyptu í sig matinn á bordinu, og svífdust ecki ad hrifsa bitana úr höndum géstanna. Öll uppþenkjanleg medöl höfdu verid brúkud til ad farga ókindum þessum, og Köngur hafdi þaradauki heitid nockrum tunnum gulls til verdlauna, hvörjum þeim, er stöckt gjæti þessum óaldar-flocki, en' allt var forgéfins. Þá Adkomumenn sáu þetta, sögdu þeir Köngi, ad þeir hefdu dýr þad á skipi sínu, er eyda mundi qvikindum þessum; var nú sókstur kottur Richards. Þid skyldud, börn! hafa einúngis sjed, hvílíkt ógurlegt blód-bad kisa gjördi, þegar hún kom í músa-hópinn; stutt ad segja: eptir hálfa kluckustund var enga lifandi mús ad sjá edur heyra í herberginu; Köngurinn vard gladari yfir þessu, heldur enn þótt einhvör hefdi skeinkt hon-

um heilt kóngs-ríki; og með því hann hafdi yfirmáta mikinn ríkdóm, svo gaf hann fyrir køttinn nockrar. tunnur gulls, og með það sigldi skipið aptur heimleiðis. Hefði Kaupmaðurinn, sem skipið tilheyrði, verið hreckjóttur, þá mundi hann hafa haldið peníngunum fyrir sjálfann sig, en leyndt hinn fátæka Richard heppni hans, en það var þvertámóti þenkíngar-hætti þessa ærlega manns-vinar = varla hafði hann heyrt hvað margir peníngar fyrir køttinn komið høfðu, fyrr enn hann lét Richard koma fyrir sig, kunngjørði honum luckn sína, og h:t honum til vissu, að það allt skyldi honum tilheyra; hann lét síðan kénna Richard Kaupmanns-skap, og þaræð hann var bæði kostgjæfinn í verki sínu, trúr og sparsamur, svo gaf Kaupmaður honum að lyktum einka dóttur sína til konu, og arfleiddi hann til allra sinna eigna. Sjáið nú, børn mín! svona varð Richard Whittington lángæfinn og farsæll, vegna þess hann á sínum úngu árum, var svo hyrdtinn og samheldinn; því jafnvel þó eitt sérdeilis ti:felli gjørði hið mesta hér til, svo var þó sparsemi þessa úngmennis høfuð orsøkin til hans eptirfylgjandi gjæfu, því hefði hann ecki sparsam-

ur verid, svo mundi hann ecki hafa uppalid kottinn til ad sefja hann, ecki áunnid sér eſku fódra síns, sem þá hefdi máſké ecki leyft honum ad ala upp kéllínginn, og þá mundi líka þetta happa tilfelli hafa sneitt hjá honum.

En hvornig á madur ad haga sér, spurdi Hansmann, yngsti sonur Kruskjærs, þegar hann vill vera sparsamur?

Þad skal eg segja þér, barnid mitt! svaradi fadir hans, gádu nú ad, Hansmann! sparsemin er í því innifalin, ad menn hafi tilhærilega gát á øllum sínum eigum; ad madur brúki þær eingungis til þess, þær eru tilætladar, en vakti sig fyrir ad fordjarfa þær, tapa þeim, edur útausa fyrir óþarfa og kræsíngar handa líkamanum; þid megid, t. d.: klæda yckur í sparifötin yckar, en leggja alla stund á, ad þau hvørki rifni né skémmist af ødrul, ad þarfláusu; lesa kostgjæfilega í bókum yckar, en ecki velkja þær né sundur-rífa; þegar þid leggid eitthvad, sem þid hafid brúkad, aptur á réttann stad, svo þad ecki fargist edur slækist híngad og þángad, þá erud þid sparsom børn, eg segi: þid megid brúka allt hvad yckur

er géfið, þegar þið að eins brúkið það til þess, sem ætlað var; því hugsið ekki, að sparsemin sé þarí fólgin, að geyma og læsa niður allt-hvað maður á, án þess að brúka það sjálfum sér og øðrum til nota; nei, bestu børn! ágirnd heitir það; og hún gjørir yckur ekki einúngis sífellt ófarsæl, heldur gétur hún líka auðveldlega sett yckur í þá hættu, að þið verðið fátæk.

„Ecki kémst eg vel í skilníng um það, „nágranni! sagði Gottvill; hvørnig gétur „ágirndin sett einn í þá hættu að hann „verði fátækur?"

Hvørnimm hún géti það? eg skal þá útleggja orð mín betur; munið þér ecki til fyrrum Penínga-víxlara Veits, sem bjó nedst í Breiðu-gøtunni? og því skyldud þér ecki muna til hans? það eru ecki meir enn 5 ár síðan hann deyði; vár hann ecki í sinni tíð, svo ágjarn, sem nockur maður kunni að vera? var hann ecki, áður enn ágirndin greip hann, vegna arfsins, sem hann féck eptir hana ømmu sína, einn með þeim ríkustu mønnum í staðnum? og var hann ecki engu að síður loksins grafinn, sem húsgángur? hvar af kom þetta?

„Ecki veit eg til, ad nockur sérleg ó-
„happa tilfelli væru skuld í því.“

Eg ecki heldur, en hitt veit eg, ad á-
girnd hans gjördi hann fátækann. Hann
vildi allt í einu raka samann miklum pen-
íngum med sínum erfda-hluta, flækti sig
því í margskonar kaupverslun. Til ad kom-
ast vel af med hana, hefdi hann þurft ad
halda 3 edur 4 hendlunarþénara, en ágirnd
hans rak hann til, ad vilja gjöra allt ein-
samall; en þar hann gat þó ei meiru af-
kastad enn einn madur, svo kunni þad ei
annars ad vera, enn ad margir hlutir færu
í ólestri fyrir honum, og væru midur vand-
adir enn bar, hvar af hann beid mikinn
skada. Vinnu-fólki sínu galdt hann svo
lítid kaup og hélt þad svo illa, ad þad, neyd-
ar vegna, hlaut ad stela frá honum. Þessi
hans nirfils-háttur keyrdi svo fram úr, ad
hann ecki tímdi ad láta sinn eginn fénad
hafa naudsynlegt fódur; hvör kýrin drapst
á fætur annari, og hvörr hesturinn eptir
annann. Þegar hann vard þessa vís, ætl-
adi hann ad gánga frá vitinu, kéndi vinnu-
fólkinu um alltsaman, og bardi þad blátt og
blódugt, hvarfyrir honum var uppálagt ven-
ínga-straff af Yfirvaldinu. Fyrníng fell á

hús hans, og með litlum kostnaði hefði hann gétað endurbætt það; en það gédjaðist honum ecki, og loksins féll það í grunn. Kæmu fátækir til hans og beiddu ølmusu, lét hann þá sífellt fara synjandi. Beiddu nágrannar hans að ljá sér eitthvørt amboð eða búsgagn, þá hélt hann ætíð þeir mundu skémma eða molfa það, og neitaði þeim um það; þess vegna átti hann ecki einn einasta vin; enginn maður vildi þéna honum, og þegar hann þurfti nockuð til annara að sækja, svo mátti hann ætíð borga það tvennum eður þrennum verðum. Að sínustu vildi hann gjøra allt sjálfur, og eins að sauma uppá sig, svo hann þirfti ecki að borga sauma-kaupið. Við þetta forsómaði hann enn þá meira sínar vigtugri sýslanir, og leið sífellt stærri skaða. Aldrei hafði hann tímt að borða sig mettann, og drógst því smám-saman upp í hor og vesøld. Hann hefði máské kunnað að komast aptur til heilsu sinnar, en bæði læknir og læknis-meðøl kostuðu ofmikið. Þegar hann hafði legið í lángvarandi sjúkdómi, í hvørjum allt hans ástand hafði farið stórum versnandi, dó hann loksins, og lét eckert annað eptir sig enn heilsu-veikann son, niðurfallið hús, nockra

hætta fata-garma og Svídingsnafnid. Nú, hafdi eg ecki orsek til ad segja: ad ágirndin hefdi gjört hann fátækann?

Börn mín! vaktid yckur því fyrir þessum lesti, géfid ecki meira út enn þörf krefur, en vissulega ecki heldur minna; þegar ad því kémur, ad þid setjid fætur undir yckar egid bord, þá dragid aldrei af verkafólkinu þess velforþéntu laun, heldur géfid því svo mikid, sem þad þarf til ad halda vid heilsu sinni, og lifa farsællega eptir sínu standi, til þess þad þurfi ecki ad neydast til ad stela frá yckur; kosti svo miklu, sem med þorf uppá líkami yckar, til ad vidhalda þeim hraustum og heilbrygdum; sjáid ei heldur eptir, þó þid og fólk yckar gjöri sér skickanlega til gamans; gleymid og ecki ad glédja hina fátæku, ef þid erud wegnug um ad gjöra þeim gott; en allt þad, sem gengur fram yfir hóf, er yckur skadlegt. Meiri klædnadur og búsgagn, heldur enn þid naudsynulega þurfid á ad halda til ad lifa sómasamlega; fleira vinnu-fólk enn þid medþurfid; meiri fæda enn manneskjan hefir not af, til ad vera mett og ánægd; fleiri skémtanir, enn þörf krefur, til ad giöra sig optur á ný hæfann

og lystugann til sinna athafna; allt þetta eydir, þá stundir lída fram, yckar formegun, og h'ýtur, hvört þad varir lánga stund edur skamma, ad gjöra yckur ógjæfusamleg.

Nú, mín gódu börn! þar allt í kríngum oss er í kyrrdum, svo megum vid líka endurnæra vora líkami med sætum svefni, til ad safna nýjum kroptum til athafna vorra, ad morgni komanda. — Annad-qvöld, þegar þessi fagra stjarna, sem þid sjáid þarna í austrinu er komin upp, vil eg halda áfram med ad kénna yckur, hvad þid þurfid meira ad gjöra, til ad verda dygdugar og farsælar manneskjur í heiminum.

Nágrannarnir budu hvör ödrum gódar-nætur, beggja börn gjördu slíkt hid sama, og gengu sídan til hvílu.

---

## Önnur Qvöldræda.

### Um Skyldurnar vid adra.

Fyrir sólarlag qvöldid eptir, var Gottvill og börn hans komin aptur undir Lindi-

-treð. Skömmu síðar kom líka sómamaður-inn Arnkjær, leiddur af börnum sínum, með því gladværðarfulla yfirbragði, sem honum var ætíð svo eginlegt, að enginn gat litið hann, án þess að finna nockurs-konar innvortis gleði með sjálfum sér.

Elsku-börnin mín! sagði hann, í því hann setti sig niður, og umfaðmaði eitt eptir annað; það, sem eg í gjær sagði yckur, mundi hardtnær duga til að gjöra yckur farsæl, ef þið gætuð lifað ein, út af fyrir yckur; en, allteins og þið viljið lifa og vera farsæl, eins vel vilja það og að-rir, og þessir, í hvorra samfélagi, þið hljót-ið að lifa, eru ecki allir góðir og skynsam-ir menn, og hvörsu góðir og skynsamir, sem þeir væru, þá eru þeir þó ætíð menn; þið hljótið því að læra, hvað þið egið að gjöra, svo þið fáið lifað óhult og luckusæl á meðal þeirra, og að þeir sjálfir stydji að farsæld yckar.

Nú sem stendur, eru að vísu ríkar skorður reistar við því, að menn géti ó-hultir lifað fyrir annara yfirgángi; en sú hefir tíðin verið, börnin góð! að menn hefðu engann Kóng og eckert Yfirvald, og

hvørr einn lifdi, sem hann vildi, og hvørr einn leitadist vid ad gjøra sjálfann sig svo farsælann, sem hann gat; enginn kjærdi sig um annars velferd, enginn hafdi neitt yfir ødrum ad segja, og hvørr einn gjørdi hvad hann lysti, og þurfti ecki ad óttast fyrir nockru straffi; þettad má hafa verid farsældarfullt ástand; eda haldid þid ecki þad? nú, vid skulum þá heyra hvørnig því reiddi af: hvørr einn hugsadi þá, eins og eg sagdi, einúngis ad koma ár sinni vel fyrir bord, og enginn vildi ødrum hjálpa. Ef einhvørs hestur féll í pytt, edur eins vagn vard fastur í bleytu, edur einn lagdist veikur á førnum vegi, svo gengu allir framhjá, og létu eins og sér kæmi þad eckert vid. Þegar nú sá, sem hafdi ordid fyrir þessu, leit einhvørn þeirra naudstaddann, sem ecki hafdi lidsinnt honum, svo vildi hann heldur ecki koma honum til hjálpar, og þannig lét sá eini hinn annan ætíd vera hjálparlausann; en nú er svo ótølulega margt í verøldinni, sem madur er ecki einfær um. Þid gétid ecki einsømul byggt hús handa yckur, saumad uppá yckur, mat-reidt handa yckur, forsvarad yckur þegar einhvørr yfirsterkari vill gjøra á yckar hluta. Þared nú hvørr

og einn sorgaði einúngis fyrir sjálfum sér, svo var allstaðar mikil neyð; á þeim tíðum gáfust og bóndar manneskjur, sem tóku frá öðrum eignir þeirra, þegar þessir voru hinum máttkari; þrír eður fjórir yfirféllu einn, ráku hann af eignum sínum, og lifðu af því, er hann með sínum sveita aflað hafði; á meðan varð-hann sjálfur að snikja, þar hann einsamall gat ei varist svo mørgum; þannig lifðu þessar aumu manneskjur á hinum fyrstu tíðum, sífellt í ótta og aldrei óhultir fyrir því, að einhvørr mundi þá og þá reka þá frá eignum sínum; loksins tóku nockrir skynsamir og góðir menn sig saman, og inngengu-sín á milli, að þeir vildu veita hvorr øðrum hjástoð; en þar þánka-kraptur þeirra var mjøg svo óstøðugur, svo gátu þeir ecki miklu til vegar komið; þeir hjálpuðu að sønnu hvørjir øðrum, en þó án reg'u og skynsemdar; þessi kom strax, hinn ofseint; þessi tók til varnar, hinn ecki; þeir vondu menn høfðu optast yfirhøndina, og vóru að mestu búnir að ná undir sig herfánginu, áður hinir komu til, sem áttu að hindra þá.

Þeir góðu menn, sem høfðu skuldbundið sig til að veita hvørr øðrum lið,

féllu loksins uppá þann þánka, að útvelja einn af félögum sínum, hvörjum veita skyldi viðstöðulausa hlýðni, þegar hann vildi eitthvað bjóða, sem horfði til félagsins besta; þeir skipuðu einnig til, að hvörr og einn skyldi leggja þessum eina manni nockuð til uppheldis, svo hann gæti borið umforgun fyrir állra hinna róserud og lucku. Hér af hafa Kóníngar sinn uppruna.

Kóngurinn lét sér nú vera annt um, að hafa vakandi auga á því hvört nockurr óhlutvandur ásældist þann góða og skickanlega, eður gjörði honum skaða. Undireins og hann var þess var, gaf hann félaginu teikn, sem þá, án tafar, kom saman, til að reka óvininn af höndum sér. Fyrsómaði nockurr af ásetníngi að koma, var hann vægðarlaust útrekinn frá félaginu; því þeir sögðu: hefði fjandmaðurinn yfirfallið þig, þá hefðum vér allir mátt koma þér til hjálpar, fyrst vér höfðum lofað því, og sama vonuðum vér að þú mundir gjöra; en fyrst þú vildir ecki koma, oss til styrktar, svo viljum vér og ecki heldur veita þér framar fulltíngi.

Svona stóð nú um stund; en nockrir

af þessum góðum mønnum, sem þannig hofðu skuldbundið sig til, að lifa undir kónglegri stjórnun, urðu sjálfir ecki góðir til lengdar, vildu miklu heldur lifa af ráni og grípdeildum, enn sínu egin erfiði. Ef einn sókti eptir að svæla undir sig eignir nágranna síns, svo risu allir upp og leitudust við að forsvara þann, er óréttinn leið; hinn annar átti sér og tíðum vini, og þá komst allt aptur í sama horf, sem fyrr, svo eckért var annað í félaginu, enn óði, prettir og undirferli. Það bar og opt við, að menn komu í hár saman útaf eintómri grunsemi. Þeir góðu menn hugleiddu þetta, og nú kom þeim ásamt, að enginn utan Kóngurinn skyldi meta það, hvørt sá eini í raun og veru gjørði hinum øðrum órétt, og sækti eptir því, sem var hans, eður ecki, og þegar Kóngurinn segði: hann hefði órétt, svo skyldi ecki einúngis einginn, hjá'þa þeim, semKóngurinn þannig dæmdi, heldur skyldi allt félagið veita honum mótstøðu, og hjálpa þeim til réttar, sem áhallaðist.

Þið getið léttilega ímindað yckur, að Kónginum einsømlum var það um megn,

ad bera umſorgun ſyrir øllu þeſsu til lengdar. Að ſkéra úr ſvo mørgum þrætum, ſem hvað eptir annað uppkomu, hefdi verið ofætlan að leggja hønum einum uppá; hann valdi því nockra af þeim ſkynſømuſtu í félaginu, ſem í hans nafni ſkyldu prófa og dæma þeſsar miskliidir. Sjáið, børn! ſvona eru **Yfirvøld** og **Réttargángur** undirkomin.

En á medal þeſsara vóru optlega heimſkir og íllgjarnir menn, ſem ſyrir velvildar-ſakir héldu meira með einum enn ødrum, og dæmdu því ýmislega. Í dag hafdi þeſsi rétt, en á morgun hinn annar órétt, enn þótt bádir hefdu vidlíka ſøk. Þá Kóngurinn varð þeſsa vís, ſvo fyrirſkrifadi hann hvørjum einum, hvørninn hann í øllum tilfellum dæma ſkyldi; og þar af hafa **Løgin** ſinn uppruna.

Með þeſsum løgum var það nú og ákvardað, hvað hvørr ſkyldi gjøra og láta ógjørt; ein harla nytſamleg innrétting! því einnig þeir beſtu menn, gátu þó ecki ætíð ſéd hvað þeim og gjørvøllu félaginu var gott og nytſamlegt; hefdi nú hvørr einn haft rétt til að dæma þar um, hvørninn haldið

þið þá hefði farið? þeßi vildi segja: já, það er gott! hinn: nei, það er ecki gott! þeßi: það má svo vera! hinn: nei, svona skal það vera! og að síðustu mundi eckért verða endilegt, því **svo er margt sinnið, sem maðurinn er.** Gengur það ecki opt þann-ig til þegar þið eruð að leika yckur, børn! að eitt yckar vill skémta sér að þeßu, hitt að hinu, og þegar yckur hefir lengi égreint um þetta, ellegar þið eruð komin sitt í hvørja sundrúngina, svo er leiktíminn á enda, eða hvört eitt leikur sér útaf fyrir sig, sem hvørgi nærri er svo ánægjufullt, sem þegar þið skémtið yckur øll samegin-lega; allteins mundi það og til gánga í mannanna sam-félagi, ef hvørr einn mætti einúngis gjøra hvað honum gott þækti; þar fyrir er það bæði gott og skynsamlegt, þeg-ar einúngis einn eða fáir segja: **Það er gott!** og hinir aðrir samsinna því.

Þetta félag viðhéldst nú aptur nockra stund, en smámsaman uppkomu í øðrum støðum enn þá fleiri féløg, sem optlega véru vond og heimskufull; þeßi fávísu fé-løg hugsuðu optlega, að þeirra farsæld byggi í því, að yfirfalla ønnur og burttaka

þad, sem þau áttu; þar af mættu þin gódu féløg margføldum áráſum; þau hlutu ad leggja nidur ſýſlanir ſínar og grípa til varnar. Opt vóru þau yfirfallin midt í þeirra næríngar útveg, og gátu því ecki varid ſig, og opt bar þad vid, ad þótt þau gætu variſt, þá viſſu þau ecki hvørnig þau í hvørt ſinn ſkyldu haga ſér, því í háreyſt-inu heyrdu þau ecki ætíd edur ſkildu hvad høfdíngi þeirra baud. Þau féllu þeſs vegna uppá, ad nockurr hluti þeirra ſkyldi ein-úngis hafa ſitt uppheldi af því, ad vera þeim til varnar: vaka, þegar adrir erfidudu og hvíldust, og þegar enginn óvinur væri fyrir hendi, þá ſkyldu þeir þeſs á millum læra, hvørnig þeir ſkyldu haga ſér mót fjandmønnum ſínum, vid ſérhvørt þeirra áhlaup, og í ſérhvørju tilfelli; þar af hefir Strídsfólk ſinn uppruna.

Þar þetta fólk hafdi nú lítinn eda engann tíma til jard-yrkju, edur annars verklags, en var þó félaginu nytſamlegt, ſvo var þad ályktad, ad ſérhvørr hinna annara ſkyldi, af efnum ſínum og ágóda, leggja þeim nockud til uppheldis; þar vid tapadi hvørr einn ad víſu nockru, en þeim

borgadist þad aptur med því, ad þeir mátti lifa í rósemi og óhultir um sig, og þurftu ecki á hvørju augnabliki ad óttast áhlaup óvinanna, eda hindranir í erfidi þeirra. Nú, gódu børn! fyrst þid hafid nú heyrt vid hvada tækifæri Kóngar eda Furstar, Réttargángur, Løg, Strídsmenn og þeirra Laun, Skyldur og Skattar eru uppkomin, svo lærid nú, hvad þid egid ad gjøra, svo allt þetta verdi yckur til nytsemdar.

Þegar Kóngur vor eda Yfirvøld skipa oss nockud, þá horfir þad optast-nær til gagns og góda øllum hans þegnum, þegar hann heimtir skatta af oss, svo verdur þeim varid til vors besta. Hann hlýtur ad halda Strídsfólk, til ad verja oss; ad skipa Réttargáng, sem verndi oss mót órétti vondra manna. Hann hlýtur ad launa skynsømum mønnum sem finna uppá allskonar medøl, er efla undirsátanna farsæld og heillir. Hann hlýtur ad undirhalda lærda Kénnendur, sem segja oss, hvad vér eigum ad gjøra, og láta ógjørt, svo oss vegni vel; til alls þessa brúkar hann peninga, og af því þeim verdur varid oss til besta, þá er þad sanngjarnlegt ad

vér leggjum þá til. Vér egum því tregðu-
laust að gjalda það, sem Kóngur vor
lætur af oss krefja.

Kónginum eigum vér fúsa Hlýðni
að sýna, og öllum þeim er bjóða nockuð í
hans nafni. Því þar hann einsamall ber
umhyggju fyrir, að allir megi lifa óhultir
og ánægðir, svo hefir hann og rétt til að
heimta, að hvörr einn skuli gjöra það, sem
hann lætur bjóða honum, hvar um vér,
hans undirsátar, ecki kunnum að dæma
svo vel, sem hann, hvört það sé nauðsyn-
legt, eða ecki. Þar fyrir kémur það oss
ecki við að spyrja: hvar fyrir vort Yfir-
vald láti bjóða oss þetta edur annað, því
vér hofum ecki ætíð vit á því; vor skylda
er að hlýða. Látið þess vegna, þegar
þið eruð orðin fullorðin, ecki tæla yckur
af þeim, sem aldrei eru ánægðir með
Kónunginn og Lögin; þið vitið nú svo
mikið, að það, sem gjörir félagið, sem þið
lifið í, farsælt, það sama gjörir yckur
einnig farsæl, en hvað þéni til félagsins
besta, berið þið ecki skyn á; þar fyrir skul-
uð þið láta þeim það eptir, sem vita það,
og sem eru til þess settir, að auglýsa
yckur það.

Yfir høfud, kjæru børn! er Hlýdnin vid þá, sem yfir ofs eru bodnir, hvørt heldur það er vor Kóngur, vor Yfirvøld, vor húsbóndi, vor fadir edur vorir Kénnendur, ein af þeim mikilvæguſtu ſkyldum, því óhlýdni gjørir ofs viſsulega ófarſæla. Eg hefi t. d.: leyft yckur, børnin gód! ad leika yckur ſvo ſem þid viljid á hladinu, í kálgardinum og undir Lindi-trjánum, en eg hefi þarámóti bannod yckur ad koma nærri brunninum, ſem er í gardinum; ef þid nú yfirtrodid þeſsa mína ſkipun, þá mundud þid ſtofna yckur í lífs-hættu, edur þó þid kynnud ad komaſt af í eitt ſkipti, ſvo væri ſamt útgjørt um alla yckar ſkémtun framvegis; því þar eg elſka yckur, og vil gjarnan hindra ad þid ſkadid eda meidid yckur, ſvo þyrdi eg, frá því augnabliki, ſem þid hefdud ſýnt mér óhlýdni, aldrei meir ad leyfa yckur ad hlaupa um hladid, kálgardinn edur undir Linditrén, þar eg ecki framar vogadi ad reida mig uppá yckar hlýdni, og mætti óttaſt fyrir, ad þid á ný mundud koma nærri brunninum. Í ſtadinn fyrir ad þid nú, þegar þid erud búin ad læra lectíu yckar, megid ſkémta yckur úti, ſvo yrdud þid þá ad láta yckur lynda

ad kreppa yckur saman inná badstofu-lopti, og sitja þar med leidindum, þegar eg ecki kiæmist til ad vera úti ad hafa gát á yckur; mundud þid verda ánægd med þad?

Vaktid yckur þess vegna fyrir óhlýdni, í hvørju hellst, sem vera kann, hvørt heldur þad er vid mig edur vid þá, sem kénna yckur; vid yckar tilvonandi húsbændur eda yckar Yfirvøld; allt hvad yckur verdur af þessum bodid edur bannad, er gjørt í því skyni, ad hvørki þid né adrir gjætu annars ordid farsælir.

Þannig er ockur, t. d., bannad: ad gjøra nockrum mein, med hvørjum hætti, sem vera kynni, og þad lógmál géfid: ad **hvør, sem af heimskufullu glensi edur af straffsverdri óadgjætni, edur og af reidi og vondsku meidir annann, hinn sami skuli med meidslum straffast.** Eptir þessu logmáli verdur sá, sem slær annann, sleginn aptur, og sá, er sviptir einn lífinu, tapar sínu egin lífi; eda meinid þid, børn! ad vel mundi hafa farid, ef ockur hefdi ei verid gésin þessi løg; vid skulum gæta vel ad því.

Mannstú ecki, Vilhjálmur litli! (svo hét þess gamla Ærukjærs, sjø vetra gamli sonur) hvørnig strákurinn vildi fara með þig á døgunum, þegar þú géckst ein=samall í skólann? seigðu ockur hvørninn það fór á milli yckar.

„Eg hafði, Faðir minn góður! eckért „gjørt honum á móti, þegar hann allt í „einu kom hlaupandi til mín, og ætlaði „að hrifsa af mér brauð=kökuna, sem hún „móðir mín hafði géfið mér; þegar eg bað „hann að láta hana vera, því það væri „kakan mín, hótaði hann að berja mig ef „eg léti hana ecki strax lausa!“

„Gatstú þá ecki varið þig, drengur minn?

„Æ! nei! Faðir minn góður! hann „er svo stór sløttur að honum var hægt „að ráða við mig; þegar hann var bú=„inn að reiða til høggs við mig með „prikinu sínu, sagði eg hann skyldi slá „mig ef hann vildi; en hann mætti vera „viss um það, að eg skyldi segja Lö=„cátnum eptir honum, svo hann yrði „barinn aptur; þá hikaði hann við, og „eg héllt köku minni.“

Sjáðú nú, sonur minn! svaraði Krukkjær, hvørsu gott það løgmál er: að sá, sem meiðir annann, skuli með meiðslum straffast. Ef þessi løg hefðu ecki verið til, svo hefði þessi lángi drengur tekið af þér køkuna þína, og máské barið þig ofan í kaupið; en þar hann óttaðist fyrir straffinu, svo lét hann þig vera í friði.

Sjáið, børn! svona er það allstaðar í heiminum; vér eigum að þacka það þessum løgum, að vér megum óhultir gánga út og inn, óhultir rækja vort erfiði og sofa rólega; hefðu þau ecki géfin verið, þá mundi engin manneskja mega vera óhrædd um sig eitt augnablik, sá sem hefði yfirburðina mundi yfirfalla þann, sem væri minni máttar, hvar sem hann finndi hann, ræna hann, leika hann ílla út, og máské slá hann í hel. Sérílagi væri ílla ástadt fyrir yckur, vesælíngs smælíngjunum! á meðan þið gétið engu af yckur hrundið; vondar manneskjur mundu taka frá yckur allt hvað þið hefðuð, skfellt erta yckur upp, narra og berja yckur, og slá yckur í hel, þegar þeim sýndist, án þess að hundur gélti að því. Þið sjáið því berlega,

hvørsu gott það er fyrir yckur, að þeßi Tilskipan er gjørð, og hvørsu fegin þið megið verða að lifa eptir henni, ef þið viljið ecki gjøra yckur sjálf ófarsæl; þackið þeim fyrir, sem hefir géfið þeßi vísu løg, og vaktið yckur fyrir að yfirtroða þau, jafnvel þó það ecki væri nema í gamni, því úr gamni gétur orðið alvara, og ménn hafa tíðum séð, að þeir, sem hafa byrjað að tuskast í glensi, hafa að síðurstu orðið morðíngar; þannig géck það til fyrir þeim úngа manni, sem hér var fyrir 6 árum hálshøggvinn. Í húsinu, sem hann átti heima, var annar únglíngur; einhvørn dag, þá hann hafði eckért að sýsla, fór hann, sér til dægrastyttíngar, að glíma við lagsmann sinn; út af glímunni hlutust smá-snoppúngar í gamni, og af þeim aptur áflog í alvøru, og loksins vildi svo ógjæfusamlega til, að hann sló til lagsmanns síns með qvistóttu byrki-priki; høggið kom á gagnaugað, og pilturinn féll dauður til jarðar. Vegandinn ætlaði að flýja, en réttarins þénarar gripu hann, og hann hlaut að betala með lífinu; því Dómendurnir søgðu: **hvørr, sem úthellir mannsins blóði, hans blóð skal aptur úthellast.**

Allteins er því varíd med **Þjófnad;** væri þjófnadur ecki fyrirbodin, hvørsu hør=mulega mundi þá ecki gánga til í heimin=um! engin manneskja gæti átt nockurn hlut í fridi; enginn, sem nockud ætti, mundi eitt augnablik vera óhultur um eig=ur sínar; þad eru þess vegna viturleg løg, sem bjóda: **ad sá, sem gjørir ødrum skada, edur tekur nockud frá honum, skuli ecki einúngis bæta skadann ed=ur þad burt=tekna aptur, heldur og svo þaradauki lída smánarlegt eda qvala=fullt straff,** ødrum til vidvørunar. Nú kunnum vér nockurnveginn ad vera ótta=lausir, þar þessi løg vardveita eigur vorar, því þad straff, sem lagt er vid þjófnad, er svo stórt, ad enginn, sem ecki er því forherdt=ari fantur, gétur látid sig lysta til ad stela frá ødrum; því sá, sem er ordinn uppvís ad þjófnadi, er af Yfirvaldinu straffadur med fjøtrum og fángelsi, já, einnig á lífinu, og þó hann ecki verdi med øllu uppvís, held=ur einúngis hafdur grunsamur um þjófnad, svo er hann þó hatadur og forsmádur af øllum; enginn vill láta hann koma inn í hús sitt, og verdi því ecki varid, þá læsa menn alla hluti nidur fyrir honum, og hafa

vakandi auga á honum, senda fólk eptir honum til ad gá ad, hvort hann engu hnuplad hafi; vilji hann fá eitthvad til láns hjá ødrum, þorir enginn ad trúa honum fyrir því, þó hann aldrei sverji sig svo mikid og sværi uppá, ad skila því aptur; hendi-hann eitthvørt ólán, svo hefir enginn medaumkan med honum; rati hann i bágindi, vill enginn hjálpa honum, og optastnær verdur þvílík manneskja fátæk og vesøl.

Í tilliti til þessa løsts, megid þid einnig, børn mín gód! vakta yckur fyrir þeim fyrstu upptekum til hans; enginn verdur stór-þjófur allt í einu, almennast byrjar hinn þjóf-géfni á hnupli, sídan leysir hann sér allrahanda smáþjófnad, og þegar hann er ordinn ad vana-verki, svo verdur dyrfskan æ meiri og meiri, uns hann verdur rummúngsþjófur; hann ber fyrst nidur á smáu, og rædst sídan í hid stærra. Munid þid ecki søguna um þjófinn, sem rétt í því hann átti ad hengjast, beit í eyrad á henni módur sinni? eg hef nýlega sagt yckur hana, hvørt yckar man hana nú?

„Eg, eg,“ sagdi **Vilhjálmur** litli, og hóf eptirfylgjandi frásøgu:

Þar var einusinni þjófur, sem átti að hengjast; þegar hann var kominn undir gálgann, varð honum litið til móður sinnar, sem grét og bar sig hørmulega. Hann beiddi bøðulinn leifis, að mega tala nockur orð við hana áður enn hann dæi. Böðullinn leyfði honum það; þjófurinn gèck til móður sinnar, og lét, sem hann vildi hvísla einhvørju í eyra hennar, en beit hana með sama svo fast, að kérlíngin skrækti hástøfum. Fólkið, sem viðstatt var, féll í furðu og sagði: vondur er skélmir þessi, að hann rétt í því hann á að hengjast, gétur bitið í eyrað á henni móður sinni; en þjófurinn svaraði; kjæru vinir! undrið yður ecki svo mikið yfir þessu; kunnugt veri það yður: að þessi mín móðir er orsök til minnar smánar og míns dauða; þegar eg var barn, vandi eg mig til smá-þjófnaðar, en móðir mín straffaði mig aldrei fyrir hann; þegar eg var í skóla stal eg stafrofs-borðunum frá mínum skóla-bræðrum, og þegar eg kom heim, gladdi hún sig þar yfir og seldi stafrofin; af þessu magnaðist meir og meir lystin hjá mér til að stela, uns eg varð stór-þjófur. Hefði móðir mín strax

í fyrstunni straffad mig, þá hefdi ecki farid svo hraparlega fyrir mér, sem nú er komid, og þess vegna beit eg hana í eyrad, til — til — hvornig var meira, Fadir gódur? nú, Vilhjálmur! sagdi fadir hans, til ad láta hana med tilfinnanlegum hætti vita, ad hún væri orsök til hans dauda.

Sjáid nú, børn mín gód! svona gengur þad ætíd: menn byrja á smá-lostum, en enda á þeim stóru; vaktid yckur þess vegna fyrir smá ókunyttum, fyrir sérhvørjum smá-þjófnadi, þó þad væri ecki meira enn hofud-prjóns virdi, og þá munud þid aldrei freistast til ad rádast í annad stærra.

Allskonar Svik, hvørsu lítid, sem í þau kann ad vera spunnid, eru í raun réttri fullkominn þjófnadur; því þótt þau séu ecki ætíd svo hardt strøffud af Yfirvaldinu, sem þjófnadurinn, þá gjøra þau þó svikarann allteins ólucfulegann og skuldurinn þjófinn. Þegar einn, t. d.: kaupir nockud af ødrum, og betalar þad ecki eins dýrt og hann hefir lofad, edur tekur eitthvad til láns og skilar því ecki aptur, svo vill

enginn maður selja honum neitt framar; enginn ljá honum nockurn hlut; og munduð þið sjálf ecki gjøra hið sama? ef þið hefðuð léð einhvørjum fötin yckar ellegar hatt á höfuðið, og hann ecki skilaði hvørutveggju aptur, munduð þið ecki varast í øðru sinni að verða við bón hans? fáir láta pretta sig optar enn einusinni; sá, sem hefir einusinni svikið, er allt eins illa staddur og þjófurinn; menn hata hann og hræðast allt eins mikið, og ástunda að hafa sem minnst saman við hann að sælda, og skipta sér eckért af honum þó hann sé nauðstaddur. Veri Bókhaldari vinar míns sáluga, sem eg sagði yckur frá í gjær, spegillinn; þegar þessi prettvísi þegn hafði sáfnað miklum grúa peninga bæði með svikum og þjófnaði, vildi hann stofna kaupverslun fyrir sjálfann sig, og umsetti þess vegna alla sína péninga í vørur. Nú fá Kaupmenn ecki ætíð reiðu peuínga fyrir vørur sínar, en mega þvertámóti optlega lána þeim um stund og tíma, er við þá kaupa, og þurfa þess vegna sjálfir peninga = lán til að innkaupa vørur að nýju; en þessum nafntogaða svikara vildi enginn selja hið minnsta, án borgunar út í hønd, því allir óttuðust fyrir svikum hans;

þegar hann hafði nú eydt øllum sínum peníngum og engínn fannst, sem vildi lána honum einn skildíng, þá neyddist hann til dag frá degi að færa saman høndlun sína, og þar hann líka þurfti þeirra peninga með til lífsuppheldis, er daglega innkomu fyrir vørur hans, svo géck hans ríkidæmi oldúngis upp á tveimur árum, og þá var þar enginn' sem lidsinnti honum, af því allir høtudu hann. Þar hann nú skammadist sín að betla, svo ætladi hann að halda sér uppi á þjófnadi; en hann vard brádlega uppvís, því allir hofdu gát á honum. Hann var sídan að yfirvaldsins tilhlutun gripinn, dreginn fyrir réttinn og dæmdur til æfinlegs þrældóms í járnum á høndum og fótum, svo hann ei framar svíki eda stæli frá ødrum. Svona, edur á líkann hátt, gengur það loksins til fyrir svikurunum.

En, børnin góð! þið eigið að vera sannsøgul og hreinskilin, ecki einúngis í kaupum og sølum, heldur og einnig í allri yckar umgengni vid alla menn, annars verdid þið høtud af øllu rádvøndu fólki. Engum er unnt að sjá inn í annars hjarta, edur fyrifram þeckja sinna

samlags-brædra hugsanir og áform, og hljóta þess vegna að reida sig uppá það þeim sagt verdur. Ef oss er nú ecki sagdur sannleikurinn, svo tökum vér oss margt fyrir hendur, sem verdur til skada; menn hafa þess vegna frá alda-ødli, haft mestu óbeit á lygurum; sá fyrsti skadi, sem lygarin hreppir, er sá, ad menn aldrei framar trúa honum, jafnvel þó hann segi satt. Þannig geck það Marteini litla, sem hlaut mikid íllt af ósannsøgli sínu; hann hafdi nockrum sinnum æft það ljóta gaman, ad narra nágrannana med því, ad reka upp ógnar skræki þegar hann géck á gøtunum, rétt eins og honum hefdi viljad til, eg veit ecki hvad, vodalegt tilfelli. Nágrannarnir þustu saman, og meintu drenginn staddann í einhvørri lífs-hættu, en þegar hann sá' þá, rak hann upp skéllihlátur ad því, hann hefdi gétad narrad þá. Svo bar vid einusinni, er Marteinn var úti ad skémta sér, eptir vanda, ad þar kom ólmur grimmur hundur hlaupandi ad honum. En Marteinn, sem hvørki féck tækifæri ad flýja, né heldur gat varid sig, tók ad hljóda af fullum hálsi: æ! hjálpid mér! hjálpid mér! nágrannarnir heyrdu það ad sønnu, þeir

hugſuðu hann vildi enn á ný narra þá, og ſátu því kyrrir; en hundurinn réðſt á dreng= inn og beit hann til dauða. Sjáið! þetta urðu hans laun fyrir lýgina.

Fyrir utan þetta, er það mikið ſjaldgjæft, að ſá, ſem vðkað heſir lýgi til lengdar, láti af henni og betri ſig. Þó eitt barn hafi vanið ſig á margar ódygðir, ſé það að eins fróm= lundað og ſannſögult og meðkénni aſbrot ſín, ſvo má hafa góða von um, að það verði leiðrétt með ſkynſömum ráðum, en leitiſt það við að dylja og fegra ſínar ávirðíngar, í ſtaðinn fyrir að meðkénna þær, þá er engrar betrunar að vænta, því allteins er því háttað, mín góðu börn! með vorar ódygðir, ſem vora ſjúkdóma; þegar ſjúklíngurinn lýgur að lœknaranum eða dylur fyrir honum orſakir ſjúkdómsins, þá gétur hann ekki heldur fyrirſkrifað hon= um þau réttu lœknis = meðöl, og því hlýt= ur ſjúklíngurinn að fara æ veſnandi. Þannig gengur það barninu, ſem leitaſt við að draga ſkýlu fyrir breſti ſína, þá fær ei heldur ſkynſamt fólk ráðið bót á þeim, eður vanið það af þeim, hvaraf flýt= ur, að þvílíkt barn æſiſt æ framar í hinu

vonda, uns þad ad síðuſtu verdur full-kominn laſtanna þræll. Hreinſkilnin er þeſs vegna hin ſtærſta og naudſynlegaſta dygd, fyrir ſérhvørt barn, en lýgin þar ámóti hin banvænaſta ódygd, ſem því gét-ur til viljad.

Þér hafid rétt í því, nágranni góð-ur! ſagdi Gottvill; lýgi er hinn af-ſkræmislegaſti löſtur; en mundu ei á ſtund-um géfaſt þau tilfelli, í hvørjum menn med gódri ſamvitſku kynnu ad þegja yfir ſannleikanum? heyrid þér nú til: eg verd ad medkénna, ad eg í gjær ſagdi óſatt, yfir hvørju eg í dag, gét þó ecki gjørt mér nockra ſamvitſku, med því eg enn þá ſtoduglega trúi, ad eg væri ſkuldbundinn til þeſs. Eg géck í gjær-qvöldi heim til Amts-gardsins; á veginum mætti mér gamall, fátækur ferda-madur, ſem búinn var ad gánga fram-undir þíngmanna-leid, og vildi képpaſt til næſta þorps, hvar honum var ſagt ad einkaſonur hans lægi daudſjúkur. Hann var af ſér kominn, vegna þreytu, og vard opt ad ſetja ſig nidur, þar honum lá vid ad líta í ómeg-vit, því hann, ørmagnadiſt af veikleika,

þó vildi hann ecki hvíla sig edur tefja, fyrr enn hann hefdi fengid ad sjá sinn vesælíngs son. A medan vid urdum samferda, vard fyrir ockur gøtustígur, sem lá þvers yfir um akurinn; haldid þér eg megi gánga gøtu þessa? sagdi þetta fróma gamal-menni til mín, þad gjørir veg minn fjórdúngi styttri. Því ecki? svaradi eg, vegurinn er trodinn, og engum gjørid þér skada þótt þér gángid hann, hér er og heldur eckert merki uppsett, sem bannar ad fara hann. Gamli madurinn trúdi mér, og héllt áfram, stydjandi sig vid staf sinn, en eg fylgdi alfara-veginum. Ad litlum tíma lidnum, þá eg var kominn upp á hæd nockra, leit eg til baka, og sá, — gódi Gud! hvílík sjón! — eg sá hann af miskunarlausum húdar-skélmir aumkunarlega barinn, sem vildi draga hann med sér med valdi. Mér tók ad hitna um hjarta-ræturnar, og flýtti mér allt hvad eg gat, til ad koma honum til hjálpar; en ádur eg komst á midja leid, sá eg ad íllmennid yfirgaf þann gamla og hljóp ad gérdinu, sem uppsett var med gøtunni, til þess, er eg eptirá merkti, ad kalla á fólk, til ad draga þennann vesælíngs aumíngja

í þjófa-bælið. Karlskepnan fór á medan, sem fætur togudu, og komst í skóg nockurn, er þadan var skamt á burtu. A medan eg hljóp eptir honum, kom skélmirinn med lagsmönnum sínum til baka, og spurdi mig: hvørt eg hefdi ecki sjed hvada veg gamli karlinn hefdi gengid? þángad! sagdi eg, og bendti á þá sídana, sem lá þvert á móti skóginum, hvar eg vel vissi þeir ecki mundu finna hann; en eg flýtti mér ad ná karlinum, og fann hann kominn ad lotum af hrædslu og þreytu, baud eg honum ad leida hann, og fylgdi honum þángad, sem hann ætladi ad fara. Segid mér nú, nágranni! gjørdi eg órétt í því ad segja þessum þorpurum ósatt.

Gud vardveiti oss! svaradi Ærukjær; hvørnig kunnud þér ad gjøra órétt í því, þar þér einúngis hindrudud, ad þann vesælíngs gamla mann hendti ecki meiri óréttur; í þvílíkum tilfellum er þad ecki einúngis leyfilegt, heldur skylda vor, ad dylja sannleikann; lýgi heitir þad, þegar ósatt er sagt ødrum til skada edur mét skyldu sinni; en þegar enginn skylda krefur af oss, ad medkénna sannleikann, þad er, med ødrum ord-

um að segja; þegar enginn, sem hefir rétt þar til krefst þess af oss, og vér þar fyrir utan sjáum, að sannleikurinn verður öðrum til skaða, en engum til nytsemdar, þá erum vér skuldbundnir að þegja yfir honum, og þá forþénar þessi þögn ekki að kallast lýgi.

Fullkominn rétt til að krefjast sannleikans meðkénníngar af oss, hafa einúngis vorir foreldrar, kénnendur og yfirvöld; strax, sem þessir vilja vita eitthvað af oss, svo erum vér ætíð skyldugir að segja þeim hreinan sannleika; því þessir krefjast hans einúngis þess vegna, að þeir géti komið í veg fyrir allann órétt. Ef vér nú segjum þessum vorum yfirboðurum ósatt, svo verðum vér þar fyrir bæði straffaðir og hataðir, þegar slíkt kémst upp um oss, er sjaldan plagar að hjálíða.

Væru þar nú einúngis skynsamar manneskjur til, svo væri það vonda, sem lýgin af sér leiðir, og eg nú hefi undur útmálað, fullnóg til að fæla sérhvörn þar frá; en eins og þar gefast margir menn, sem eru svo heimskir, að drekka sig útúr, jafnvel þó þeir viti að það spilli heilsu þeirra

og heilbrygdi, svo hafa þar og opt verid þeir, er tölúdu ósammindi, enn þótt þeir mættu vita, ad enginn mundi á eptir trúa þeim og þarádauki, mæta hatri, þá lýgi þeirra kæmist upp. Þetta fólk var svo miklu framar hneigt til lýginnar, sem þad var torveldara ad fá þad sannfært um, ad þad segdi ósatt; því hvörr gétur vitad annars þánka? en öllum reid þó á, ad uppfinna þad medal, sem orkadi því, ad sannleikurinn leidist í ljós. **Eidurinn** sýndist vera hid besta medal þar til. Takid nú vel eptir, börn! eg vil útskíra þetta ord fyrir yckur.

Frá alda-ödli, hafa menn trúad því, og verid sannfærdir um þad, ad Gud vissi alla hluti, einnig hugsanir mannanna, ad hann géti gjört allt hvad honum þócknast, og ad hann hafi andstygd á, og straffi allt hid vonda; vér, yckar fedur og allir adrir skynsamir menn erum sannfærdir um þennann sannleika; þegar nú einhvörr géfur nockud út fyrir sannleika, og ecki verdur eptirkomist, hvört svo sé edur ecki, þá segja þeir, sem rétt hafa til ad krefjast sannleikans: „sjá! vér vitum ecki hvört þad er satt „eda logid, sem þú framber, vissum vér

„Það, þá skyldum vér straffa þig ef þú lýg-
„ur, en Gud mun gjöra það í vorn stað,
„því Gud elskar sannleikann, en straffar
„lýgina." Þetta segja þeir og til að vera
fullvissir um, að sá, sem útgéfur nockuð
fyrir sannleika, þenki og þannig, láta þeir
hann kalla Gud til vitnis að framburdur-
inn sé sannur, og að hann straffi sig ef
hann lýgur, og það kalla menn **Eid**; þar
fyrir, svo opt, sem nockurr afleggur Eid,
viðurkénnir hann opinberlega, að hann
trúi Gud viti allt hvað hann hugsar,
og að hann muni straffa sig þegar hann
segir ósatt; þegar nú nockurr sver falskann
Eid, það er: kallar Gud til vitnis um það
ósatt er, þá géfur hann þar með til
vitundar, að þar sé eckért í veröldinni,
sem hann akti þegar hann sjer einhvörn
ávinníng, og að hvörki Gud né menn eða
nockurr hlutur géti aptrað honum frá að
skada meðbrædur sína, þá færi géfst, því-
lík manneskja er álitin, sem úlfur, er ecki
gétur lifað af ödru enn ráni; menn finna
sig aldrei óhulta fyrir honum fyrr enn
hann verdur upprættur af jördunni, og fela
hann þá Guds dómi, hvörs straff hann
hefir enkis aktað.

Að sverja Eið, er því einhvørr hinn mikilvægasti hlutur, er vér ecki megum oss fyrir hendur taka án mestu varúðar og umþeinkíngar, og einúngis þá, er yfirvaldið Guðs vegna krefst hans; hvørr, sem sver gálauslega og án nauðsynja, hann lætur þar með í ljósi, að hann er þvílík manneskja, hvørs berum orðum enginn vogar að trúa; það er og dagsanna: því sá er frekast blótar sér til staðfestíngar sannsøgli sínu, honum trúa menn allra minnst, og hugsa: gjöri hann sér enga samvitsku af að ljúga, svo mun hann eckí heldur horfa í að staðfesta sína lýgi með eiðum; og um þetta er reynslan hinn ólýgnasti vottur. Ef þið þess vegna viljið haldast fyrir trúverdugar manneskjur, svo látið það vera yckar reglu, að staðfesta aldrei sagnir yckar með Eið, og aldrei að sverja, nema þegar Yfirvaldið krefst þess af yckur; en takið yckur líka sterkann vara fyrir að tala lýgi, því Guð adgreinir vissulega sannleikann frá lýginni, og lætur hana ecki óstraffaða; það ber líka sjaldnast til, að lýgi dyljist til lengdar. Ef þið yrðuð nú uppvís að því, að hafa farið með ósannindi, trúir yckur enginn framar, og þó þau komist ecki upp, svo eruð þið þó sí-

fellt ugganði um, að þau þá og þá verði opinber, og það er lángtum meira varið í þá hugar-óróſemi, enn allann þann ábata, ſem þið getið áunnið yckur með lýginni.

Þið hafið nú heyrt, hvørſu mikið yckur ríður á því, að þið ecki með vilja og vitund ſkaðið yckar meðbræður í heiminum, og hvørſu náqvæmlega það er fyrirbyggt með løgunum, að maður þori ecki með áſetníngi að ſkaða annann, en það ſkéður líka opt; að maður mót vilja ſínum gjørir øðrum ſkaða. Þannig bar það til hér í nærſta pláßi, að nautpeníngur bónda nockurs komſt í tún nágrannans og beit það til ſkémda. Þeſsi, ſem varð fyrir ſkaðanum, beiddiſt bóta af hinum, er peníngin átti, þar hann hefði ſkaðann hlotið vegna hins hyrduleyſis; en þeſsi vildi engu góðu tilſvara og engu bæta, En, hvørninn fór? tveim døgum ſíðar, lét ſá, ſem hafði ſkaðann liðið, reka aptur fé ſitt í tún hins óſannſýna manns, hvar af hann beið tvøfallt meiri ſkaða, enn ſvaraði því, er hann hefði átt að bæta. Þið ſjáið þá hér af, að Løggjafarnir hafa gjørt mikið forſjállega í því, að þeir hafa tilſkickað: að ſá, fyrir hvørs

skuld edur hyrduleysi og óadgjætslu, annar lídur skada, skuli þann skada bæta, og eins er því háttad um öll önnur lög, sem oss eru fyrirskrifud, öll mida þau til vors egin, og vorra medbrædra besta; vér erum því skuldbundnir til ad uppfylla allt þad, sem þau oss fyrirskrifa, þó enginn madur þvíngadi oss þar til, fyrst vort egid gagn er þar undir komid, og hvörsu miklu framar ættum vér þá ecki ad kappkosta ad breyta eptir þeim, þared þeirrá yfirtrodsla verdur þaradauki strøffud af Yfirvaldinu.

Þad er gott fyrir oss, litlu børn! ad vér støndum undir løgum og Yfirvaldi; af løgunum kémur gód skickan, af gódri skickun farsæld í heiminum; adgjætid einúngis alla náttúruna, hvørsu sá alvísi Skapari sjálfur hefir innréttad alla hluti, eptir órjúfanlegum løgum! rennid augunum til þess dagilega túngls, sem rennur upp þarna bak vid fjallid! hvørsu reglulegur er sá gángur, sem Gud hefir því fyrirsett! hvørsu nákvæmlega hefir hann afmarkad þess vørt og mínkun! eins og þad kémur upp og gengur undir, vex og mínkar á þeim eina mánudi, eins skéour þad einnig á himum

ødrum mánudunum. Allt eins þrádréttur, allteins áqvardadur er gángur hinna annara himin túngla; aldrei verda menn varir vid ad þau skeiki edur víki frá sínu fyrirsetta hlaupi; allir hlutir koma og fara, láta sig sjá og burtlída, í óraskanlegri ordu. Sjáid, børn mín! þar med hefir Gud kénnt oss, ad vorar athafnir skuli einnig vera innréttadar eptir vissum løgum, ef rósemi og farsæld, skal búa medal vor; eg segi því enn þá einusinni: þad er gott fyrir oss, ad vér høfum løg, og ad þar eru tilsett Yfirvøld, sem eiga ad hafa umsjón yfir ad eptir þeim sé lifad.

Hér þagnadi sá gamli, og allir størdu þegjandi á túnglid, sem nú var nýlega upprunnid og skein gladt; margar vidqvæmar hræríngar qviknudu vid þessa þegjandi skodun og gaumgjæfni, í Wrukjærs og Gottvills brjóstum; loksins gáfu þeir hvor ødrum hendur sínar, budu gódar nætur, og leiddu børn sín til hvílu.

# Þrídja Qvøldræda.

## Um Sélags = Skyldurnar.

Hinar undanfarnu Qvøldrædur þess gamla Ærukjærs, høfdu verid øllum svo ununarsamlegar, ad gjørvallur hópurinn var qvøldid eptir, gódum tíma fyrir sólarlag, aptur kominn undir Lindit ėd og bidu eptir honum. Þid erud þá komin hér, mín elsku legu! sagdi hann, í því hann med hýrlegu bragdi setti sig nidur hjá þeim; þad er enn þá svo snemmt, ad eg hugsadi stadfastlega, ad þid máské mundud leika yckur eina stund, ádur enn vid færum ad byrja ockar qvøldrædu.

„O! leika!" svørudu børnin; og litu ángurvær, hvørt til annars.

Nú! eg gled mig, børnin mín! sagdi Ærukjær, hjartanlega gled eg mig yfir því, ad sjá yckur svo laungunarfull eptir minni undirvísun, ad þid hafid tapad lystinni til ad leika yckur; til verdlauna þar fyrir, vil eg sýna yckur nockud, sem er rétt markverdugt; komid þid nú á eptir mér!

Hann færdi þau í aldin-gardinn; hér hafdi hann veidt úngann Bí-flugna-sverm, og látid hann í gler-krucku, í hvörri sjá mátti þeirra ydjusemi; þad var mjög svo yndælt ad líta athafnir þeirra; nockrar komu fljúgandi og færdu med sér vax klump, sem loddi vid fætur þeirra; adrar, sem fyrir vóru í kruckunni, tóku vaxid af þeim vid dyrnar og færdu þad inn; sumar gjördu aptur þessa vaxhnúda flata, en adrar gjördu smá-rúm þar af; nockrar innfærdu hunáng og fylltu þar med rúmin, og ein á medal þeirra, sem allar sérdeilislega sýndust ad þjóna, og kalladist Drottníng, lagdi egg í nockur rúm, hvar af aptur skyldu verda úngar Bí-flugur; stutt ad segja: sérhvör hafdi sitt egid verk, og engin var ydjulaus. *) Börnin glödduft yfirmáta af sjón þessari.

Sídan mælti **Krukjær**: börn mín gód! af þessum litlu skynlausu dýrum fáid þid lært, hvörsu ágjætur hlutur þad

*) Um Bí-flugur má enn framar lesa Biskups *Doctr.* H. Finnssonar Qvöldvökur *I.* Part No. *XIII.* bls. 65 til. 75

Utlegg.

er, ad gaumgjæfa góda ordu og reglu'ega breytni í hvørjum hlut; hvad haldid þid mundi verda úr ollu þessu, ef sérhvør af þessum Bí=flugum mætti gjøra hvad hana lysti, og engin hefdi sitt áqvardad verk? þá mundi hvør þeirra sorga fyrir sjálfri sér, og einúngis safna svo miklu hunángi, sem hún doglega eyddi. Hinar úngu Bí=flugur, og þær af hinum gømlu, sem ecki hefdu vit á ad safna hunánginu, mundu vanmegnast, og þegar hinn kaldi vetur kjæmi, hlytu þær allar ad deyja í atvinnuleysi. Fyrir allt þetta verdur í veg komid, þar vinnan gengur svo reglulega hjá þeim, og nú sjáid þid hvørsu ágjætlega þeim lídur. Børn mín góð! þannig mega menn og breyta, egi þeim vel ad vegna. Medan hann taladi þessi ord, var hann med børnunum kominn aptur undir Lindi=tréd.

En, mín kjæru børn! sagdi hann enn framar; mikid af því, sem þid egid ad gjøra, er ecki áqvardad í opinberum løgum; eg hefi ádur sagt yckur, og líka vitid þid sjálf, af þeirri litlu þeckíngu, sem þid hafid, ad þid án annara manna

adstodar; gétid ecki lifad farsæl. Ad sönnu gérid þid á stundum keypt yckur, þad, sem þid þarfnist, annadhvört fyrir penínga edur vinnu; en, mín elskudu börn! hvar ætlid þid ad taka svo mikla penínga, sem hröckvi til ad borga med alla þá adstod, sem þid þyrftud til annara ad sækja? eg set, t. d. ad eitthvört yckar félli í djúpa gröf, og hrópadi til einhvörs, sem fram hjá géngi ad hjálpa sér, hvörnig mundi þad falla yckur í géd, ef hinn adkomandi ecki vildi draga yckur upp, nema fyrir penínga út í hönd, en hefdud ecki einn skildíng í vasanum til ad borga med? edur, ef þid vildud gjöra yckur einhvörja saklausa dægra-stytting, en vinir yckar vildu ecki vera yckur til adstodar þar í, fyrr enn þid hefdud lofad þeim þessu edur hinu, er þad ecki satt: ad þad mundi verda yckur leidinda-fullt líf, og verda á stuttum tíma blá-fátæk, jafnvel þó þid ættud nóga penínga; en verid ecki hugsjúk, mín gódu börn! eins mikid, sem þid vidþurfid annara hjálpar og vinfengis, eins mikid þurfa þeir yckar hjástodar vid. Þegar yckar med-brædur sjá, ad þid erud fús til ad hjálpa þeim,

þá þid gétid varad þá vid yfirhángandi skada, sem þeir ecki fyrisjá, eda géfid þeim gód rád, hvørnig þeir skuli haga sér med þad edur hitt, svo þeir megi lifa ánægdir og farsælir, eda þid gledjid þá med yckar umgengni, erud vingjarnleg, þénustusøm og þægileg, þá megid þid vera viss um, ad þeir gjøra sér ómak fyrir, ad audsýna yckur hid sama, og jafnvel meira enn þid gjørid fyrir þá.

Látid þar fyrir ecki nockurt tækifæri hjálída, hvar þid kunnid ad láta þá komast ad raun um þetta. Þeir minnstu smá-vegis hlutir, eru opt nógir hér til, ein heilsan, eitt vinsamlegt augna-tillit, ein heimsókn, ein lítil þénustusemi, er opt nóg til ad afla yckur velvildar yckar samlags-brædra. Einusinni þá eg reikadi úti, var eg svo heppinn, ad eg gat hjálpad barni nockru, hér um 8 ára gømlu, sem mér ásjáandi féll í vatn, og fært þad heim til foreldra sinna; eg gjørdi þad af elsku til barnsins, því vid fødur þess hafdi eg varla tvisvarsinnum talad. Nockrum vikum þareptir vard eg veikur; þá skyldud þid hafa séd, mín gódu børn! hvørsu þessi ærlegi mad=

ur launaði mér mína lít'u þénustu; hann gékk varla frá rúmi mínu, og útvegaði mér þá heilnæmustu fæðu til að næraſt á; hann sendi án minnar vitundar 4 mílur vegar eptir enum duglegasta læknir, sem næſt Guðs hjálp gjørði mig aptur heilbrygðann, og hvørr veit nema eg af þeim sjúkdómi hefði dauðann beðið, ef þeſsi ágjæti og góðhjartaði maður hefði ei svo umhyggjusamlega sorgað fyrir mér; leggið því alla stund á, børnin góð! að elska alla menn, eptir vors Lausnara boði, og sorgið svo mikið, sem møguleat er fyrir því, að þeim vegni vel. Verið reiðubúin strax, sem þið sjáið nockurn hjálpar-þurfandi, að greiða úr vandrædum hans; ímyndið yckur: stæði eg nú í hans sporum, og hann í mínum, hvørsu feginsamlega mundi eg taka á móti hans liðveitslu? og því skyldud þið þá ecki gjøra hið sama; því svo hljóðar Jesú boðorð: allt hvað þér viljið að mennirnir gjøri yður, það skulud þér og þeim gjøra. Eg hef nýlega sagt yckur dæmi-søgu, sem átti að minna yckur á Þénustusemis-skyldu; erud þið búin að gleyma henni?

Jakob litla, Gottvills eldsta son, ránkadi fyrstann vid henni og sagdi dæmisøguna, sem fylgir:

„Limir mannlegs líkama urdu einu„sinni leidir á ad þjóna hvørjir ødrum, „og vildu øldúngis eckí gjøra þad fram„ar. Fæturnir søgdu: hvør skylda ber til „þess, ad vid einsamlir skúlum jafnt „og þétt bera yckur alla? útvegid yckur „sjalfir fætur, þegar yckur þócknast ad „færast úr einum stad í annann. Høndurnar søgdu: því skyldum vid einúngis erf„ida fyrir yckur alla? verid yckur sjálfir í út„vegum um høndur ef þid þurfid nockurs „vid. Munnurinn nøldradi: eg mætti „vissulega vera mikill erki-narri, ef eg „framvegis tøgladi matinn fyrir magann, „til þess honum veitti hægra ad melta „hann; géti hann eckí verid mín án, „svo sjái hann sig um hvar hann gétur „fengid munn. Augunum þótti þad í „meira lagi undarlegt, ad þau einsøm„ul skyldu vera á sífeldri vakt til ad „sjá fyrir øllum líkamanum; slíkt hid „sama søgdu hinir adrir líkamans limir, „og uppsøgdu því hvørjir ødrum allri

„þjónustu framvegis. En hvørnig fór?
„þegar fæturnar vildu ecki gánga fram-
„ar, høndurnar ecki erfida lengur, munn-
„urinn ecki meir eta, augun ecki framar
„sjá, kom allur líkaminn innann tveggja
„daga í svo mikla óordu, ad limirnir
„tóku til ad visna og hvad af hvørju ad
„deyja; þá þecktu þeir fávitsku sína, og
„gjørdu á ný sáttmála um innbyrdis þén-
„ustusemi, og sérhvørr þeirra fann sig á-
„nægdann."

Þad var rétt vel sagt, minn son!
sagdi hinn gamli **Krukkjær** í því hann
ástúdlega klappadi um kinnar hans; þad
eru sumir menn, mín góðu børn! sem
eru tregir til ad gjøra ødrum þénustu,
einúngis af leti og hyrduleysi, adrir þar-
ámóti af **Ofund**, sem er harla vidur-
styggilegur løstur. Eg skal segja yckur
hvørí hann er innifolinn: þar finnast
þær manneskjur í heiminum, sem hafa
þann ótætis annmarka, ad þær eru aldrei
ánægdar med sitt egid, og qveljast í sálu
og samvitsku þegar þær heyra ad ødrum
gengur vel, edur, eptir þeirra meiníngu,
betur enn þeim; eg tek t. d.: þegar þær
sjá einhvørn annann betur klæddann enn

þær eru, edur heyra, ad einhvørjum er hrósad framar enn þeim, virdtur meir enn þær, svo svídur þad í þeim, verda óánægdar og jáfnvel hatast vid þá, er þetta hljóta; þessi løstur kallast Ofund eda Ofundsýki, því hann er mørgum sjúkdómi verri. En nú megid þid vita, ad øfundsjúkar mannesskjur, eru ætíd ad hatri hafdar, því fyrst þær géta ecki vitad ad ødrum vel vegni, svo eru þær aldrei fúsar á ad hjálpa ødrum, eda vera þeim rádhollar; því þad vildi einúngis afla vitfyrríngum þessum enn þá meiri gremju. Væru þær hyggnar, þá mundu þær gledja sig yfir lucku sinna medbrædra, og þessir aptur á mót fagna yfir sérhvørju happa-tilfelli hinna, og képpast vid ad efla þeirra farsæld; en søkum þess þær eru bædi heimskar og íllgjarnar, svo gjøra þær þad, sem er þvert á móti, og þess vegna fer þeim eins og Pétri Ofundarskyldi, hvørs lífssøgu mig minnir eg hafi einhvørn-tíma sagt yckur, er ecki svo? børnin gátu ecki munad þad, og sá gamli Krukjær héllt fram rædunni.

Pétur Ofundarskjøldur var sonur ágjæts føðurs, sem vildi kosta øllu

því hann átti til að fá syni sínum gott uppeldi, og sendi hann í því skyni til hins sama skóla, í hvorjum og um sonu mundir var haldinn af mínum foreldrum. Nú vóru þar mørg rikra manna børn, sem gengu betur klædd enn hann; þetta gramd-ist þessum únga heimskíngja; en hann lét það ecki þar við lenda, heldur kappkostaði, svo opt hann komst høndum undir, að saurga og skémma hinna annara fogru klæði; þetta var uppbyrjun hans ofundar. Hefði hann í það sinn viljað koma til sjálfs síns, þeckt sínar ávirdíngar og betrað sig, þá hefði betur farið, en fyrst hann gjørdi það ecki, fór æ vestnandi fyrir honum. Hann tók og svo hvað af ødru að mis-unna sínum skóla-brædrum alls þess gam-ans, sem þeir hoføu að leikum sínum, og gjørdi allt sitt til að spilla skémtunum þeirra, svo Skólameistarinn neyddist til að útilykja hann frá øllum vorum gledi-leik-um. Gremja hans margfaldaðist við þetta, og sú qvøl, að sjá á skémtanir ockar, gjerdi sálu hans svo órólega, að hann aldrei gaf réttann gaum að því, sem ockur var kénnt, gat þess vegna aldrei svarað eins vel og við, þegar

Skólameistarinn spurdi ockur úr því, sem vid høfdum lært. Skólameistarinn hrósadi þá náms-ydni og skarpleika ockar, en gaf Pétri snuprur fyrir letina og tossa-skapinn; og þetta gjørdi nú allt um eitt. Stutt ad segja: hann fór dag-lega vesnandi, þar til hann ad lyktum vard med øllu óhæfur til ad læra nock-ud nytsamlegt, þared sála hans sveym-adi sífellt í qvøl og ánægju yfir ockar gódu framførum. Þannig leid út allur hans úngdómur án þess hann nædi nockrum dugnadi eda framførum, hvar med hann í framtídinni gæti hjálp-ad sér í heiminum; medfram hafdi hann þad sífellt ólán, ad einginn manns-eskja vildi hafa hid minnsta saman vid hann ad sælda, allir forduduzt hann eins og líkþráann eda pest-veikann mann. Þegar hann hafdi nád fullord-ins aldri, og fadir hans hafdi kostad til menníngar hans allt ad skyrtunni, átti hann ad láta sig yfirheyra til ad fá embætti nockurt, sem hann gjæti lifad af og undirhaldid sína fátæku for-eldra, en hann fannst til allra, og jafn-vel hinna lítilfjørleguztu embætta, ordúngis

óduglegur, og honum þess vegna frávís-að, hafdi því enginn önnur úrræði enn fara flackandi manna á milli, sem ónyt-júngur og landhlaupari, og bidja bein-ínga; optast betladi hann hjá þeim, hvörra gledi hann, í sínum úngdómi, hafdi med öllum upphenkjanlegum hætti, kapp-kostad ad spilla, um eina máltíd matar, eda nidlags flýk, til ad hylja med líkama sinn. Segid mér nú, börn! vilدud þid hafa verid í þessa **Péturs Öfundar-skjölds** stad? þó, eg þarf ecki ad spyrja yckur um þad; enginn gyrnist ad vera ófarsæll?

Flýjid þann ljóta löst, Öfundina, en venjid yckur miklu framar til ad samgled-jast yckar medbrædra heillum, og til ad koma þessu til vegar, hljóti þid gaumgjæfi-lega ad vaka yfir yckar hjarta, ad þad ecki saurgist af **Stolti** og **Drambsemi**, því drambsamur madur ímyndar sér opt, ad allir hlutir séu einúngis skapadir honum til þénustu, og eyrir því sárilla, ad ödrum mönnum gángi betur enn honum; öfund og drambsemi eru skilgétnar systur, og því gét-ur hvörki öfundsjúkur né dramblátur madur

ordid farsæll. Nú lítur hann fólk, er hefir þá yfirburdi, sem hann sjálfann skortir, og gremst því; nú lítur hann adra, er ena sömu yfirburdi hafa sem hann, og verdur á ný óánægdur, ad hann ecki er hinn einasti, sem þá hefir til ad bera. Hvörsu vanvita þvílíkur madur er, sjest medfram af því, ad hann raunar ver þar til ómaki ad skeika frá ætlun sinni; til þess, nefnilega: hann ætlar sér ad vera virdtur og heidradur umfram alla, en af því hann er sjálfur stoltur vid hvörn mann og foraktar alla adra, svo leggja aptur á mót allir forakt á hann, og þad fellur honum nauda sárt. En væri hann þarámóti sjálfur vidfeldinn, ástúdlegur og þægilegur vid adra, mundu þeir eins líka sýna honum sömu atlot, og þá væri hann ánægdur, því menn eru yfir höfud allt eins hneigdir til ad elska þá á mót og virda, sem sýna þeim elsku og virdíngu, eins og þeim er gjarnt til ad hata þá og forakta, sem í vidmóti sínu láta á sér sjá hatur og forakt vid þá.

En fyrst eg tala um Drambsemi, svo megid þid vandlega gjæta ydkar, ad þid ecki takid hana fyrir Æru-kjærleika, sem enginn löstur er, heldur miklu

framar dygd, já! hin naudsynlegasta dygd, eg vil sjá til hvørt eg fæ gjört vckur mismunin á Drambsemi og Ærukjærleika skiljanlegann.

Bædi hinn drambsami og hinn ærukjæri, eru hvørr ødrum líkir í því, ad þeir óska sér ad vera virdtir af ødrum, en óttast fyrir vanvirdu; en Æra er innifalin í gódri meiníngu, sem adrir menn hafa um oss og hegdun vora, allt eins og Skømm edur vanæra er þvertámóti innifalin í ávnara slæmum dómum um oss og breytni vora. Nú finnst bædi sönn og følsk æra, allteins og sönn og følsk skømm, edur vanvyrda, þad er ad skilja: þegar hinn gódi edur misjafni dómur, sem adrir fella um oss er á réttum røkum bygdur, þá høfum vér annadhvørt sanna æru edur sanna skømm; þarámóti, sé þessi dómur ástædulaust affagdur, þad er: ef vér raunar ecki vinnum til þess, menn dæmi svo vel edur ílla um oss, þá hafa þeir audsýnt oss falska æru, edur tillagt oss falska skømm.

Nú er hinn fyrsti greinar = munur millum ærukjærs og drambsams manns í því fólginn, að hinn fyrri leitast við að ávinna sér annara góðann þánka um sig og hegðan sína, með sann= góðum athöfnum, en hinn síðari þará= móti að rænast eptir honum með öllu mögu= legu móti, hvört heldur vera vill með réttu edur raungu; af þessu er andsært, að hinn ærukjæri keppist einúngis eptir sanni æru; þarámóti er hinum drambsama einúngis um það hugað að allir lúti honum, hvört hann vinnur til þess edur ecki; hinn tekur sér þess vegna, aldrei nockuð ósæmilegt fyrir til að upphefjast af, en þessum þarámóti liggur í léttu rúmi, hvört hans breytni er fögur eða ljót, þegar hann einúngis fær komið sér svo fyrir, að honum hrósað verdi af ödrum. Annar skilsmunur þeirra á milli er sá: að hinn ærukjæri unir vel við, þó adrir menn hafi sömu yfirburdi, sem honum hrósunar afla, hinn drambsami þarámóti unir því ecki; sérhvörr manns= kostur, sem adrir hafa til að bera, er sem stíngandi þyrnir í augum hans, sem afla honum óbærilegrar plágu; hann

gétur því aldrei haft eyrð eða ró fyrr enn hann hefir niðurdrepið hinni góðu meiníngu, sem aðrir hafa um þvílíkann mann.

Þar af kémur, að drambsamur maður, er almennt hneigður til hinna skammarlegustu lesta, baktals og lastmælgis; verði hann því að eins var hinns minnsta brests hjá einhverjum, svo útljóstrar hann honum hvervetna, hlær að og fagnar yfir því, sem øðrum verður á. En verði þeir ekki varir nockurs sérlegs bresta hjá einum, taka þeir tíðum fyrir sig að ljúga og dikta upp um hann allskyns ávirðíngum, er hann á engann hlut í; en formerki þeir aptur á móti nockuð gott hjá honum, varast þeir øllu framar að géta þess, eður sé um það rædt þeim áheyrandi, gjøra þeir sér allt møgulegt ómak fyrir að eyða og niðurdrepa því enu góða. Nú, mín góðu børn! hvað virðist yckur um þvílíkt fólk?

„O! það fer ecki hjá því, að þeir séu „viðurstyggileg hrakmenni, er svo breyta,“ svøruðu børnin.

Já, að vísu ecki einúngis hrakmenni, sagði hinn gamli enn framar, heldur og

vitstola menn, hvørsu vel, sem þeir ann=
ars vera kynnu ad sér í ødru, þeir eru
því ollandi ad allir hafa andstygd á
þeim, enginn vill umgángast þá, af því
engum fellur sérlega vel ad illa sé um
hann talad, edur komid í vanvirdu; bakmál=
ugur madur hefir þess vegna enga sanna
vini; og tídast hefir hann í félagi med
sér einúngis þvílíkt fólk, sem eins og hann
hefir vanid sig á ad tala illa um adra.
Á medan þvílíkir menn eru í samqvæmi,
láta þeir á sér sjá, hid vinsamlegasta vid=
mót hvørjir vid adra, og tala allir ein=
úngis illa um fjærverandi, en varla hafa
þeir fyrr skilist ad, enn hvorr tekur ad lasta
annann af alefli. Svona eiga vinirnir ad
vera! mun ecki svo?

Yfir høfud er eptirsókn sú ad vera
haldinn fyrir hugvitsamann mann, þad,
sem fyrst tælir til slíkrar bakmælgi. Med
spottglósum leitast menn vid ad koma
lags=brædrum sínum til ad hlæa ad ødr=
um nálægum edur fjarlægum, og hafi
einhvørjum tekist þad fyrst nockrum sinn=
um, þá verdur lystin til ad gjøra adra
til athlátuts, æ sterkari, þángad til henni

ad síđurstu verđur ecki framar mót=stađið.

Vaktið yckur þess vegna, børn litlu! fyrir Hádgyrni og allékyns Álasi um adra, Venjið yckur miklu framar til, ad þið ecki, án adþreyngjandi naudsynja, talið annad enn gott um alla menn, einkum þegar þeir fjarlægir eru; og ef þið vitið eitthvad íllt um adra, þá þegið á medan enginn sérleg skylda neydir yckur til ad tala; tali adrir menn yckur áheyrandi íllt um nockurn fjærlægann, þá takið hans málstad og forsvarid edur afsakid hann svo framt þið getið; þad aflar elsku og álitar=þocka allra manna, og allir munu þá verda fúsir til ad audsýna yckur sømu þénustu, þegar ílla verdur um yckur talad í yckar fjærveru.

Yfir hofud, mín gódu børn! verið fullvíss um, ad vel flestir munu eins vid yckur breyta og þér breytid vid þá; þegar þið erud vidfeldin, greidvikin og vingjarnleg vid adra, þá munu þeir og í sama máta hegda sér eins vid yckur. Einkum er Alúd óbrygdult medal til ad gjora sig velþockadann, allteins og Lítilyndi og

nøldrunarsamt viðmót gjørir oss sér=hvørjum manni ópecka. Vingjarnlegu and=liti, sem býður af sér þocka við hvørn mann, fær nær því enginn mótstaðið, það knýr oss til að elska þann, hjá hvørjum vér verðum þess varir; allt eins torsókt veitir oss, að elska þann mann, sem alltíð er af=undinn og nøldrunarsamur; allir sneiða sig hjá að hafa umgengni við hann, þar eing=inn gétur ánægður verið í félagi með hon=um; menn sneiða sig hjá að sýna honum nockra þénustu, því hann þackar hana tíð=ast með svo óhýru bragði, að menn ecki gjørla vita hvørt hann raunar er ánægður með hana eður ecki. Þessháttar fólk hefir þess vegna sjaldan sannann vin, og sjaldan auðsýna aðrir þvílíkum nockra vel=vild; því vinsomlegt yfirbragð er þó hið minnsta, sem menn kunna ætlast til fyrir þénustu sína.

Nøldrunarsamt fólk er og tíðast reiði=gjarnt; það er: þessháttar menn verða við hvørja lítilvæguſtu mótgjørð, sem optlega ecki er annað enn gamanyrði, eður mis skilníngur, strax frá sér numdir, taka til handanna, skammast og bølva, eins

og þá hefðu hitt einhvør stór-slis; þetta er hættulegur sálar sjúkdómur, sem án efa verdur þeim til ólucku, er af honum plágadir eru; því Reidin er ein tegund af ædi, í hvørju vér gjøra kunnum þúsund margt það, sem vér sídarmeir høfum orsøk til að ydrast eptir. Eg hefi nú þegar sagt yckur nockrar hørmulegar dæmi-søgur um það efni, og gæti, ef þørf gjørdist, sagt yckur margar fleiri um þá menn, sem í reidi hafa mordíngjar ordið og hafa mátt láta líf sitt undir bøduls høndunum; en jafnvel þó ecki þyrfti því ad qvída, kynni þó reidin af sjálfs dádum ad gjøra oss nógu vesæla. Børn mín! hafid þid nockurntíma sjed reidann mann?

„Æ! já, Fadir minn gódur!" hrópudu børnin, „þeir tveir, sem í haustid var „børdust hérna í Réttunum vóru óskøp „reidir."

Nú, svaradi hinn gamli, þá hafið þið sjed hvørnig þessir affinna menn vóru á ad líta? hvørnig þeir vóru affkræmdir í andlitinu? hvørsu frodan féll af munni þeirra? hvørninn þeir varla gátu ordi útkomið fyrir ædi? meinid þid þeim hafi lid-

id vel á medan? eda var ecki andsjed á þeim, ad þeir innvortis hafa skélfilega mikid haft ad lída? ad vísu! reidin má vera qvalrædis-full tilfinníng.

Þar vid bætist enn nú þetta: ad fyrst þad er svo ópægilegt og hættulegt ad umgángast med svo-skap-illu fólki, svo fordast allir þvílíkra félag, og kunna þeir því ecki ad vænta sér þeirrar ánægju, sem plagar ad fylgja vinskap og stallbrædraskap; jafnvel og svo ókunnugt fólk fordast þá, því af útliti þeirra er audsært, ad litid þarf útaf ad bera til þess þeir verdi ærir; menn sneida þess vegna hjá þeim, eins og villu-dýrum þeim, sem menn eru uggandi fyrir; og þegar svo ber vid, ad þeir verda annara þurfar, eiga þeir engann vin, sem skiptir sér af þeim eda sinni þeim, og er þad satt ad segja, aumkunarlegt ásigkomulag.

Allt eins illa leikur og svo Oforlíkunarsemiunnar glæpur adra út; þar gést ecki einúngis heimskar, heldur og jafnframt svo íllgjarnar manneskjur, sem engar yfirsjónir, engar mótgjørdir fá af sér ad fyrirgéfa ødrum, jafnvel þó hinn, sem þeim

hefir móti brotid, ydri þess aldrei svo mjøg; þessir eru í ødru lagi allt eins vidsjálir, sem þeir sjálfir eru ófarsælir, því søkum þess enum bestu mønnum jafnvel kann ad sjást yfir, og verda á ad styggja annann ad óvilja edur brádrædi, svo má hvørr einn óttast ad hafa umgéngni vid óforlík-unarsamann mann, því mis-sjái madur sig, þó ecki sé nema í minnsta smárædi á móti honum, verdur hann strax vor æfinlegur ó-vinur, sem ecki leitar annars enn hefnda; hvørr mundi þá vilja hafa nockud saman vid þvílíkann mann ad sælda? og hvad á-vinnur hann med því? fær þad í nockru gagnad honum þó annar verdi óluckulegui? vilji hann med því fæla adra frá, ad ángra sig, svo fælir hann undireins vini sína frá ad hjálpa sér, af því þeir kynnu þannig øvørum ad gjøra honum skada. Gjørir nú ecki þvílík manneskja sér sjálfri stærstu óluckn? því hvørnig kann nockurr óluckulegri ad verda enn sá, er enginn elskar, enginn vill umgángast vid, enginn hjálpa, og vid hvørn allir eru hræddir.

Lángtum viturlegar breyta því þeir skynsemdar menn, sem strax fá fyrirgéfid

og gleymt mótgjørd þeirri, er menn þeim gjørt hafa; þeir gjøra sér ecki einúngis þá að vinum, er þeir audsýna þvílíka gédprýdi, heldur og svo alla adra, sem um sama verda áskynja, því vér fáum engannveginn ad oss gjørt, ad elska þá ecki, hjá hvørjum vér varir verdum manngæsku og gédprýdis, og jafnvel þó vér aldrei sjed hefdum þennann mann ádur, svo fengjum vér samt ástar-þocka til hans, undir eins og oss sagt væri af honum. Reynid ad eins til, hvørt yckur gétur mislíkad vid mann nockurn ad nafni Jóseph, af hvørjum eg vil nú segja yckur stutta sögu.

A fyrri tímum lifdi madur nockur, er hét Jakob, þessi átti 12 syni, sem hann alla elskadi, enn þó þótti honum um engann þeirra eins vænt og hinn ýngsta, sem nefndist Jóseph, af því hann var þeirra allra hinn sidprúdasti og hlýdnasti; þetta gramdist nú hinum ødrum, og þeirra øfund og vondska magnádist ad lyktum svo mjøg, ad þeir sátu um líf hans; þess vegna køstudu þeir honum einusinni, er þeir vóru hjá honum einum, út í miklum skógi, í djúpa gryfju hvar hann átti ad svelta í

þel Enginn var sá af brædrum hans, sem hefdi nockra medaumkun med honum, fyrir utan einn þeira; nú bar svo til ad framandi Kaupmenn-nockrir, ferdudust þar fram hjá í sama vetfángi, og þessi eggjadi hina adra brædur til þess, ad draga bródur sinn aptur upp úr gryfjunni, og selja hann þessum Kaupmønnum fyrir þénara; því um þær mundir keyptu menn og seldu manneskjur, eins og nú er farid med varníng í kaupstad. Þessir Kaupmenn fluttu nú þennann vesælíngs Jóseph lángt burt í framandi land, en hans vondskufullu brædur, tøldu karlfuglinum, honum fødur þeirra, trú um, ad einhvørr úlfurinn hefdi uppetid hann í skóginum. Unglínginum Jóseph géck í þessu framandi landi í fyrstu sæmilega vel, en þegar eitt sinn bar svo undir, ad hans Herra húsfrú vildi locka hann til einhvørs ílliædis, og hann ecki vildi gjøra þad, þá gjørdi hún hann svo ílla ræmdann fyrir manni sínum, ad hann lét kasta honum í fángelsi; hér gafst honum tækifæri, ad verda einum mikils háttar manni til þénustu, hvørn Kóngurinn, (eg veit ecki fyrir hvørja skuld) hafdi setja látid

í sama fángelsi, og, sem þessi hafdi nú aptur lausn fengid, minntist hann hans loksins er gott gafst færi, og fól hann Kónginum til hins besta; Kónguriun lét hann koma fyrir sig, og, sem hann komst ad því, ad hann væri sérlega hygginn og hreinskilinn madur, fékk hann ástar-þokka til hans, og ad lyktum gjørdi hann til síns ædsta embættis-manns, sem hafa skyldi vald yfir øllum hlutum. Nú var svo til eptir nockur ár, ad uppákom frábært hallæri; heppilega hafdi Jóseph sjed þetta fyrifram, og innkeypt svo mikid korn, sem hann nú kunni forsorga med gjørvallt landid. J øllum ødrum lands-álfum var mikil húngurs-neyd, einnig þar hinn gamli Jakob bjó med sonum sínum; þetta hvatti hinn gamla mann til ad senda syni sína til þess lands hvar Jóseph (hvørn hann meinti daudann vera) enn nú hafdi korn til sølu; varla vóru Jakobs synir fyrr komnir, enn Jóseph þeckti þá, þó þeir þecktu hann ecki, því hann var ordinn mjøg umbreytilegur. Hefdi nú Jóseph veiid óforlíkunarsamur og hefndargjarn madur, hvad mundi hann þá ecki hafa kunnad ad gjøra vid·

brædur sína? hann þurfti ecki annad enn neita þeim um kornid, og svo hefdu þeir mátt svelta í hel; hann gat hefdi hann svo viljad, látid straffa þá; kasta þeim í fángelsi, jafnvel aflífa þá; skadi sá, sem þeir honum gjört høfdu, var og ei heldur svo lítilfjörlegur, ad hann ecki hefdi kunnad med øllum rétti ad straffa þá þar fyrir; en hvad gjördi hann? þegar hann eptir útvortis áliti hafdi skotid þeim litlum skélk í bríngu, auglýsti hann sig fyrir þeim, og í stadinn þess ad bregda þeim nockrum bríxlum, sagdi hann eckért annad vid þá, enn þetta: **Þér hugdud ad gjøra mér íllt, en Gud hefir snúid því mér til góds,** umfadmadi þá þar eptir, sem brædur, lét senda eptir sínum aldrada fødur, skeinkti þeim øllum ríflega, og fékk þeim hid fegursta plátz í landinu til ábúdar, hvar þeir høfdu alla hluti yfirfljótanlega; segid mér nú, børn gód! kunnid þid annars enn elska þennann **Jóseph,** og þó hafid þid aldrei séd hann. Í ødru sinni vil eg segja yckur gjør søguna af honum.

Én framar verd eg ad vara yckur vid einni ódygd, sem mørgum hefir á

knén komid. Til er þad fólk, sem ecki gétur yfir neinn þagad, og med lausmælgi sinu og þvættingi aflar sér og ødrum mikillar ógjæfu; þvílíkir eru og heimskíngjar, sem optlega gjøra sjálfum sér lucku-hnecktir, því af þeirra sladri rís allshåttud sundur-þyckja manna á medal, og þad optlega millum hinna bestu vina; þess vegna fordist þá allir, og þeir, sem þeir hafa skadad, kunna ei annars enn hata þá; þarámót festa allir trúnad til þagmælsks manns, svo ei fær hjá því farid, ad hann afli sér sjálfum gjæfu í einn edur annann máta. Eg vil segja yckur dæmi-søgu, þar uppá, sem eg eitthvørt sinn hef lesid í bók nockurri.

Sum af yckur vita nú þegar, ad á fyrri tídum, hefir sú mektug þjód til verid, sem menn nefndu Rómverja; þessi þjód hafdi engann Kóng, heldur lét sér stjórna af mørgum gomlum mønnum, sem menn kølludu Rádherra; þessir Rádherrar pløgudu ad koma til samans á vissum tímum til ad yfirvega ein og ønnur maktáridandi efni, og kjæmi þá eitthvad fyrir, sem almenníngur ecki vita mátti, svo vóru allir

skuldbundnir ad leyna. því. Stundum plögudu fedurnir, ad taka sonu sína med sér á þessa samkomu, til þess þeir, sem fyrst lærdu ad þeckja födurlandsins áliggjandi naudsynjar, fengju elsku til þess, og med því meiri alvörugéfni legdu sig eptir ad verda dugandis menn. Þannig plagadi optlega úngmennid **Papírius** ad vera med födur sínum, vid þessar Ráds-stefnur. Þá hann einusinni kom heim frá einni þvílíkri samkomu, óskadi módir hans ad fá af honum ad heyra, hvad um daginn hefdi fyrirfallid í Rádinu? mín góda módir! sagdi hann, eg vildi feginn segja ydur allt, en mér er þad bannad. Módir hans vildi ecki taka þessa afsökun gylda, heldur hótadi honum höggum, ef hann ecki segdi henni alltsaman. Únglíngurinn, sem sá sig í vanda staddann, hitti um sídir uppá þad rád, til ad stilla forvitni módur sinnar, og finnast þó þagmælskunni trúr, ad segja henni: ad í dag hefdi verid yfirlagt af Rádinu, hvört ecki mundi gott, ad hvörr madur ætti tvær konur í stadinn fyrir eina? naumast hafdi þessi fávísa kona heyrt þetta, fyrri enn hún, sem vitstola, hljóp um kríng og glopradi

í allar vinkonur sínar þessu leyndar-máli. Þessar báruſt ecki betur af, og allar þuſtu nú daginn eptir á Ráds-samkomuna, og ſkræktu þar Rádheirrunum deyfu fyrir eyrum, ſvo þeir hugsudu ei annad, enn þær væru gengnar frá vitinu, jafnvel þótt þeir viſsu ecki nockra orſøk þar til.. Hinn úngi Papirius ſtód þá upp, og medkénndi: ad hann út af rádaleyſi til ad ſtilla forvitni módur ſinnar, hefdi innbyrlad henni þad, ſem konurnar nú kløgudu yfir. Rádherrarnir ávítudu hann ad víſu fyrir þad, ad hann hefdi borid oflitla virdíngu fyrir módur ſinni, en þeir løgdu þó mikla áſt á hann fyrir ſkynſemi hans og þagmælſku; ad ſønnu fyrirbudu þeir framvegis ad láta únglínga koma á Ráďſtefnur ſínar, af ótta fyrir ad eitthvad íllt mundi af því leida; en þarámóti veittu þeir Papiríus einum þá æru, allann hans úngdóm út, ad koma á Ráďſtefnurnar, og gáfu honum til æruminníngar ſérlegt vidurnefni, er fylgdi hans afkomendum, ſem einskonar heidurs-teikn, fyrir hans hrósverdu þagmælſku.

Eg hefi nú einúngis ſagt yckur þeſsa fráſøgu til þeſs, ad þid af henni gétid

þeckt, hvørsu mikið menn plaga að virða og launa þagmælskuna; því hvørki hrósa eg athøfn þessa únga Rómverja í því að hann sagði móður sinni ósatt, né heldur forvitni hennar, sem vildi kúga drenginn til að opinbera það, sem henni kom eckért við og honum var skipað að leyna.

Vaktið yckur þess vegna, mín góðu børn! fyrir allri lausmælgi, og opinberið engann hlut, sem þið vitið að leyndur á að vera, þegar samvitska yckar kreinkist ecki þar við; allir munu annars fordast yckur, sem fjør-ráða-menn, og sjálf eigniśt þið aldrei svo góðann vin, sem þið megið trúa fyrir yckar laungungar málum. Allir hata hinn søg-vísa, og jafnvel þeir, sem hann þénar með fréttaburði sínum; það eru því einúngis argir aular, sem bresta vitsmuni til að þeckja, að þeir skaða sjálfa sig mest, er æfa þennann ljóta løst.

En, heimskastir og verstir eru hinir Ofþacklátu; eg tala um þá, er að vørmu spori gleyma þegnum velgjørníngum, eða jafnvel verja ómaki til að skaða sína velgjørða-menn; þvílíkar manneskjur vitna

augljóslega, að í þeim býr ekkért gott; því ef þær vilja enga þénustu sýna þeim, er hafa veitt þeim góðgjørðir, hvørnig er þá møgulegt, að þær sýni hinum nockra velvild, sem aldrei hafa gjørt þeim gott? þessir mega með réttu kallast ófarsælar manneskjur, því þegar þær eru búnar að sýna, hvørsu ílla þær hafa launað þær af þeim meðteknu velgjørðir, svo hefir enginn vilja til að þéna þeim framar. Oþacklátann mann flýa því allir, sem aðra ófreskju, sem menn varast að koma nálægt. Spyrjið, t. d.: yckur sjálf, hvørt þið vildud hafa átt Inklá nockurn fyrir vin yckar? eg skal nú segja yckur søguna af honum:

Inkli þessi var Kaupmaður í Lundúna-borg á Englandi; en í von um að vinna gróða peninga, tók hann sér far á skipi nockru, sem átti að fara til eins þá nýfundins lands, sem nú kallast America. Um þær mundir var land þetta mestann part byggt af Villu-mønnum, sem héldu sér uppi, eins og dýrin, í skóginum. Ferðin luckaðist vel; en þegar þeir vóru komnir undir landið, brast á ógnarlegur stormur,

sem hrakti skipid á skér nockurt og braut þad í spón. Allir þeir, sem ecki vóru syndir, létu þar líf sitt, en þeir, sem nádu landinu vóru án tafar drepnir af þeim viltu. Einúngis Inkli, var svo heppinn ad géta flúid í næsta skóg, hvar hann snaradi sér nidur milli trjánna, óviss um, hvört sulturinn eda hinir villtu mundu fyrra sig lífi. Í þessum svifum heyrdi hann þrusk mikid; villt stúlka kom fram úr einum runninum, sá hvar Inkli lá, og stardi á hann um stund; en í stad þess, ad gjöra hönum mein, leit hún meinlauslega til hans, og gaf honum teikn ad fylgja sér. Inkli spratt upp og fór á eptir henni, uns þau komu ad kofa einum, tók nú hrædslan ad réna hjá Inkla, því stúlkan sýndi sig ástúdlega, og frambar allskonar ávexti fyrir hann til ad eta, fylgdi honum sídan ad læk einum til ad svala sér. Stúlkan var honum æ ástúdlegri, vakti yfir honum þegar hann svaf, og bar ena náqvæmustu umhyggju fyrir honum. Þannig lifdu þau saman med hinni mestu blídu í nockra mánudi; þau uppfundu fljótt mál eitthvört, med hvörju þau gátu gésid hvört

ødru þánka sína til vitundar. Inkli sagdi nú sinni Yarikó (svo hét þessi ágjæta villta stúlka) mørgum-sinnum frá, hvørnig ástadt væri í sínu fødurlandi, og hvørsu mikill mismunur væri á því, og eydimørk þeirri, er þau nú væru í; ad menn byggju þar í steinhøllum, reistu í vøgnum, sem hestar væru spenntir fyrir, og bæru allavega lit fín klædi; og annad svoddan. Værir þú komin þángad med mér, sagdi Inkli, o! hvad farsæla skyldi eg þá ecki gjøra þig! stúlkuskepnan grét af gledi, og hljóp tídum nidur á sjóar-klettana, til ad forvitnast um hvørt hún sæi eckert skip, sem gæti tekid sig og ástvin sinn heim til hans. Þetta eptirþreyda skip heppnadist henni ad sjá um síðir, enda var hún ecki sein ad géfa þad sínum elskada Inkla til vitundar. Skipid kom ad landi, og bædi fóru um bord á þad, sigldi, sídan á burt til eyar nockurrar, er nefndist Barbados; en á eyu þessari tídkadist mikid mansal, rétt eins og þá fé er selt í Kaupstad. Hinn ágjarni Inkli qvaldist med sjálfum sér, af því, ad hann hefdi ferdast svo lángt burtu í von um ávinning, en kæmi nú lángtum fá-

tækari heim, enn hann hefdi[1] verid þá hann fór af stad. Loksins féll hann uppá þann svívirdilega þánka, ad selja sína vesælíngs Yarikó í æfinlegann þrældóm, til ad fá þó nockra skildínga. Stúlku-sképnan, sem vard þess vís, féll á kné og grét og bad hann á allar lundir ad selja sig ecki, en öll tár og allar bænir fengu eckért hjálpad. O! þú miskunarlausi týranni! hrópadi hún um sídir: vita skaltú þad, ad eg er ólétt af þínum völdum, og aumkastú þó í hid minnsta yfir barn þitt! hvad þá? svaradi prackarinn: „heyrid þér"! sagdi hann til Kaupmannsins, sem hann ætladi ad selja hana, „hún er ólétt og „því verdur hún 3 pund Sterlíng dýrari." Kaupmadurinn borgadi og mannfýlan géck burt med peníngana*).

Hér þagnadi hinn gamli Krukkjær, en börnin stódu med tárin í augunum, og gátu lengi engu ordi uppkomid. Nú,

---

*) Sögu þessari hefir hid snilldlega Skáld, Prestúrinn Hra. Jón Þorláksson, snúid á íslendsk ljódmæli, sem innfærd eru í Gaman og Alvöru 1ta Hefti, bls. 95 til 102.

Utlegg.

børn! sagði Arukjær um síðir, vilduð þið ecki ega þennann Inkla fyrir vin?

„Guð forði ockur frá því"! svöruðu börnin, „hvör mundi girnast að „hafa nockuð saman við slíka ófreskju að sælda"?

Rétt segið þið, svaraði Arukjær, og þaunig þenkja líka aðrir; vanþacklæti er svívirðilegasti löstur. Fordist, mín góðu börn! já, forðist með alli athygli, bæði þennann og alla aðra lesti, sem eg hefi tekið yckur vara fyrir; því yckár gjörvalla lucka er undir því komin, að fólk það, sem yckur er samtíða, vilji yckar heillir og hamíngju og elski yckur; það gjörir það líka vissulega þegar þið auðsýnið því hið sama.

En sérílagi egið þið að kappkosta að halda eindrægni og lifa friðsamlega við það fólk, sem búa á sama bæ eða í sama húsi, sem þið; því það hefir optast tækifæri til að vera yckur til vilja og gjöra yckur lífið bærilegt. Foreldrar yckar eru af sjálfum sér hneigðir til að elska yckur; en ef þið ecki elskið þá aptur á móti, eða eruð þeim óhlýðin, svo er

hætt við að elska þeirra réni til yckar; og þegar aðrir yrðu þess varir, að þið ecki elskið foreldra yckar, sem hafa gjört yckur svo margt og mikið gott, svo mundu þeir álíta yckur fyrir vanþacklát börn, sem enga ást eða kjærleika forþénuðu. Aðgjætið einúngis hvörsu mikla mæðu foreldrar yckar hafa híngað til haft fyrir yckur: móðir yckar fæddi yckur með sótt og harmqvælum í heiminn; mátti vaka marga nætur-stund og taka uppá sig margt eitt ómak yckar vegna, á meðan þið vóruð litil; sífellt mátti faðir og móðir hafa vakandi auga á yckur, að þið ecki meiddud yckur eða færið yckur að voða; bæði máttu af öllum kroptum erfiða, til að útvega yckur föt og fæði. Ef þið nú samt sem áður ecki vilduð elska yckar foreldra, fyrir allar þessar ómetanlegu velgjörðir, væri það ecki hið mesta óþackklæti? en, það er ecki einúngis óþackklæti, heldur stakleg vanvitska, ef þið ecki vilduð, heiðra og elska yckar foreldra, þjóna og hlýða þeim. Þeir eru miklu eldri enn þið; miklu reyndari enn þið; þeir géta kennt yckur margt gott; þeir elska yckar farsæld; og hvörr skyldi þvínga þá til

þessa, ef þau ecki af fúsum vilja og elsku til yckar vildu gjöra það? þó þeir á stundum áviti yckur, banni yckur eitthvað og jafnvel straffi yckur, svo megið þið vita, að það skéður einúngis af elsku til yckar, og vildu víst aldrei taka til þessa, ef það væri ecki til yckar besta, því varla er það mögulegt, að foreldrar hati börn sín eða gjöri þeim á móti án orsaka, og þó eg jafnvel sæi það með egin augum, væri eg þó ecki góður fyrir að trúa því, af því mér sýndist það vera hið sama, sem að hata sjálfann sig.

Sama er að segja um yckar Kénnendur, að þeir hafa allann rétt til yckar elsku og auðsveipnis, því þeir elska yckur allt eins trúfast og foreldrar yckar, og leita allteins yckar sanna besta. Það væri því stakt óþacklæti af yckur, ef þið ecki vilduð elska þá aptur á mót, eða hryggja þá með þrjótsku og þverúð, og sjálf hlýtuð þið þó meistann skaðann; því þegar þið væruð búin að tapa elsku þeirra og kjærleika til yckar, svo mundu þeir ecki lengur kénna yckur með þeirri sömu lyst og ánægju, sem þá, er þið sýnduð þeim elsku og hlýðni, og yckur

mundi þá falla sár = þúngt ad læra þad, sem þid nú um stundir finnid svo mikla ánægju í. Keppist því eptir ad audsýna yckar Kénnendum alla tilbærilega elsku og hlýdni og virdíngu, og verid viss um, ad þeir leggja þá alla stund á, ad leida yckur á dygdanna veg.

Ef þid egid Systkyni eda Skólabrædur, svo vitid, ad þad er mögulegt, ad þessir géta veitt yckur eins mikla gledi, sem óánægju, allt eptir því, sem þeir elska eda hata yckur. Sé þar innbyrdis elska, og hvör keppist vid ad vera ødrum til vilja, svo lifid þid í gódri einíngu saman; en sé þarámóti innbyrdis hatur millum yckar, þá ímindid yckur sjálf, hvörsu leidinda = fullt líf þad er, ad neydast til ad hafa umgengni til lengdar med þeim, sem þid ecki elskid og ecki heldur elskar yckur. Þar fyrir utan er bródir vor eda gódur vinur, sem er í sama húsi og vér, ætíd náqvæmari til ad hjálpa oss enn adrir útífrá, því hann þeckir betur vort ásigkomulag, og vor lucka er honum notasælli enn annara; oss rídur því mikid á ad ná elsku þeirra og velvild.

Að lyktum verð eg að minnast á, að þegar að því kémur, að þið hafið Þjónustu-fólk, þá látið það umfram allt finna, að þið gjorið vel við það; þið vitið, að þið gétið ecki sífellt staðið uppi yfir því. Ef þið byggið einúngis uppá launin, sem þið géfið því, svo mun það og ecki heldur þjóna meira, enn svo það komist vítalaust af, og þið rekið það ecki í burtu. Sjái það þarámóti að þið séuð náqvæm, vorkunsøm, vingjarnleg og góðgjørandi við það, svo mun það af ýtrustu kroptum vera ydið og trútt og leita yckar sanna gagns í øllum hlutum; því þá hugsar það með sér; því farsælli, því ánægðari, því ríkari húsbændur ockar verða, því betur gjøra þeir við ockur, fyrst þeir, ecki með meiri efnum enn þeir hafa, fara nú svo vel með ockur. Látið yckur því annt um að ná vinfengi yckar heimilis-fólks, með greiðvikni, góðgjørðum og þacklátsemi; líka svo er yckur nauðsynlegt að ávinna yckur ást og hylli annara útífrá, svo hvørr og einn sé reiðubúinn til greiðasemi þegar þeir géta og þið meðþurfið. Meinið og ecki, að það sé nóg að ná einúngis hylli hinna ríku og mektugu; sá fá-

tækasti, já, Foru-karlinn fær optlega gjørt ydkur hinn markverdasta greida, og sú hefir raunin margopt gèfist, ad fátæklíngurinn hefir verid øllu láng-minnugri lítils velgjørníngs og miklu greidviknari enn ríkismadurinn.

Pad mátti bródur-sonur minn samma, sagdi Gottvill, hann væri líklega núna blá-fátækur, ef hann hefdi ecki átt húsgángs-mann fyrir vin. Hvørnig stód á því? spurdi Ærukjær. Pad skal eg nú segja ydur, svaradi nágranninn:

Fyrir fám árum kom optlega fátækur madur heim á gard þann, hvar frændi minn, sem er Amtmadur, hafdi sitt adsetur, og beiddi ølmusu. Af því madurinn var sár-fátækur, og gat ei unnid sér braud, hrærdist frændi minn tídum til ad greida fyrir honum. Hverr mundi nú hafa leidt sér í hug, ad þessi vesælings mann-ræfill gæti nockurntíma stadid, í þeim sporum, ad verda sínum velgjørara til greida? en þó skédi þad. Svo bar til, ad frændi minn fèck einusinni med póstinum stórann púng med peníngum, fyrir hverja hann var bedinn ad innkaupa korn-vøru; peníngana

lagði hann niður í læsta skúffu undir skrifborði sínu, og var eg þá viðstaddur, er þetta skéði. Um qvøldið, þegar komið var að hátta=tíma, var klappað á stofudyrnar, og þegar upp var lokið, stóð fátæklíngurinn þar, nærri sprúnginn af mæði, og sagði Amtmanninum, að hann fyrir stundar=korni hefði haft veður af tveimur þjófum í skóginum, sem hefðu tekið ráð sín saman, að leggja um nóttina eld í korn=hløðu hans, svo þeir í mannøsinni gætu læðst inn í húsið og stolið peníngunum. Hann safnaði í þessum vandræðum øllum sínum vinum, og føldum ockur allir í korn=hløðunni. Stundu síðar komu þjófarnir, eins og karlinn hafði sagt, og vildu leggja eld í húsið; en við handtókum þá, og fengu þeir sín makleg mála=gjøld hjá Yfirvaldinu.

Hefði nú ecki frændi minn verið svo meðaumkunarsamur við þennann fátæklíng, þá hefði hann máské sjálfur af ørvæntun samlagað sig þessum brennu=vørgum, eða að minnsta kosti ecki komið að vara við því, og frændi minn hefði nú máské verið eins fátækur, sem þessi þurfamaður.

Hvørsu gott er það þá, að eiga vini, af hvaða standi, sem þeir eru.

Já, mikið gott! sagði Wrukjær framvegis, látið yckur því vera það nóg, að einn er maður, til að hjálpa honum, þegar þið getið; ef þið látið þá fátæku aðstoðarlausa, þá munn þeir fljótt af húngri og örvýlnun neyðast til að stela frá yckur, en ef þið hjálpið þeim, þá kunna þeir aptur á þúsundfaldann máta að verða yckur til nytsemdar. En jafnvel þó þið ecki ætíð hefðuð auðsjáanlega nytsemd þar af, þá skyldi þó sú innvortis gleði yfir því að hafa hjálpað einhvörjum vesalíng, vera yckur fullkomið endurgjald. Minnist hins fátæka gamla manns frásögu, sem yckur hefir svo vel í géð fallið, og segið mér: vilduð þið ecki hafa géfið yckar kjærasta leikfáng til, að vera sá, sem hefði endurnært þennann fátæka gamla mann skömmu fyrir hans dauða?

„O jú!“ hrópuðu börnin, „enn „má eg ecki segja frá sögunni þeirri: „Faðir minn góður!“ spurði Karl, og „spratt glaðvær upp“ og kann hana „enn þá reiprennandi.“ Svo seg hana þá,

sonur minn!, svaradi Aerukjær, og Karl hóf eptirfylgjandi qvædi:

---

Lagid er: Hvørr veit hvad fjærri' er afi endi.

1. Eg féck i hug med ødrum líta
Agætlegt dýr Nashyrníngìnn,
Og út um portid ferd réd flýta,
(Fortaldi mér svo vinur minn,)
Og þetta lysti-uppá-spil,
Eg vildi Rixort géfa til.

2. Ríkur, flugríkur fjárplógs-granni
Fyrir mér géck á veginum,
Eg sá gløggt á þeim sama manni,
Svip hans, útliti og atvikum,
Ad hann med sér uppreiknade
Innfengiun grúa' af skulda-fé.

3. Innstædu-fjár og audinn ríka,
Abataun mikla og Renturnar

Og hvørr framvegis yrdi líka
Ávinnings von stór=høndlunar,
Vildi luckunnar blídu byr
Blása 'í skaut, sem ádur fyr.

4. Fyrst ríkismannsins hef' ei heiti.
Herra Orgon hann nefna má,
Undan mér géck hinn aura=teiti,
Einum og sama vegi á.
Þó fyrr enn dýrid fundum vér,
Fyrir oss vard einn madur hér;

5. Hans høfud skalf af hruma' og elli,
Hárid æruverdt grátt ad sjá,
Og sem yfir hans andlit félli,
Æru=frómleika dygdin há;
Afmálud í hans augum var,
Ásýnd náttúru følnadrar.

6. Allt þetta kunni miklu meira,
Máli kreptugar tala hans,
Ei þó fylgt hefdi ordum fleira,
Andvarp og bænin þurfa=manns.

En ordsnild nockur megna má
Manns naudsynjum ad skíra frá.

7. Æ! sagdi hann: af miskun mætri
Mætti ydar hræraſt vidqvæmt géd,
Eg á ei neitt, er svølun sætri,
Sefa kunni minn þorsta med;
Eg skal ei framar upp frá því
Ydur mæda med bæn á ný.

8. Sú er mín von, ad Gud minn gódi,
Grátbeidni brádum heyri mín,
Og mig úr heimsins harma=flódi
Heimleidi skjótt í dýrd til sín,
O! gódi Gud! eg um þad bid:
Ad hér snart megi skiljaſt vid!

9. Ordum hann fleirum upp ei stundi,
Øldrudum svarar ríkur nú:
Afgamall nærsta, meir' enn mundi
Mæla, og nærstum lík ert þú,
Um peninga þó mædir menn,
Svo meir' fáir ad drecka enn.

10. Oræſtis gamli armi madur,
Sem enn kallar í brennuvín,
Hálfdaudur nær, ſvo ølvíngladur,
Inn í grøf megir veltaſt þín.
Sparſemi ſá í æſku ann,
Aldradann naud eí kreinkir þann.

11. Eptir þad tal hann á leid vendi,
En, æ! hvad þrúngin ſorgar mód,
Hjarta hins gamla hér vid kénndi,
Hrundi um kinnar tára=flód:
Gud veit þad, qvad hinn gamli mann,
Grátin ei fleiru ſvarar hann.

12. Eg af medaumkun vikna vidur,
Vatni ei augnn haldid fá,
Hjartad klemmdiſt og øll mín ydur,
Eg gaf honum mitt Rixort þá,
Og af fýſn hugdi allri ſenn,
Ad ſjá framar Nashyrníngenn.

13. Eg gékk minn veg, ſvo hann því ſídur
Sæi minn grát; hann bad mig þó

Aptur ad snúa, einka blídur,
Augun sveymudu' í tára=sjó,
Æ! sagdi hann, ei annad skil,
En þér hafid mistekid til.

14. Eg vil svo mikiu ei vidtaka,
Auægt er vel mitt þurftugt géd,
Ef géfid mér þad eitt til baka,
Öldryck mér kunni svala med,
Eg sagdi: nei! hvad eg nú gaf,
Rdur tilheyrir hédan af.

15. Æruverdur aldradur madur
Erud þér fyrir sjónum mér,
Kaupid nú víst, svo verdid gladur,
Vin=skérf lítinn, sem þørf til ber,
En segid mér: hvar sitjid ad?
Svaradi' hinn gamli uppá þad.

16. Eg hugdi degi sjá hann sídar,
Sjón hans stód enn fyrir augum mér,
Afmálud best med fremdir frídar,
Frómleik, æru og manndygder.

Heimleiðinni' á mest hugsa vann,
Hvað margs eg skyldi spyrja hann.

17. En, sem þar kom, fékk eg að heyra,
Að hann þegar framliðinn var,
Fyrir einum tíma', og ecki meira,
En ásýnd hans, sem fyrir mig bar,
Allann bað sama æru = sið,
Eins og í gjær þá ræddumst við.

18. Eg géck þó nær, og að nam hyggja,
Eina Salma = bók féck þar sjeð,
Og brauðleif nockurn ásamt liggja,
Á hins framliðna hørðum beð,
Hvar hann sína sár = lúna ønd,
Signaða fól í Drottins hønd.

19. Ef nú fégjarni aura = maður,
Uppá hann með mér hefði sjeð,
Er hann í gjær svo ill = viljaður,
Orðskémmði þúngum grimmleik með,
Og óguðlegri afneitun,
En engri gjøf né meðaumkun.

20. Hvørr veit, nema ad hann nú klagi,
Fyrir Herrans dóm (er miskun ann,)
Ad med hardýgdis hjartalagi,
Hrakyrdti sannann Þurfa = mann.
Svala = dryckʼs honum synjadi,
Sídarst ádur hann vidskyldi.

Nú, børn mín! sagdi Ærukjær, haldid þid ecki ad sú gledi og ánægja, ad hafa hrest og endurnært þetta vesæl= ings gamalmenni skømmu fyrir hans and= lát, hafa verid Ríxortʼs virdi! „ó! hrópadi „Karl, eg hefdi ecki horft í ad gefa til „þess fallegu spesíuna mína, sem hann móð= „ur = bródir minn gaf mér!" „og eg raudu „skrif = tøfluna mína!" sagdi Jakob. „Og eg leikhnøttinn og keilurnar mínar!„ sagdi Hans.

Þid hafid rétt ad mæla, børn mín góð! svaradi Ærukjær, þvílíkt eptirlæti borga menn sjaldan of dýrt; verid þess vegna sparsøm, svo þid gétid ætíd haft nockud afgángs, hvar med þid fáid áunnid yckur þvílíka gledi; látid eckért tækifæri hjá=

líða, að þið ecki linið og léttið nauð yckar meðbræðra, og aflið þeim gleði. Spyrjið ecki fyrst, hvørr hann sé, sem þið viljið hjálpa, ecki heldur eptir standi hans eða trúarbrøgðum; en látið yckur einúngis nægja það, að hann er manneskja eins og þið.

Já, þið egið líka að vera vorkunsøm við Fénað yckar, því dýrin hafa einnig tilfinníngu af qvøl og kjæti, og hvørr vildi jafnvel vera svo miskunarlaus, að gjøra þeim nockurt mein að orsakalausu? yckar egið gagn líður líka undir því, ef þið stað-þreytið, eða drep-meiðið hesta yckar, eða gèfið þeim ecki nauðsynlegt fóður á vetrar-tímanum og látið þá drepast í hor, og sama er að segja um annann qvik-fénað; þegar nú aðrir út í frá sjá, hvørsu harðsvíruð og miskunarlaus þið eruð við yckar egin skèpnur, sem Guð hefir lènt yckur til þarfa og lífs-uppheldis, þá vænta þeir ætíð minna góðs af yckur, eru því síður yckar vinir og lángtum ófúsari til að þèna yckur; og finna skuluð þið það, að skèpnurnar sjálfar eru í vissanu máta þacklátar við yckur, ef þið ástundið að fara vel og vægilega

með þær. Hundurinn, kötturinn, fuglinn og fl. þeckja dável sína velgjørða-menn frá ødrum, og ástunda að þjóna þeim með hlýðni og vina-látum. Einhvørn-tíma minnist eg að hafa lesið stutta frásøgu um þacklátsemi Ljóns nockurs; viljið þið heyra hana? børn litlu!

„O já! æ já!" søgðu børnin, og Wrukjær byrjaði hana:

Þénari nockur í Róma-borg, að nafni Andrókles, sem ratað hafði í eitthvørt óbótamál, strauk á burt, til að umflýja forþént straff; hann hitti fyrir hellir einn í skógi nockrum, hvar hann um sinn lét fyrirberast; en naumast hafði hann snarað sér niður, áður enn fullorðið Ljón rakst þar inn á hann, sem øskraði ógurlega, og héllt upp einum fætinum. Andrókles meinti í fyrstu, það vildi rífa sig í sundur, og skalf og titraði, eins og laufblað fyrir vindi, af hræðslu; en sem Ljónið gjørði honum eckért mein, heldur héldt áfram að øskra, og halda á lopt fætinum, þá vogaði hann loksins að grenslast eptir hvað það mundi skaða. Hann fann, þegar hann þuklaði um løppina, að flýs af tré hafði stúng-

ist nedan í hana upp á milli klónna, hvørja hann með skyndi dró út, og batt vasa-klút sínum um sárið. Ljónið varð nú svo tamt og spakt, sem hundur, og færði Andrókles kjøt á hvørjum degi til fæðu, sem hann steikti á hellu-steini í sólar-hitanum. Þannin lifði Andrókles lánga tíma, uns Ljón hans, mót venju, ekki kom heim aptur og hvarf með øllu. Hann hugsaði nú með sér, að misgjørníngur sinn væri gleymdur, og vogaði þess vegna að fara aptur til Róma-borgar; en honum varð ekki kápan úr klæðinu; hann þecktist skjótt, var tekinn til fánga, og dæmdur til að sundur-rífast af villu-dýrum. Dagurinn kom, og Andrókles var færður fram á plátzið, hvar hann átti að láta lífið. Hér var nú otað á hann grimmu og sterku Ljóni, sem með øskri og gapanda gini æddi fram að honum til að rífa hann í sig; en þegar Ljónið kom til hans, stóð það kyrrt og virdti manninn fyrir sér, og þeckti, að það var sá hinn sami, sem flýsina hafði dregið úr løpp þess, dínglaði halánum, og géck allt í kríngum Andrókles með allrahanda vina-látum, géfandi honum til vitundar gleði þá, sem það hefði af fundi þeirra. Alla nærver-

andi- rak í roga-stans, og spurdu hvørju þetta sætti? Andrókles sagdi satt frá øllu, og Keisarinn tilgaf honum misgjørníng sinn, og lét setja bædi hann og hid þacklátsama Ljón á frjálsan fót.

Nú, børn litlu! þessi frásaga er lifandi sannfæríng um þad, hvørsu gott þad er ad gjøra vel á móti dýrunum, og høndla medaumkunarsamlega med þau.

Ef þid nú breytid eptir øllu því, er eg hefi kénnt yckur, þá munud þid vissulega lifa farsælu lífi. Ad sønnu kann á stundum ad mæta yckur eitthvad ógédfellt, og þid munud kannské morgu sinni audsýna ødrum þénustu og greidvikni, án þess, ad hafa nockur sýnileg not þar af; því ecki er víst, ad allir, sem kríngum yckur eru, hafi bædi vit og gódvilja til ad láta greidvikni yckar til þeirra ætíd ásannast, þó munu flestir af þeim vissulega gjøra þad; verdid þar fyrir ecki strax hørd og óvingjarnleg þó einhvør þess á millum launi yckur med vanþacklæti. Bóndinn fær þó ætíd akur sinn aptur, þó opt innfalli misvøxtur.

Vanlucka kann optlega ad mæta yckur, sem ecki stendur í yckar valdi ad hamla, þó er hún ætíd léttbærari enn sú, er þid sjálf hafid bakad yckur; því flestir aumkast yfir yckur, og rétta yckur heldur hjálpar-hønd, þegar þid erud ecki sjálf skuld í yckar ógjæfu, en séud þid þad, er foraktid víst, og enginn hefir þá medlídun med yckur; flestir, já, máské enginn vilji þá vera yckur til adstodar, og sjálf munud þid þar á ofan auka yckar mótlæti med ennm bitrustu bríxlum.

Vid þessi ord stód Ærukjær upp, og med því møg var álidid, beiddi hvørr vel fyrir ødrum, og gengu sídan til hvílu.

---

## Fjórda Qvøldræda.

### Um Samvitskuna og Trúarbrøgdin.

Jafnvel þó Ærukjær væri svo valinkunnur madur, ad hann vid øll tækifæri léti sér vera annt um, ad vera øllum

mønnum til gledi og ánægju, skorti þar þó ecki vondskufullar manneskjur, sem stundudu eptir ad steypa honum í ólucku. Einn af þeim sømu, sem lengdist eptir hans dauda, til ad ná á sídan embætti hans, gat ei bedid þess tíma, er sá gódi gamli medur vildi rýma frá honum, og sókti þess vegna eptir ad koma honum í Fursstans ónád, svo hann yrdi settur af embættinu. Med sanni gat hann eckért íllt um hann sagt, og vard því ad taka til lýginnar; honum luckadist og, ad fegra svo mál sitt fyrir Fursstanum, ad hann tók ad trúa því, ad Ærukjær hefdi opt og tídum hagad sér svikſamlega í embættis útréttíngum sínum til ad gjøra sjálfann sig ríkann. Fúrstinn vard nú afar reidur og var kominn á flugstig ad útgéfa skipun, ad snara þessum saklausa gamla manni í fjøtur og fángelsi; en af því hann var vitur og réttvís Stjórnari, svo lét hann reidi sína réna, og tók daginn eptir ad ransaka þessa sök enn þá grandgæfilegar.

Á medan flaug ryktid vída vegar um þad, ad Ærukjær skyldi affetjast, og kastast í fángelsi, sem íllrædis-madur og Drottins-svikari; þessi fregn barst honum strax

til eyrna, en hann hlýddi á hana með þeirri hugar-róseini, sem góð samvitska einúngis fær gefið elskendum sínum, og kom enn þá qvøldið eptir, með sínni vanalegu gladværð undir Lindi-tréð, eins og eckért hefði ískorist. Gottvill var að sönnu kominn, en þó í von þeirri, annaðhvørt eldúngis ecki að finna sínn-ógjæfusama ná-granna, edur í hið minnsta stórum felmts-fullann og hriggvann; en hvørsu mátti hann ecki furða sig yfir, þá hinn góði gamli maður, kom allteins gladvær og ánægður, sem hann var vanur.

„Nú, góði ná-granni minn!" sagði Gottvill: „satt að segja, svo gengur „það nú yfir mig, hvørsu gladvær og ró-„legur þér getið verið, í þvílíkri dauðans „hættu, sem þér nú eruð staddur,"

Því svo? kjæri Gottvill! svaraði Arukjær, máské þér haldið að eg sé sekur?

„Hvørt eg held þér séuð sekir?" svaraði Gottvill:" Guð veit eg held þér „séuð eins saklaus, sem barnið í móður-„lífi; en haldi Furstinn yður sekann? ef „þér verðið settur af embættinu og kastað

„í fángelsi? og ydar -vesælíngs smælíngjar „hérna. — —“ Tárin streymdu nidur af augum hans.

Gódi, medaumkunarsami madur! svaradi Arukjær, og þrýkti svo alúdlega hønd hans; Fursti vor er sérdeilis réttvís, trúid mér, þar mun ecki vera svo mikil ógnar hætta á ferdum, og látum vera ad svo ólíklega færi, ad lýgin hefdi yfir-hønd, haldid þér þá, þad væri svo skélfileg ólucka, ad lída eitt sinn lítian órétt fyrir sakleysi? gáid ad, vinur minn! þegar allt er rétt hérna (og bendti á brjóstid á sér) þá er enga hættu ad óttast, þá eru allir hlutir þolanlegir.

Elsku børnin mín! sagdi hann (og snéri sér til þeirra), þid skiljid enn þá ecki, hvad eg nú samstundis sagt hefi, en géfid gaum ad, eg vil útleggja þad fyrir yckur: ad eg sýni mig svo rólegann í dag, jafnvel þó stórt mótlæti vofi yfir mér, gjøri eg til þess, ad kénna yckur ad vera eins lynd, ef einhvørr mótgángur kynni uppá ad falla fyrir yckur. Þid hafid heyrt, ad allt hvad yckur er bodid ad gjøra, midar einúngis til yckar sønnu farsældar, en um þá farsæld, sem þid kunnid

ad ávinna yckur, ef þid fylgid ollum mínum áminníngum, hef eg enn nú eckért sagt yckur, og hún er þad, er eg sjálfur finn til, og sem uppiheldur mér svo ánægdum og gladværum, sem þid nú sjáid, midt í yfirhángandi hæska. Þessi farsæld heitir góð samvitska, edur fullvissa um vort saklensi; þad er ágjætur féssjódur, mín gódu börn! svo lengi vér hofum góda samvitsku, gétum vér aldrei ordid ófarsælir, hvørnig sem oss annars gánga vildi, en þegar vér einusinni hofum tapad henni, þá er øll vor sanna farsæld horfin. Medvitund sú, ad vér séum sjálfir skuld í vorum mótgángi, qvelur oss optlega meira enn allt þad vér lídum; en vitum vér þarámóti, ad vér ecki sjálfir hofum verdskuldad þær hørmúngar, sem mæta oss, erum vér rólegir og hughraustir, eins og þid sjáid mig nú vera.

Eg minnist enn þá med gledi eins manns, af hvers eptirdæmi eg fyrst lærdi, hvørsu ómetanlegur hlutur góð Samvitska er; þad var Prestur nockurr, sem fyri mørgum árum er sáladur, og hvørs undirvísun eg á mestann part ad þacka, ad eg

þegar á únga aldri féck elsku til dygdanna; hann var mikill ágætis madur, og bædi skynsamur og gódgjarn umfram marga adra. Honum vildi þad til, ad steinleid yfir hann einusinni í prédikunar-stól; hann komst ad sönnur til sjálf síns aptur, en bar þó þennann sjúkdóm, sem menn kalla **Nidurfallssýki**, alla æfi sídan. Eg vitjadi hans daglega, og eg medkénni, ad eg gat ecki tára bundist, svo opt, sem eg leit þennann ágjæta mann, en þegar hann tók ad tala, svo hvarf öll mín sorg í sama vetfángi. Hann taladi um veikleika sinn med stakri rósemd og hugar-hreysti; hann endurminntist sérhvörs gódverks, sem hann um lifstíd sína gjört hafdi, med yfirvættis gledi; hans ánægja magnadist stórum vid ad sjá, hvörsu innilega kona hans og börn og vinir sorgudu fyrir honum; og opt bar þad vid, ad þeir, sem leitudust vid ad hughreysta hann, medtóku lángtum meiri huggun af honum; hvar fyrir grátid þid? sagdi hann, med hinu hýrasta bragdi: þid vitid, ad eg er ecki sjálfur orsök til þessa veikleika, hann mun snart burt-lída og enda taka, í hid minnsta mun hann ecki gjöra mig med öllu

huglausann, og ecki kæna mig luctu minni; og þessi hans hugprýdi varadi til hans sídasta andartaks.

Medan Ærúkjær þannig taladi, kom einn af Fursians þénurum, og færdi honum forsiglad bréf; hann biaut strax upp innsiglid og las, sem fylgir:

„Minn elskuverdi Ærúkjær!"
„Eg hefi brotid á móti ydur i
„því, ad eg festi augna-bliks trú
„til eins smánarlegs lygara og
„róg-berara; dular-feldurinn er
„dreginn af þessum vondskufulla
„manni, og ydar sakleysi frelsad;
„tilgéfid ydar Fursta, sem ydrar
„sinnar yfirsjónar, og af einlægu
„hjarta-þeli elskar ydur."

Hana þá, nágranni! hrópadi Ærúkjær, sagdi eg ydur ecki ad Fursti vor væri réttsýnn og gódur Herra, og þad mundi ecki verda svo hættusamt fyrir mig; og látum vera, honum hefdi ecki luckast ad komast ad raun um lýgi míns baktalara,

eg vildi þá hafa aumkað þá báða; Furstann, sökum sinnar raungu meiníngar, og hinn, vegna sinnar íllsku, en sjálfann mig, jafnvel í fjötrum og fángelsi, vilda eg hafa haldið farsælli enn þá báða til samans. Sjáið, börn mín! svo mikils er góð samvitska verð; hvörr hana hefir, hann þarf ecki að qvíða fyrir nockru vondu; og komi nockuð óþægilegt fram við hann, svo gétur hann liðið það með þolinmæði. Ef þið óskið yckur hins sama sinnislags, svo stundið eptir að ødlast það, og að lifa þannig, sem eg hefi kénnt yckur; þó gétið þið ecki, mín góðu børn! (svo eg segi yckur satt og rétt) orðið svo glaðvær og farsæl, sem Presturinn, vinur minn, hvørn eg nefndi áðan, var midt í sínum þjáníngum, og sem þið hafið séð mig þetta qvøld, ef þið ecki vitið og gjørið meira, enn eg híngað til hefi kénnt yckur; eg hefi einúngis kénnt yckur, hvørninn þið skuluð breyta, að þið ecki sjálf stofnið yckur í ógjæfu, en þar géfast líka mørg tilfelli, sem þið ecki með eginn kroptum fáið afvendt, og ólucka er þó ætíð ólucka; að vísu er ólán það, sem maður ecki bakar sér sjálfur miklu léttbærara, enn hitt, er kémur af

sjálfs-voldum; en í hvörutveggi tilfellinu er þad þó þjáníngarfullt, og ecki einúngis þá, er vér höfum í þad ratad, heldur og einnig á medan vér óttumst fyrir því, eda leidum oss í huga ad þad géti hendt yck-ur. Einn, sem á hey sitt á flædi-engi, óttast fyrir, ad hann máské verdi ecki bú-inn ad ná því fyrir stór-straumínn, og sjórinn fleyti því burt. Hinn, sem leggur sig til hvíldar ad qvöldi, hugsar med sér: hvörr veit nema einhvörr þjófurinn brjót-ist inn í nótt, og steli frá mér? eda hús mitt og allt hvad eg á, brenni upp til kaldra kola? og hvörsu ánægjulitlir eru þeir, sem þannig lifa millum vonar og ótta, og hvör er sá, er géti fullvissad þá um, ad þessi eda þvílíkt óláns tilfelli hendi þá ecki? og þó einhvörr gjæti þad, hvörsu skélfileg mætti þó ecki daudans ad-koma vera honum, sem ómögulega verdur umflúin? eg hefi máské látid yrkja mitt flædi-engi fyrir adra; máské eg nú á þessari nóttu megi yfirgéfa mitt hús, og skilja vid foreldra, vid vini, vid allt hvad mér kjært er; og hvörninn mun þad þá til gánga fyrir mér? gaumgjæfid þid alla hluti, börn! sem eg hingad til

hefi sagt yckur, sem grandgjæfilegast, þid gétid þó aldrei med því burtrýmt þess-um ótta. En gledjid yckur, mín bestu børn! þar finnst enn eitt medal, med hvorju honum verdur burtrýmt; þid hafid hér og þar ad undanførnu, heyrt nockud af því, en þad er naudsynlegt, ad þid vitid þad réttilega, því þid erud nú á þeim aldri, ad yckur er ecki vorkun á ad þeckja þad.

Hugid þess vegna med gódri eptirtekt og føgnudi: **ad þar er einn Gud til**, einn Gud, sem hefir skapad og viðheldur oss, og øllu því til er; einn Gud, sem veit og sjer allt, hvad vér hugsum og gjørum; einn Gud, sem ecki lætur oss verda óluckulega, ef vér ecki sjálfir gjørum oss þad. Þad er sá Gud, sem hefir skapad þá føgru sól, sem svo þægilega upplýsir og vermir vora jørd; sem um vor = tímann lætur grasid og blómsturin vaxa, og sumarid færa oss allrahanda veglega ávexti, sem fæda og smacka oss svo ágjæta vel; sem lætur døgg og regn og vinda koma, án hvørra eckért mundi vaxa, og eckért hafa nockurn framgáng; sá Gud, sem hefir gjørt jørdina til þægi-

legs bústadar og uppheldis fyrir oss, og allar skapadar sképnur; eptir hvørs skipun fuglarnir sýngja há-tónum, lækirnir uppvella, blómstrin svitna, og vindarnir hressir oss í sumar-hitanum; sá Gud, sem svo furdanlega hefir tilbúid vorn líkama, og hans limu, og gésid oss ódaudlega sálu med øllum hennar dýrmætu eginlegleikum.

Sá Gud, sem géfur oss svona mikid gott, skyldi hann kunna ad hata oss, edur gjøra oss ólukkulega? nei, mín gódu børn! enganveginn; setjid því allt ykkar traust til hans, og óttist ecki; eckért skédur án hans vilja, og hans vilji er, ad þid verdid farsæl, ef þid ecki sjálf gjørid ykkur ófarsæl. Séum vér gódar og réttskickadar manneskjur, svo høfum vér eckért ad óttast, og megum óqvidnir á hvørju dags qvøldi leggja oss til hvíldar, þared svo megtug og gód vera vakir yfir oss, og verndar oss. Af þessu hlýst eptirfylgjandi samtal:

Hansmann. Fadir minn gódur! hvar er þá Gud?

**Vrukjær.** Hann er hér, barnid mitt! og allstadar, jafnvel þó vér ecki med líkamlegum augum fáum hann sjed, vegna þess, ad hann er ósýnileg vera, sem ecki hefir þvílíkann líkama, sem vér hofum, hvørn vér gétum skodad og þreifad á.

**Jakob.** Hvørnig vita menn þá ad hann sé hér, fyrst hann er ecki sýnilegur?

**Vrukjær.** Heyrdu, sonur minn! hefir þú nockurn tíma sjed mína sálu?

**Jakob.** Nei! hana hefi eg ecki sjed.

**Vrukjær.** Trúir þú þá ecki, ad eg virkilega hafi sálu, og ad hún sé hér nálæg?

**Jakob.** O já! því trúi eg.

**Vrukjær.** Hvørs vegna trúir þú því?

**Jakob.** (hugsar sig um), af því eg heyri ydur tala.

**Vrukjær.** Af því þú heyrir mig tala? sálin mín framfærir þó ecki eginlega ordin, heldur minn munnur og túnga, sem eru partar míns líkama — máské af því þú heyrir mig tala skynsamlega, af

því þú heyrir að eg ecki' út = tala tómt hljóðið, heldur þvílíkt hljóð, hvar með þankarnir gefast til kynna; var það ecki svo þú meintir?

Jakob. Jú! en eg gat ecki komið svona orðum að því.

Krukkjær. Gott og vel! svo trúir þú þá, að mín sála sé hér nálæg, vegna þess, að hún framqvæmir og gjörir nockuð, nefnilega: þánkana, sem af munni mínum verda út va'rir; Kjæmist þú nú að raun um það, að Guð og svo framqvæmdi og gjerdi nockuð hér og allstaðar í heiminum, mundir þú ecki af sömu ástæðu sannfærast um það, að hann sé hér og allstaðar nálægur?

Jakob. Jú! það má eg, því hvornig kynni maður að gjöra nockuð í þeim stað, hvar hann ecki væri nálægur?

Krukkjær. Þú hefir rétt, minn kæri! látum ockur þá sjá, hvort Guð verulega framqvæmir og verkar nockuð hér, og kríngum oss? adgjættu þetta stóra Lindi=tré, sem útbreiðir sínar miklu greinir og

qvisli allt um kríng yfir oss; hvørr mun hafa gjørt þad?

**Jakob.** Æ! þad er víst varid uppúr jørdunni.

**Ærukjær.** Þad er ad vísu satt, en jørdin hlýtur þá ad hafa nockurn sérlegann krapt, þared hún af einu litlu fræ-korni getur framleidt svo stórt tré. Hvørr gefur nú jørdunni þann krapt, ad framleida grøs, jurtir, strá og tré af sínu skauti? af egin efnum getur hún ecki gjørt þad, því hún er daud, og þú veitst ad daudur líflaus hlutur, fær øldúngis eckért gjørt.

**Gottvill.** Med leyfi ydar, nágranni gódur! ad tala eitt ord: mér sýnist þetta ecki svo øldúngis rétt; skotid þér þetta vasa-sigur-verk, þad er þó líflaus daudur hlutur, engu ad sídur getur þad gjørt nockud? snýr þad ecki sjálft vísirnum um kríng, sem sýnir tímana?

**Ærukjær.** Þad gjørir svo, gódi vin! en mundi þad nockurn tíma hafa lært þetta ad sjálfu sér, hefdi enginn sigurverka-smidur til verid, sem hefdi innréttad þad þannig?

þar fyrir er það ecki eginlega sjálft sigurverkið, heldur miklu framar smidurinn, sem dregur vísirinn um kríng, jafnvel þó hann sé fráverandi, og hvørsu lengi mundi sigurverkid ydar gánga, ef enginn kynni ad draga það upp, þegar það væri útgengid? 24 stundir eda hærst 30, og þá stædi vísirinn kyrr.

Allt eins, mín gódu børn! sagdi Krukjær enn framar, er því háttad med vora jørd, aldrei mundi hún af sjálfri sér hafa haft þá kunst ad framleida nockud, hefdi Gud ecki tillagt henni þennann krapt, og mundi ecki þeisi hennar kraptur á augna - bliki aptur horfinn vera, ef Gud ecki vidhéldi honum? um veturinn er hún líka sem daud, þá er hún eins og útthloupid sigur - verk, sem stendur kyrrt, en med sérhverju vori, dregur hinn óendanlega vísi og máttugi Skapari, þetta sigur-verk upp aptur, svo það geingur á ný, og ad nýju framleidir aptur nockud; þá útspríngja blødin af knoppunum; þá opnar sig jardarinnar skaut, svo ad óteljandi fjøldi, grasa, jurta og blómstra framkémur; þá stendur náttúran allt um kríng, í øllum sínum óveiklu dum úngdóms - krapti, allt eins

og hún væri þá ný = komin frá síns Skap= ara höndum.

En ecki einúngis þetta, heldur þessara hluta sífelda Tilvera, sannfærir mig um stadfasta samverkun guddómlegrar veru, sem allá hluti framleidt hefir; hætti þessi vera nockurn tíma ad vidhalda øllum þessum hlutum í þeirra tilveru, þá mundu þeir aptur á sama augna = bliki hverfa, og ad engu verda, eins og þeir í fyrstu vóru, edur hætta ad vera til framar. Þar fyrir veitar Gud hvørt eitt augna = blik, í sér= hvørjum hlut í heiminum, og því hlýt= ur hann vid séhvørn hlut nálægur ad vera.

Gledjid yckur þess vegna, børn mín gód! og óttist aldrei fyrir nockru vondu, þegar þid hafid þá medvitund, ad þid haf= id gjørt, sem yckur ber; því Gud er med oss, hvar hellst, sem vér erum, hvørt vér vøkum eda sofum, og þessa vors Guds vilji er, ad vér séum farsælir bædi hér, og líka eptir daudann í hinu ødru lífi, hvar um eg strax vil segja yckur nockud meira; hann krefur þar fyrir einkis framar, enn ad þid gjørid þad allt, er eg híngad til hefi

kénnt yckur, og ad þid setjid yckar traust fullkomlega til hans, í øllum yckar áliggjandi naudsynjum, því hann er sá, sem bædi hefir mátt og vilja til ad hjálpa yckur. Þetta, kjæru børn! þetta gjørdi vinur minn, sá rádvandi Prestur, sem, eins og eg sagdi yckur ádan, bar med sérlegri hugprýdi og umburdarlyndi sinn þúnga veikleika, og deydi farsæll og ánægdur.

Optlega sagdi hann mér: eg mundi vissulega hafa tortýnst í eymd minni, hefdi ecki mitt øfluga traust til míns Guds vidhaldid mér; því begar hørmúngin var megnust, þá bad eg til Guds, þá qvartadi eg hørmuglega fyrir honum um ástand mitt, og eg vissi ecki sjálfur hvørninn þad skédi, ad eg eptir sérhvørja bæn, vard svo rólegur og ánægdur, sem mig eckért bristi.

Svo sagdi vinur minn, og mín gódu børn! hann hafdi øldúngis rétt. Trúid gømlum manni, sem líka hefir reynt þad; bæn hins réttskickada, sem væntir allrá gódra hluta frá Gudi, og sétur allt sitt traust einúngis til hans, sú bæn, segi eg,

verdur aldrei óbænheyrd; jafnvel þó Gud ecki ætíd géfi oss þad, sem vér umbidjum, þá géfur hann oss vissulega annad betra, í þess stad, sem er: hugarins róseini, ánægju med vort hlutskipti, og þá vissustu von um, ad vér framvegis munum verda lángsum farsælli. Og hvörnig kynni hann ad géfa oss þad, sem vér umbidjum? vér höfum ecki vit á, hvad oss er fyri bestu, og bidjum því opt um hluti þá, sem mundu gjöra oss hvad óluckulegasta; og uppá þad skal eg segja yckur stutta dæmi-sögu.

Þar var eitt sinn bóndi nockurr, sem trúdi, eckért væri betra, enn ríkdómur og miklir peníngar, og hefir vandlega opt bedid Gud þar um; en hvörnig sem því hefir verid varid, þá fann hann einusinni fésjód á akri sínum, med nokrum þúsund dölum. Undireins og hann sá sig eigara af þessum peníngum, seldi hann ábýlis-jörd sína, er hann sjálfur átti, og flutti sig í Kaupstadinn. Hann lagdi nú frá sér allt erfidi, og konunni leitst best ad fylgja honum þar í; börnin gengu eins og lögi yfir akur, og uppólust í vömmum og skömmum. Fadirinn drack og spiladi dag og

nótt og svalladi í mesta máta; hans illa vöndu synir, tóku til ad stela, fyrst frá sjálfum honum, og því nærst ödrum; einn þeirra var tekinn og hengdur, annar strauk á burt til framandi þjóda; módirin komst fyrir lausláeti og idilegheit í Tukthúsid, og fadirinn deydi loksins í vesöld og volædi. Hvad gögnudu nú peníngarnir þessum? hvörsu miklu farsælli mundi hann ecki hafa verid, hefdi hann lifad kyrr í sínu fyrra standi? sjáid, börn mín! svo lítid vitum vér optlega, hvörs vér óskum.

Gud einn veit hvad oss best hentar, og hann gjörir vissulega þá gódu og gudhræddu farsæla. Eg var sjúkur, og þá hrópadi eg: Gud minn! miskuna þig yfir mig! og eg vard heilbrygdur; eg var fátækur og þá féll eg fram og bad, og Gud hjálpadi mér, og gaf mér tækifæri til þess, ad næra mig med erfidi mínu, svo eg engann skort lidi; eg erfidadi, og þackadi honum, og vard hughraustur og rólegur. Svo gódgjördasamur, mín kjæru börn! og svo miskunsamur er vor Gud, og svo kjæra hefir hann oss, og þó hann hefdi ecki, þann tíma eg hrópadi til hans, leyst mig frá

sjúkdómi mínum og fátækt, þá vildi eg samt ecki hafa efast um hans gjæsku, eg vildi hafa ályktad þaraf, ad þad mundi gott fyrir mig, ad vera enn lengur sjúkur og enn lengur fátækur, og sú hugsan mundi hafa gjørt mig rósamann; því opt er þad harla nytsamlegt, mín gódu børn! fyrir oss, ad hafa mótlæti til lengdar. Hvørsu margur mundi ecki hafa von'ur ordid, hefdi honum allt af vel geingid? luckan gjørir menn audveldlega ofur=hugada og dramb=sama, en neydin rekur oss aptur til, ad hugsa um oss og vora skyldu. Eg sjálfur, mín elskulegu! mundi vissulega hafa verid miklu lakari enn eg er, ef mér hefdi ecki, einkum á mínum úngdóms árum, margt á móti gengid; en sem eg fann, ad optast eitthvad vondt kom fram vid mig, svo opt, sem eg ecki hafdi breytt réttilega; svo hugsadi eg, þú skalt þó ei hvørn tíma reyna, hvørt þér muni ecki betur gánga, ef þú kappkostar ad gjøra ei annad, enn hvad gott er, og frá þeim tíma hefir mér aldrei til muna gengid á móti.

Ad sønnu hefir sídan hitt mig eitt og annad mótdrægt, en allt vard mér

þó miklu léttbærara enn áður, eg fann líka strax, að sú ógjæfa, sem eg ecki hafði sjálfur bakað mér, varð að lyktum til míns mesta ábata. T. d.: eg fékk einusinni tækifæri, til að kynnast við mikilsháttar Herramann, sem vildi sjóleiðis ferðast til aunara landa; þessi Herramaður hafði fengið svo mikla ást á mér, að hann lofaði mér, að gjøra mig ríkann og á-litleganu mann, ef eg vildi fylgjast með honum á þessari reisu. Hvørr var þar til fúsari enn eg? allur útbúnaður til ferðar vorrar var þegar gjørður, en þá féll eg hastarlega í lángvarandi sjúkdóm; þetta sýndist mér nú svo mikill gæfu-hnecķir fyrir mig, að þar brast lítið á, að eg af fávitsku og óþolinmæði minni, ecki megladi á móti forsjón Guðs, sem sýndist fyrirmuna mér þetta luckumeðal; því Herramaðurinn, sem ecki mátti bíða leng-ur, ferðaðist burt, en eg sat eptir, og øll sú von, sem hann mér gjørt hafði, var nú úti. Eg var óhuggandi; en hvað fékk eg að heyra eptir nockrar vikur? ecki ann-að enn það, að skipið, á hvørju hann sigldi og eg átti líka með að fara, var yfirfallið og tekið af sjóreifurum, en

gjörvöllt fólkið, sem á því var, selt í þrældóm. Nú kannaðist eg fyrst við gjæzku og speki þeirrar guðdómlegu forsjónar, og mína egin heimsku, að eg dyrfðist að efa um þessa Guðs góðgyrni; frá þeim tíma hef eg sífellt verið ánægður með mitt hlutskipti, þó eg hafi ecki gétað skilið, hvörnin eitt eður annað gæti orðið mér að góðu. Það væri annars stakleg ofdirfska, ef menn vildu beiðast eptir, að fá þetta skilið í sérhvörju tilfelli, því vér hyrtum þá, eins og sá alvitri Guð, að hafa þá gáfu, að sjá fyrirfram ókomna hluti, ef vér vissum hvað með framtíðinni mundi eptirfylgja, af því eður því er oss mætir, en þetta hefir Guð, af sérlegum orsökum, viljað láta vera oss hulið.

Þegar mér, á úngdóms=árum mínum, tilfell eitthvað mótdrægt, og eg gat ecki skilið til hvörra nota það mundi verða mér, leitaðist skynsamur og góður maður nockur, sem fleira hafði reynt enn eg, að hugga mig; hann sagði mér einusinni meðal annars draum sinn, hvörjum eg aldrei fæ gleymt, hann var mér líka

ætíð í ferſku minni þar eptir, ſvo opt, ſem nockuð óþægilegt mætti mér.

„Jafnvel þó eg," ſagði þeſsi minn æruverði vinur „legði ecki meiri ſtund á „nockurn hlut enn þann, að gjøraſt farſæll „og þóknaſt bæði Guði og mönnum; „þá fèll þó einuſinni uppá fyrir mér „þvílíkt mótlæti, ſem framar venju hrelldi „mig. Í þeirri minni ángiſt, tók eg að „efaſt um, að það væri víſt og ſatt, „að Guð bæri umſorgun fyrir manneſk=„junum, og vildi gjøra þá hjálp'ega; „þeſsi efaſemi preſsaði út af augum „mér, hin beiſkuſtu tár, og með tárin í „augunum datt eg útaf ſofinn. Mér „ſýndiſt þá í draumi ſem eg væri á „vegi nockrum, a hvørjum eg hafði villt „farið; eg ſtóð nockra ſtund, án þeſs „að vita, hvört eg ſkyldi halda. Með=„an eg var í þeſsum þaunkum, kom þar „maður til mín, ſem lofaði að víſa mér „veginn og fara með mér; eg fylgdi „honum eptir, og hann færði mig til „húſa eins manns, ſem tók vel á móti „oſs, og leit út til að vera einn hinn „beſti maður; þegar við gengum burt

„þadan, sá eg ad fylgjari minn tók med
„sér ofurfallegann silfur=bikar, er stód
„á bordinu. Daginn eptir hittum vid
„annad hús; en madurinn, sem þar bjó,
„var svo hardur og vondur og afund=
„inn, ad vid naumast fengum leyfi til
„ad snara ockur nidur í myrkra=skot eitt
„er þar var í kofanum, eg heyrdi held=
„ur eckért annad til þessa manns enn
„blót og skammaryrdi og formælingar;
„í stuttu máli ad segja: hann leit út
„til ad vera hinn mesti þorpari; hjá
„þessum skyldi leidtogi minn bikarinn
„eptir, þann er hann tók frá hinum
„góda manni; þridja daginn hittum vid
„fyrir frómann og rádvandann mann,
„sem audsýndi ockur alla mögulega góð=
„vild og greidasemi; í hans hús lagdi
„fylgdar=madur minn eld, svo þad brann
„upp ad bjørtu báli. Hárin risu á høfdi
„mér, út af þessum vondsku=verkum, en
„þar eg gat ecki aleinn ratad veginn,
„svo hlaut eg ad fylgja þessum mínum
„leidtoga; hann færdi mig enn þá til eins
„ypparlegs manns, sem leit út til ad
„vera gódsemdin sjálf, fylgjari minn
„lét, sem vegurinn væri sér ecki rétt kunni=

„ur,' sog taladi til vid þenna góda
„mann, ad hann léti beina sér leid; húss-
„bóndinn var ljúfur á þad, og skipadi
„syni sínum ad fara med ockur, svo vid
„ecki skyldum fara villir vega, en, sem
„vid vorum naumast komnir upp brú nock-
„ra, sem vid áttum yfir ad fara, hratt
„hann syni vors góda velgjørda-manns,
„ofan í vatns-fallid, svo hann drucknadi;
„vid þetta vidurstyggilega verk, vard eg
„nærstum frá mér numinn, og hrópadi:
„o! þú skrímsli af manneskju og gudlausi
„húdar-skélmir! heldur kýs eg ad fara
„aleinn villur vegar í óbygdri eydimørku
„medal villu-dýra, alla æfi mína, enn
„gánga þér lengur jafnsícis á jørdunni,
„sem hvørt augna-blik er reidubúin til
„ad uppsvelgja þig. En, sem eg var
„þetta ad tala, leyptradi í skyndíngu mikil
„birta í kríngum mig, og leidtogi minn
„tók uppá sig meir enn mannlega ásýnd
„og vegsemd; eg féll til jardar, en hann
„reisti mig upp og sagdi: lær þú ad
„þeckja vegu Guds forsjónar! bik-
„arinn, sem eg tók hjá þeim fyrsta góda
„manni, er vid gistum hjá, var eitrad-
„ur, og þess vegna gaf eg hann hinum

„vonda til straffs; undir ósku þess húss,
„er eg uppbrenndi, liggur mikill fésjóður,
„sem þessi góðgjörðasami maður, er svo
„vel tók á móti ockur, skal finna, með
„hvörjum hann mun stipta mikið gott;
„en únglíngurinn, sem eg steypti í móð=
„una, hafði í sinni að mvrða føður sinn
„við fyrsta hentugleika, og hefði með sínu
„lastafullá líferni' orðið pína og plága
„móður sinnar, ef lifað hefði. Tilbið
„þú Guð, og forlát þig uppá
„hann einann, en varastú að
„dæma um veg hans forsjón=
„ar!"

Þannig hljóðaði draumur vinar
míns, og þegar þið á síðan ødlist meiri
reynslu, þá munuð þið sjá á sjálfum yck=
ur og øðrum þúsund dæmi þar uppá,
hvørnig það, er menn álíta fyrir lucku,
er í sjálfu sér optlega ólucka, og þar
þvert á móti: að mørg ógjæfusøm tilfelli,
eru Guðs vegleguſtu velgjørníngar við oss
mennina.

Skyldi nú svo vera, að eckert ann=
að enn sífeldur mótgángur og andstreymi

væri yckur áqvardad, og þid jafnvel ættud ad deya í vesøld og volædi; svo hafid þid þó ætíd, þegar þid ecki sjálf erud skuld í yckar mótlæti, þá huggun og innvortis rósemi, sem enginn fær frá yckur tekid; eg má gjøra yckur þessa huggun betur kunna.

Mín elskulegu børn! vér erum allir ódaudlegir og forgaungum aldrei; ad vísu mun þessi líkami, sem er samansettur af holdi og beinum, eitt sinn deya og for-rotna, en vér, sem búum í þessum líkømum, munum þá komast til eins annars lífs, hvar vér fullkomlega farsælir, fyrir utan sjúkdóm og qvøl og skort, munum eilífega lifa; þessu hefir Gud lofad oss, þegar vér í þessu lífi kappkostum af øllu megni, ad verda gódar og dygdugar manneskjur. Þeir, sem þad ecki gjøra, munu ad sønnu og svo lifa eilíflega, en þeim mun þó ecki vel vegna, heldur munu, þeir hvar þeir þá koma, lída forþént straff fyrir alla sína klæki.

Einhvørn tíma sídar, mín elskulegu! vil eg segja yckur hvar af eg hefi allt

þetta numið, er eg hefi á undanförnum qvøld= stundum sagt yckur, en þángað til eg fæ ráð rúm til þess, megið þið óhætt trúa orðum mínum, og af hegðun minni sjáið þið gjørla, að eg hlýt að hafa ótvíl= uga þeckíngu þar um.

Eg er nú orðinn gamall maður, og líkami minn, mun innann skamms deya; æ! mín góðu børn! væri eg ecki full= viss um það, að mitt eginlega Eg, það er: mín sála væri ódauðleg, vissi eg ecki, að vor góði Guð, sem allt híngað til hefir látið mér svo vel gánga í heimi þessum, vildi og svo eptir dauða míns líkama annast mig og að sér taka, hjálpa mér og mig hólpinn gjøra; hvørsu vesæll mundi eg þá vera? en eg veit það, eg veit það svo víst, sem eg sje þessar stjørnur blika á þeim háa himni; eg mun lifa, og lifa óendanlega sælla lífi, enn allir Kóngar í verøldinni megnuðu að veita mér.

Og þið, mín góðu børn! þið skuluð og loksins fylgja mér eptir í þetta betra og eilífa líf, ef þið leggið kapp á að

fara verandi í vísdómi og dygd; þá munum vid sjást ad nýju, og sá fögnudur yfir oss, yfir vorri farsæld, og í vorum góda Gudi, sem sameinadi oss aptur, skal vidhaldast án alls enda.

Mín allra kjærustu børn! látid mig, o! látid mig fá tekid þessa huggun med mér í gröf mína; þá huggun, ad þid viljid hlýda ydkar gamla födur, ydkar vin, sem elskar ydkur og ydkar vel-lídun svo trúlega, svo innilega, og þar med gjöra ydkur verduga þeirrar farsældar, til hvörrar eg nú brádlega undan ydkur géng. Segid mér, mín hjartans dýrmætu elskulegu børn! segid mér, má eg reida mig uppá þad?

Børnin köstudu sér grátandi í fángid á sínum elskada födur, og gáfu til kynna sín loford med þeigjandi tárum. Þá mælti Brukjær þessi eptirtektaverdu ord: **hvørn, sem Gud sérdeilislega vill blessa, honum gefur hann fróm og hlýdin børn!** og allra þeirra hjörtu klöcknudu af þvílíkri tilfinníngu, sem ecki verdur med ordum útmálud.

# Litill
# Viðbætir
um
# Barna-Aga.

## Søgu-korn af Klemensi og børnum hans.

Að uppala børn sín þannig, að þau verði guðhræddir og gagnlegir menn, er sú skylda foreldranna, sem hvað mest er í varið, og þeim til mikilla gagnsmuna. Sjálfur Guð hefir boðið oss: að uppala børn vor í aga og umvøndun til Drottins, og aldrei býður hann oss annað enn það, sem oss er sjálfum til gagns og góða. Sá, sem haldið hefir børnum sínum til Guðs ótta, og látið þau læra það á úngdóms-

árunum, hvar með þau á síðan géta unnið sér brauð, og agað þau réttilega, hann kann og, fyrir Guðs fulltíngi, að vænta kjærleika, hlýðni og hjálpar af þeim í ellidómi sínum; en hafi børnin ecki í tíma lært að óttast Gud, hvørnig géta menn þá vænt, að þau muni heiðra foreldra sína? séu þau ecki vanin til audsveipni í úngdóminum, hvørnig skulu þau þá vera hlýdin, þegar foreldrarnir eru hrumir orðnir og fá ei þvíngað þau með makt? það er það, sem er orsök til, að svo margir foreldrar mega á þeirra hrørlegu elliárum sæta óþægð og íllsku, já, því mitur, bølvi og barsmíð af børnum þeirra, og þá eru vissulega sjálfir foreldrarnir orsøk í barnanna ógjæfu. Leggið þar fyrir besta huga á, mínir vinir! øllu framar að uppala réttilega þau børn, sem Guð gefur ydur, og gjørið ydur ei í hugar-lund, það sé lafhægt. Enda þegar menn einúngis typta børnin og hirta bresti þeirra, gétur straffið hæglega orðið annaðhvørt um of edur van. Einn símindar sér, það sé einúngis fólgið í því að lemja vel á børnum sínum; hann hýðir þau þá við hvørt tækifæri, og þess vegna fá børnin ein-

úngis ótta fyrir honum, en elska hann aldrei. Annar er ótta-bundinn, ad hann muni kúga allann kjark úr børnum sínum, hirtir þau þar fyrir aldrei, heldur kéblar þau þará-móti allt ofmikid, og lætur þau sjálf-rád vera; fyrir þad verda þau svo einþyck, ad þau sídan aldrei vilja hegda sér eptir ødru, enn þeirra egin vild; hve mikid vardar þá ei um, ad hitta þann rétta medal-veg? Eckért skyldi mér kjærara vera, enn ef eg gæti vísad ydur á hann, og kénnt ydur hvørnig þér egid ad upp-ala børn ydar, Gudi til dýrdar, þeim til hamíngju og ydur til gedi; eg vil þess vegna fyrst segja ydur frá søgu einni, sem sýna mun, hvø stórri ógæfu þad veldur, ad vera ofhardur vid børn sín.

Þad var einusinni rádsvinnur og gagnlegur madur, ad nafni Klemens. Fadir hans var bóndi, og hinn mesti dánu-madur; hann átti litinn gard og mørg børn; þar nú ecki nema eitt af þeim gat fengid gardinn eptir hans dag, lét hann þá adra sonu sína læra hand-verk, svo þeir med ærlegu móti gætu forsorgad sig í framtíd-inni. Son sinn Klemens fick hann til

læríngar Járnsmid rockrum. Í þessu breytti hann, sem kristinn og gódur fadir; því þad er enn besti arfa-hluti, sem þér getid eptirskilid børnum ydar, ad láta þau læra ad vinna sér braud.

Nú hagadi því svo, ad smidur sá, er Klemens lærdi hjá, lét børn sín í øllu hafa þeirra eginn vilja; þegar Klemens med húsbónda sínum og konu hans gékk til dagverdar, lágu børnin fram á bordid, ódu med høndunum nidri í føtunum, og tíndu þad besta úr þeim. Alloptast þagdi smidurinn, sem fiskur, en þá þau gjørdust heldur svæsin í þessu, og hann þá hástadi á þau, svo skældu børnin túlann framan í hann, edur og fleygdu skeidum sínum og fóru ad nudda á móti, og allt þetta umbar fadirinn. Þetta qvaldi nú Klemens svo mikid, einkum þar hann ei þordi ad mæla nockud, ad hann tídt fór vid sjálfann sig, ad ef hann ætti nockurntíma børn, skyldi hann venjá þau ødruvísi.

Þá hann nú hafdi fullnumid handverk sitt, reisti hann uppá þad í nockur

ár, og sá þá líka ecki ósjáldan, þar hann eifidadi, illa upp = alin og sjálf = ráð born, svo hann styrkist í áformi því, ad aga sín skár. Eptir ad hann um nockurra ára tíma hafdi erfidad hjá velkunnandi smidum, kom hann heim aptur og stofnsetti nú ad reisa bú. Nú litadist hann um eptir stúlku, sem honum félli í géd, og hefdi nockud til besta.

Hve ágjætt væri þad, ef allir úngir menn vildu fylgja dæmi hans, og ei hugsa til trúlofunar fyrr enn þeir sæu sig megnuga um ad forsorga konuna; nei, jafnskjótt og einn pilltur er firmdur, og ástundum fyrr, skal hann ega kjærustu. Hin fyrsta er hin besta, sem hann trúofast; sé hún ad eins snoppu = fögur, svo er nóg, hvørt hún kann nockud edur eckért, hvørt hún á nockud edur eckért. Þegar þau svo eru trú = lofud, hugsa þau um eckért annad, enn ad koma saman hid brádastа; þau gifta sig, hvørugt þeirra kann nockud, hlada nidur bornum, og endalokin verda ørbyrgd og volædi.

Klemens var hyggnari, og vard því líka heppnari; hann var alþecktur,

bædi sem gagnlegur smidur og vandadur madur; honum var því al-hægt ad fá hvørrar vænnrar og velefnadrar stúlku í sveitinni, sem hann vildi. Innan skamms fann hann þvílíka eina, drack brúdkaup sitt til hennar, og hans Karín, (svo hét hans únga kona) kom ádid eptir í barns-sæng ad syni. Hann var nefndur Hans, og á horum vildi nú Klemens sýna, ad hann kynni ad aga børn sín, svo þau ei verda skyldu sérlynd.

Iafn-skjótt og drengurinn var missiris-gamall, og fór ad fá nockurt vit, brúkadi Klemens strax vid hann vøndinn, hvørt skipti, sem hann hrein af keipum; þad var dauleg synd, vilja flestir af ydur segja, ad stýkja saklaust barnid! því þér trúid ei, ad børn ydar séu sérlynd, edur eigi ad hirtast þar fyrir, fyrr enn þau eru ordin svo gømul, ad þau berlega géta sýnt ydur þeirra íllsku bædi í ordum og verkum. En þá er þad opt of-seint, og þad, sem edur kunni ad lagfærast med lítilli rádníngu, gétur þá ei skéd med mørgum hýdíngum. Undireins og børnin hafa vit á ad sýna íllsku, hafa

þau og nóg vit til að skilja, hvarfyr-
ir í þau er lagt; og þegar þau hafa
skynbragð á því, og menn svo hitta þau
hóflega, svo er vel gjørt að byrja það
snemma.

Það gjørdi nú Klemens, og hann
sá þeckjanlegann ávøxt þar af, því dreng-
urinn vard að skømmu bragði hið mesta
spektar- og þægðar-barn, sem aldrei sýndi
nockra einþykni, heldur lét sér vel lynda
allt það, sem foreldrar hans vildu. Nockr-
um árum seinna átti kona Klemensar
dóttur, sem var kølluð Marín. Hún var
øgud með sama hætti, og vard einnig mjøg
siðsøm stúlka.

Jafnskjótt og børn þessi tvø vóru
6 og 7 vetra, lét faðirinn þau dyug-
lega gánga í skóla, og svo opt hann fann
Skólameistarann, mælti hann ávalt: kjæri
Skólameistari! gleym ecki vendinum, børn
meigu ei vanta hann, ef nockuð á úr
þeim að verða. Nú var Skólameistarinn
og sá maður, sem eckért ómak gjerði sér
fyrir børnum, heldur setti þeim einúngis
fyrir eina Lectíu, og lagði svo uppá þau,

þegar þau ecki ecki stódu fullkomin skil á henni. Þar fyrir kénndu þessar barnakindur á vendinum eins í skólanum, sem heima.

Svo lengi Hans og Marín vóru korn-úng, géck þetta allsæmilega, því þá nádi þeirra skilníngur ei vídar, enn þau meintu, ad þad fadir þeirra og Skólameistari gjørdi vid þau, þad væri rétt gjørt, og kynni ecki ad vera ódruvísi, en þegar þau vóru ordin 15 til 16 vetra, og fengu þó fleingíngar vid hvørt tækifæri, svo tóku þau ad hafa adra þánka, og skynja ad þau skédi órettur.

Þannig er því varid, mínir vinir! á þeim aldri géta menn hæglega vangáð sín, med því ad brúka of-mikla hardbreyskni; børnin egu ad undanførnu þannig ad vera øgud, ad þau þá ecki skyl'u þurfa høgg; því séu þau þá brúkud, svo vestna børnin meira vid þau enn batna. Þannig fór þad og einmitt hér fyrir Klemensar bernum.

Nú merkti sonurinn opt, ad fadirinn lamdi hann ad ósekju; því væri hann

í smidjunni, og eitt járn-stycki brinni í eldinum, hét þad strax, ad hann hefdi blásid ofmikid, og drengurinn féck høgg. Slæi hann ecki nógu skjótt og fast med rek-hamrinum, reid ad auga-bragdi høgg á hnacka honum, vár þaradauki hrak-yrdtur og kálládur klaufi og nauts-haus, þótt hann slæi af øllu megni. Víst ad sønnu þordi hann hvørki ad mjæmta né skræmta, ef hann ei vildi fá fleiri høgg, en hann hafdi þó sína þánka fyrir sig sjálfann. Hann féck svo stórt hatur til fødur síns, ad hann aldrei skeytti um hjá honum ad vera, utan væri hann neyddur þar til. Smámsamau tók hann ad géfa fødurnum hnífil-yrdi, en þad þoldi Klemens engannveginn, heldur lamdi hann því meir, og batt med því grátt ofan á svart.

Sømu kjørum sætti dóttirin; hún gat aldrei gjørt nockud svo honum líkadi, en var jafnadarlega barin, hvar fyrir hún lokfsins vard, sem vitfyrríngur, svo til einkis vard nýt. Bryti hún einhvørn leirpottinn, og fadirinn yrdi þess var, svo dángladi hann strax vel á henni, legdi hún

lítid um of ad eldinum, var lødrúngurinn vís, med þessu adqvædi: Þú getur steikt það upp á augnabliki, sem eg vinn mér inn á heilu ári. Vildi hún nú í ødru sinni gjøra það betur og maturinn var þá ei nóg sodin, svo fékk hún aptur á barsmíd, ad kénna, og þá hét það: getur þú ecki, þín vitlausa ambátt! lagt ad eldinum og matbúid í tíma?

Eg veit vel hvad þér hugsid, þér gott fólk! þér hugsid: þetta var og ærid hardt. En gætid ad, hvørt ei muuu á medal ydar finnast margir foreldrar þeir, sem eins undarlega fara ad rádi sínu vid børn þeirra; margir, sem krefja meira af børnunum, enn þau annadhvørt hafa vit á, edur fá afkastad, hiita þau þó undir eins og þau ei géta gjørt þeim til hæfis. En nú skulum vér strax fá ad sjá, hvørr ávøxturinn verdur af þvílíkri hardnúd.

Þá Hans var 18 vetra og þóktist vita, ad hann mundi eins sterkur og fadir hans, vildi hann ei lengur lída barsmíd, hann tók þá á móti fødurnum,

héllt höndum hans, þegar karlinn vildi géfa honum uppá, ellegar hann jafnvel reif af honum vøndinn, og að lokunum varði sonurinn sig all = sterkléga, því Klemens varð nálega hamhleypa, þegar Hans ecki stóð graf = kyrr, og lét sig lemja; þar fylltust báðir slíkri grimð og heiptar = huga, að þeir optlega flugust á í smiðjunni, með glóandi járnum á lopti.

Loksins varð Hans leiður af lífi þessu; hann hafði nú að- fullu numið handverk sitt, og gyrntist því heldur að vera hjá framandi enn føður sínum ; hann stal þá 10 dølum frá þeim góða Klemensi, bjó í laumi um tjørgur sínar og strauk. Tiltæki þetta má enginn þenkja kunni að afsakast með hardbreyskni føður hans. Hefði hann verið gott barn, svo hefði hann heldur kyrr verið hjá føður sínum, hvørsu mikið vondt hann enn hefði mátt þola, og enda þegar føðursins harðúð hefði neydt hann til að forláta hann, svo hefði hann þó ei aukið synd þeirri ofan á, að stela frá honum; en honum luckaðist það líka mátulega vel, sem vér nú fáum að heyra.

Hans var nú hjarta = gladur, ad hann var sloppinn af fángelsi sínu, og ordinn sinn eginn herra; ha! þenkti hann med sjálfum sér! þegar hinir adrir sveinar ádur géngu á dryckju = hús sín, og gjördu sig glada, þordir þú aldrei ad slást í för med þeim; þegar þeir skémtu sér med keilu = spil edur dansi, máttir þú hýrast kyrr heima; nú hefir enginn yfir þér ad segja, nú skalt þú lifa í gódu yfirlæti. Hann tók þá ad hella sig fullann, og gjöra sér til góda; og þad lét hann gánga, svo lengi hann hafdi einn skildíng; en loksins þá þeir vóru uppgengnir, rédist hann í vist hjá smid einum.

Nú hefdi allt þetta enn þá kunnad ad bætast; en Hans hafdi ad undanförnu aldrei vitad af nockri skémtun ad segja; þarámóti hafdi hann nú fengid smeck á rúsi, svo hann vard hid afhrakslegasta afskúm, gat ecki unnid, en lá annann hvern dag í dryckju = slarki á verts = húsum. Húsbóndi hans gaf honum farar = leysi, og enginn vildi hafa Hann í þjónustu, sakir hans ómennsku og lastafulla lífernis. Hann hafdi því engin

onnur úrrædi, enn ad taka þjénustu vid eitt leigt ſtríðsmanna Regiment; en nú fêck hann allt meira og meira í leſti og ljótann lífnað, ſoni auga = fullur á vakt= ina, ſvaf á henni, og mátti því marg= ſinnis hlaupa ſpíðs = rót, og þar hann þó, eptir allar þvílíkar rádníngar, eckí hætti ad drecka, fêck hann ſloga = veiki, lá nærſta hart haldinn miſsiris tíma og dó ad lok= unum, þá hann hafði fjóra um tvítugt.

Í ſjúkdómi ſínum rann hann til ſjálfs ſíns, harmadi ſitt fyrra líferni, og mælti opt: eg hefi verid ſtór = ſyndari, ſtrokid og ſtolid frá fødur mínum, ſlytt daga mína med laſtafullu líferni. Gud fyrirgéfi fødur mínum! hann var hin fyrſta orſök til ógæfu minnar, med því hann var of = hardur vid mig, og leyfdi mér aldrei nockra ſkémtun.

Þannig fer þad, mínir vinir? þegar foreldrarnir eru allt of hardir vid børn= ſín; þad er enda hættu = efni ad neita þeim meinlauſra og leyfilegra ſkémtana. Hefdi Klemens látid ſon ſinn koma á manna = mót, og leyft honum ad ſkémta ſér med

øðrum ráðsvinnum úngmennum, hefði hann, til að géta, aldrei fallið til lasta lífernis. En þegar úngmenni eitt hefir aldrei notið nokkurra fríheita eður skémtana, og hann þá síðan verður sinn eginn herra, svo er hann allt eins og ótamin foli, sem slítur sig lausann og hleypur skyndilega á hvað sem fyrir verður. Hann er svo sólginn í skémtanir, að hann gjørir engann mun á því, sem er sæmilegt eður ósæmilegt, saknæmt eður gagnlegt. Viljið þér þá ætlast til, að børn yðar hegði sér, sem ráðvandir menn, þegar þau sleppa út í heiminn, og ega sjálf sér að stjórna, svo neitið þeim aldrei um sómasamleg fríheit og skémtanir; en gætið þess einúngis að þau ecki gjøri ofmikið þar af, og hafið grandgæfilega tilsjón á, að þau ecki gefi sig í svolt annara enn þeirra, sem eru ráðvandir menn til orðs og æðis.

Nú til dótturinnar. Hennar kjør voru ecki betri. Hún var vesæl qvennvæsla, sem ecki gat varið sig á móti føður sínum, og hlaut því að líða alla hans harðýðgi. Um tvítugs aldur var hún rétt snotur stúlka, en hégvilluleg og hugsjúguð. Aldrei þorði

hún að líta til karlmanns þótt ráðvandur væri, því síður ræða við hann, yrði Klemens þess var, lamdi hann á henni, og rak á dyr.

Með slíkri aðferð þenkti hann að koma í veg fyrir, að hún ekki skyldi trúlofast nockrum öðrum enn þeim, hann leyfði. En einmitt þessi sterka þvíngun kom því til leiðar, að hún í morði leitaðist við að ná fundi karlmanna, svo opt hún gat, og skeytti jafnmikið um, hvört heldur það vóru ráðvandir menn, eður slysjúngar. Að lokunum komst hún í heimuglegann kunníngskap við lastafullann ugann þorpara, sem var smala-strákur á næsta bæ, er stutt að segja, lagðist með henni.

Þegar stundir liðu, varð það þeckjanlegt á henni, að hún mundi ekki einsömul. Aldrei grunaði Klemens slíkt, heldur trúði hann sínni egin varatekt svo vel, að hann var með öllu uggláus. Móðirin merkti á méti eitthvað mundi bogið, kallaði dótturina á eintal, og þvíngaði hana eptir lánga mæðu til að játa það. Hvað skyldi nú hér gjöra? móðirin var allt of

sorgbitin til að skútyrða dótturina. Marín hafnaði, og bað hana fyrir alla muni að segja það ekki föður sínum, því hann mundi vissulega berja sig til óbóta, ef þess vís yrði. Móðirin aumkaði sig þá yfir hana, og hét henni að leyna því svo lengi mögulegt væri.

Nú tóku nágrannarnir að hafa þetta á spoðunum, og nokkrir af þeim gáfu enda Klemensi í skyn grun þeirra um þetta efni, en hann trúði engu þar af, og ansaði einúngis, að hann hefði betur gætt dóttur sinnar enn svo, að slíkt gæti skéð, að sönnu tjáði hann konu sinni hvað nábúar hans höfðu hann frœddann, en hún barði það niður og sagði, að dóttur þeirra hefði nokkra hríð verið lasin. Því trúði hann strax, og gjörði sér hér um enga þánka framar.

Loks kom sá tími, á hvörjum hún skyldi barnið fæða. Hún kendi þess gvöld eitt síðla, og sagði móður sinni heimuglega. Nú hófst fyrst fyrir alvöru þeirra ángist fyrir Klemensi. Móðirin lét þá dótturina fara út í hús eitt, og birlaði

manni ifínum inn, ad henni væri illt og hefdi ordid ad hátta. Med þad lét hann sér nægja, og lagdi sig ugglaus til svefns. Ad því búnu hljóp módirin strax út til Marínar sinnar, og hjálpadi henni þad besta hún gat; en hvernig þad géck til, þá dó barnid í höndum þeim. Hvad var nú hér ad gjöra? segdi þær Klemensi þad, svo vóru þær bádar ógæfulegar. Þarámóti virdtist þeim nú, ad þad væri hægt ad leyna því, þar barnid væri daudt. Módirin tók þá barnid og gróf þad strax ena sömu nótt þar í aldingardi, svo enginn vissi. Dóttirin kom á fætur aptur innan fárra daga; fadirinn efadi um eckert, og allt þetta var nú ad nockru leiti hjálidid.

En þó þessar ógæfulegu manneskjur væru ad sönnu óhræddar um, ad áklagast af ödrum, þar allt þetta hafdi svo dult farid, svo höfdu þær þó enn nú þann versta ákæranda í þeirra eginn barmi. Þeirra vonda samvitska lét þær enga ró hafa, hvörki nótt né dag; Módirin mælti tídum vid Dóttirina: æ! Marín! hvad er þad, vid höfum gjört? hve vel hefd=

um við farið að ráði ockar, ef við hefð-um í tíma aug'ýst föður þínum allt sam-an! dótturin svaraði henni: Æ! já, móð-ir góð! eg er svo hjarta-klemmd, að eg nú kysi mér heldur dauðann, enn að lifa alla-jafna í ángist þessari. Það var opt að því komið, að hún mundi gánga til Yfirvaldsins og lýsa þessu, en móðirin hugrey[illegible] hána, sem hún gat, svo að hún að sönnu ecki gjörði það, en þó hitaði það henni æ meir og meir um hjarta-ræturnar.

Samvitska! samvitska! mínir vinir! á engum hlut ríður oss meira í heim-inum, enn að hafa góða samvitsku. Þótt vér eigum í höndum aldrei svo mikið upp á móti, enum vér þó eigi ógæfulegir, svo lengi vér að eins vitum með sjálfum oss, að vér lifum sem kristnir, sem réttsick-aðir menn, og eum ei sjálfir sek í því vonda, sem oss mætir, en höfum vér þarámóti þýngt samvitsku vora með vond-um verkum, svo að hún nagar oss og quelur, svo eum vér allri gæfu sneyddir, þó vér jafnvel ættum allt veraldarinnar ríkidæmi, og oss gengi allt að óskum,

høfum vér þá ecki stærstu orsøk ad keppast eptir, og ydka oss í, ad hafa óskérta samvitsku bædi vid Gud og menn.

Þá **Marín** hafdi nockra hríd gengid í þessari hugar-ángist, bar svo undir, ad hún einn dag géck í kirkju; Prestúrinn prédikadi yfir þessa grein: 1 Kor. 4, 5. **Drottinn kémur, sá er auglýsa mun einnig þad, sem í myrkunum er hulid, og opinber gjøra rádin hjartnanna.** Út af grein þessari taladi hann med mørgum ordum um þad, hve mikid heimuglegt vondt og huldar syndir drýgdar væru í heiminum, og ad syndararnir þenktu ad eins um, ad fá atbafnir sínar huldar fyrir manna augum, en til hins alvitra Guds og þeirra egin samvitsku þenktu þeir alls eckért. Hann sýndi, hve ógnarlega þvílíkir syndarar dragi sig á tálar. Gud, sagdi hann, lætur ecki ad sér hæda, þó þeir hugsi ad enginn viti þeirra vondu verk, mun þó Gud auglýsa þau. Vond samvitska nockurra skal qvelja þá svo hardlega, ad þeir sjálfir munu þau vidurkénna, og géfi þeir forherdt hjarta sitt á móti

samvitskunnar áminníngum, og hulið syndir þeirra, svo lengi þeir lifa, svo, kémur þó sá efsti dagur, á hvørjum Drottinn mun auglýsa það, sem í myrkrunum er hulið. Hann aðvaraði þess vegna, þvílíka heimuglega syndara að játa í tíma þeirra syndir, og með sannri umvendun leitast við að komast hjá fordæmíngunni.

Þá Marín heyrði þetta, sló samvitskan hana; hún varð mjøg skélfd og féll loks í ómeginn. Var hún borin út úr kirkjunni og færð inn í það næsta hús; þá hún raknaði aptur úr aungvitinu, tók hún sár-grætilega að barma sér og sagði rétt og satt frá, að hún nýlega hefði barn alið, og hvornig það fór. Faðir hennar var heima, en þegar hlupu nockrir til hans, sem søgðu, að dóttur hans hefði orðið íllt í kirkjunni, og verið borin inn í það næsta hús, hvar grúi manna væri samankominn, og að hún hefði sagt þeim frá ógnarlegum hlutum.

Klemens skundaði strax þángað og trað sér ígégnum manna-þraungina, þar til hann komst til dóttur sinnar. Hún sat þá, sem ønnur saka-sképna, er leið-

ast skal til aftøku = stadarins; nú óttadist hún ei framar fødur sinn, heldur skýrdi honum frá ein = ardlega hvørnig allt hefdi tilgengid. Klemens vard þá svo skélfdur, ad ei mátti ordi uppkoma, edur sig úr stad hræra. Nú þenkti hann ei ad lemja á henni, en tók ad æpa og gráta, sem barn. Dótturin sagdi þá til hans: ó! Fadir! látum oss nú deya hvørt med ødru. Hefdud þér ei barid ockur veslíngs børn svo ofbodslega, þá væri bródir minn ei strokinn, og þessi ógjæfa ei heldur skéd, því bædi módir mín og eg leyndum því einúngis af ótta vid ydur. Klemens ansadi engu, en var allt jafnt ad gráta og belja.

Øll sökin var nú Yfirvaldinu tilkynnt; þau vóru øll sett í fángelsi, og þá málid var ransakad, var Marín og módur hennar dæmd í Tukthúsid, þeirra lífstíd; en fadirinn var laus látinn, þar hann eckért hafdi af þessu vitad; en svo stóra skapraun og vanvirdu jók honum allt þetta. ad hann ei gat litid lengur þann stad, þar fyrir seldi hann allt hvad hann átti, og fór utan = lands.

Sjáid hér, þér gott fólk! hve stórum óheillum valdid fær allt of-stránger Barna-agi, en vér megum ei heldur þar fyrir kébla børn vor i of-miklu dálæti, og láta þau ad øllu leiti fara ad egin vild; eg skal strax segja ydur frá einu dæmi uppá, ad þad fer ecki betur. A medan børnin eru úng og hafa engann skilníng, verda menn ad neydast til á stundum ad brúka vøndinn, ef þau ecki egu ad verda sérlundud, en menn egu svo snemma, sem møgulegt er, ad taka til ad setja þeim fyrir sjónir med skynsamlegum hætti, þeirra ávirdíngar, eptir því, sem þau fá þad gripid, og þad enda med kjærleika, fyrir utan þjóst, án ragns og fúk-yrda; med slíkum kjærlegum hugvekjum, ávinnst tídum miklu meira, enn med barsmíd, en vilji þad ei hjálpa, hljóta menn ad taka til vandarins. Þad eru sérílagi brestir nockrir vissir, sem menn aldrei mega láta óhegnda, þegar børnin í eitt skipti edur tvø, eru þar um advørud, og þau þó ecki lagfæra sig; þad er: Lýgi og Einþyckni. Foreldrarnir eru tídum sjálfir sek í, ad børnin venjast á ad ljúga; þeir nenna ecki ad

grenslast eptir, hvørt þad, sem børnin segja, eru sannindi, heldur taka ad eins á móti hvørjum þeim afsökunum, sem þau framfæra, án þess ad spyrja frekar eptir þeim, og þegar barnin þá einusinni edur tvisvar merkja, ad þeim tekst ad segja foreldrunum nockud ósatt, án þess ad verda fundin ad því, vita þau vel ad brúka sídan sama lag. Adrir foreldrar eru jafnvel svo dárlegir, ad þeir álíta þad rok uppá barnanna skúlejska, ad þau géta upphugsad afsakanir og vøflur, þeir hæla því skjótar lýgi barnanna, enn hegna henni. Þó er nálega enginn brestur, sem framar á ad adgætast og skarpara ad hegnast enn þessi, því hann er adal = rót allra annara lasta. Þegar nú eitt barn fyrst sjer, ad þad í smávegis atvikum gétur med lýgimni hverft frá sér hyrtíng þeirri, þad hafdi tilunnid, svo vogar þad sídan hid sama í ødru, sem meira er ísþunnid, og ad lokunum lætur þad sér ecki bilt vid verda, ad fremja þá stærstu lesti, þar þad ad eins rídur á ad neita med frekju hvørju því, sem uppá þad er borid. Allt eins reffíngarverd er og einþycknin. Vænjist børnin

að eins á barndóms-árunum, til að hafa fram þeirra eginn vilja, svo vita þau síðan ecki að laga sig eptir vilja annara; foreldrarnir munu naumlega síðan fá þau til audsveipni, að minnsta kosti ecki án horku, þau verda þverúdar-full við adra menn og jafnvel Guðs bodordum hlýdnast þau ecki, því þau eru aldrei von til að gjøra annað, enn það þau sjálf fýsir, og aldrei til að hafna sér nockurrar skémtunar. Hvoi su vel gjøra þá foreldrar við børn sín, sem enda í þeirra hrá-blautu barnæsku, venja þau til að vera í øllum hlutum ásátt með foreldranna vilja, og ecki einusinni líða, að þau sýni á sér hinn minnsta ólundar svip. En að hirta með hard-sinni fyrir adra barna-bresti, gjørir meiri skada enn gagn, og enn nú verra er það, að hirta børn, sem á legg eru komin, með barsmíð, því á þeim aldri mun ástúdleg viðbúð, gudrækilegar áminningar, skynsamlegar fortølur og góð dæmi af foreldrunum, gjørahið besta og mesta að verkum.

## Um Hans Dorsk og börn hans.

Hans Dorsk var madur sá, sem aldrei hugsadi hvorki um Gud, né nockurn annann hlut, enn einmidt ad fá nockud ad eta einn dag eptir annann; en þessvegna fór og þannig fyrir honum, sem vér skulum fá ad heyra. Eg gét ecki nóglega furdad mig á ad menn, sem Gud hefir géfid vit og skyn, géta lifad, sem menn segja, eptir munni og maga, allt eins og qvikfénadurinn sá mál = lausi og óskynsami. Ætti þó ecki madur hvörr undir eins og hann ad morgni dags rís af reckju, strax ad hugsa til Guds, og þenkja med sjálfum sér: nú er eg aptur uppvaknadur heill og ósjúkur; Gud er kríngum mig, hann sjer ecki einúngis athafnir mínar heldur veit hann hvört eitt ord eg tala, og sjer hvörn þánka í mínu hjarta. Eg er vanburda mannsképna, sem hvört augnablik drýgi marga bresti, og þad er þó eldúngis ótilbærilegt vid einn svo gódann Gud, sem tjáir mér svo marga velgjörnínga. O! Drottinn Gud! hjálpa þú mér sjálfur, ad eg ecki gjöri annad, enn þad, sem þér er þóknanlegt! lát mig þannig þenkja allann dag-

inn út, ad mér ecki beri naudsyn til ad
blygdast í þínu augliti fyrir nockurn af
mínum þaunkum! lát mig ei tala eitt ord,
nema eg fyrst hafi íhugad, hvört þad ei er
syndugt edur hneixlanlegt.

Þegar vér þá med søgdum hætti
høfum fyrst haldid ofs til Guds, svo
eigum vér og ad gaumgæfa allt hvad ofs
ber ad gjøra í kalli voru og húss-stjórn,
því til þess hefir Gud géfid ofs vit og
skyn, ad vér uppá þann haganlegasta,
skynsamasta og gagnlegasta máta skipum
øllu því vér høfum umvélis. Þó eig-
um vér ei heldur ad gleyma vorum ná-
únga og medbornurum. Eckért er Gudi
géðfeldara, enn þegar vér erum vingjarn-
legir og þénustusamir vid adra. Ætíd,
þegar ofs géfst færi, og vér sjáfir ei
lídum stórann halla þar vid, eigum vér
ad þenkja um, hvørnig vér gétum þjón-
ad ødrum, og einkum mégum vér ávallt
vera reidubúnir til ad veita þeim lid, sem
sjálfir ecki megna ad hjálpa sér, fátæk-
um, sjúklíngum, eckjum og fødurlausum; þad
álítur Lausnari vor, sem vér hefdum gjørt
honum þad sjálfum.

Þegar þér viljið þannig hegða ydur dag hvern, og ávallt géfa gætur að þaunkum ydar, í orðum og øllum verkum, svo gánga vel og gætfulega allar ydar athafnir. Víst að sønnu heyrir hér ærinn tími til, áður menn verða því rétt tamir; menn gleyma því, en menn méga einnig jafnótt endurminnast þess, og í ønd verðu þvínga sig, þar til menn eru orðnir því alvanir, svo verður það á eptir léttara og léttara. Vér megum líka alla-jøfna biðja Guð, að hann vilji veita oss krapta þar til, svo mun það takast oss. Og að lesa á stundum nockuð í einhvørri góðri bók, það eflir oss í vorum góðu áformum. Brúkið kostgæfilega heilaga Ritníngu, svo opt þér hafið tækifæri, og lesið helst það nýja Testamenti; þótt hér og hvar kunni eitthvað að koma fyrir ydur, sem þér ecki skiljið, svo kastið þar fyrir ecki bókinni frá ydur, það er þó nóg í henni, sem ydur er all-ljóst. Sjáið, mínir vinir! það er það, sem kristindómi vorum mest á ríður.

Um hvílíkt hugsaði ecki sá umræddi **Hans Dorsk**, eg vil útmála ydur

hann, allt eins og hann var. Foreldrar hans vóru fátæklíngar, fadirinn var húss-madur, er vann, sem daglaunari, en módirin þénti, sem yfirsetu-kona. Nu var bædi fadir og módir sjalden heima,. og því var drengurinn ad ollu leiti vanræktur. Þegar fadir hans fór á morgnana snemma út til vinnu sinnar, mælti hann ad sonnu til sonarins: Hans! flýttu þér á fætur, og farðu í skólann. En um þad kjærdi Hans sig lítt; hann ad vísu ansadi: já, en jafnskjótt og fadir hans var útgenginn, rjátladi Hans út úr á gøtunni til annara barna, er þar vóru ad leika sér; sjaldan lék hann sjálfur med þeim, því til þess var hann allt of klaufalegur, en þegar þau létu sem allra verst og frømdu svæsin strákapør, svo hló hann, ad berg-mál qvad vid í fjøllunum, þá líka fulltíngdi hann þeim, og lá ofur vel á honum. Þannig géck þad ár eptir ár, og hann uppólst í hinni stærstu vankunnáttu og sjálfrædi til hans 14da árs, þá fadir hans deydi. Herra Gud! hve ógnarlegt mátti þad vera fyrir slíkann fødur, ad sjá son sinn edur hugsa til hans á sinni dauda-stundu!

hværju vildi hann nú svara Guði, sem boðið hefir foreldrunum að uppala sín børn í aga og umvendun til Drottins? þá hefði hann æskt að hann mætti enn nú lifa í nockur ár, þá hefði hann heitið, að vilja bæta það, hann áður hafði forsómað. En allt um seint.

Nú var allt úti fyrir Hans. Móðirin hafði ei efni til að halda honum heima, meðan hann gengi í skóla og lærði nockuð; hann hafði ei heldur lyst þar til, og þvínga hann gat hún ecki, mátti hann því þjóna, sem smala-drengur hjá einum bónda eptir annann, þar til hann var kominn um tvítugt, og þá átti hann loks að firmast. Nú var hann allt of daufur til að nema nockuð til hlýtar, þótt hann enda vildi, því það er aldrei beinari braut búin, til að gjøra, jafnvel þau skorpustu børn gáfulaus, enn að vanhyrða þau í úngdóminum. Lærði hann því í 2 ár varla rétt að lesa á bók. Allt það, hann lærði, var, að troðið varð í hann dálítiu of fræðunum, og þó skildi hann eckért í því.

Þá nú búið var að koma nafninu á að kristna hann, réðist hann til vistar

í kaupstad hjá vagn-manni nockrum, því fyrst kunni hann ei ad gagni nockra bónda-vinnu, sídan var hann gllt of þúng-lífur til ad vera vid verk allann dag frá morgni til qvølds. Á móti því var þetta heilegt líf fyrir hann; ad sitja í makindum á vagninum, og skéla sig í hvørju kró-húsi, er hann fór fram hjá; en ósnotur, aula'egur og óhæfur bósi var hann, sem hvorki skeytti um, hvørt hann fékk vaga-hlass, edur ecki, né heldur kunni ad umgángast med sidsemi vid þá, sem hann keyrdi fyrir. Engu ad sídur var hann þó í gódu gengi bædi hjá húsbónda sínum og þeim ødrum vagnmanns-þjónum, því svo aulalegur hann var, þar ecki'et lært hafdi, svo hafdi hann þó einskonar náttúru-vit, og gat opt komid þeim til ad hlæja med sínum þurru og kátlegu innfollum, og þad var ollt jáfnt fyldt í annarhvørt skammarlegum, óskírlífum tvíræðum, edur ógudlegum og umsnúnum vindíngum af Guds ordi, og því hann heyrt hafdi í einni prédikun. Þad er sá fyrna ljóti óvani, svo margir vankunnandi og óupplýstir brúka, ad þeir aldrei géta gjørt sér ad

ganni, utan þeir blandi með einhverju þesskonar. Vildu að eins þvílíkir einir láta sér koma í hug þessi orð vors Frelsara: mennirnir skulu gjöra reikningskap á dóms degi fyrir hvert það ónytju orð þeir hafa talað.

Nú átti Dorsks húsbóndi og dóttir eina, sem var Hans Dorsk næsta lyndislík, stóra, brydjulega og nautheimska mær, sem hjartans gjarnan hlýddi á þvílíkt tal; og sjálf tók undir í sama tóni. Hans átti því ofur vel við geð hennar, og, sem það plagar að gánga, að saurvrði upp=queikja lystina og leggja grundvöllinn til saurlífis verka, svo skéði það og hér. Hans gjörði hana ólétta. Faðir hennar ragnaði og saunglaði daga nockra út af þessu; á eptir urðu endalokin, að Hans skyldi ega hana og svo var allt gott; þegar þau vóru komin saman átti hún barn á hverju ári, en hún kunni eins lítið að uppala þau, sem hann, og hafði eckért vit á að skipa orðulega búsijórn. Þegar hún hafði eitthvað fyrir framan bøndurnar, géck hún í því, sem mús í skolum, og trað í krackana, svo við sjálft

lá, ad springa mundu of of = fylli, entrar nær svalt hyskid allt heilu húngri, og mátti dögum saman nægjást med þurrt braud og blá = vatnid.

Dorsk kunni eckért, utan ad keyra vagnmanns = feldir sínar, er skamt nádi til vidurværis fyrir konu hans og börn. Fyrir þá sök greip hann til ad stela, og þegar hann á ferdalagi sínu var hjá hinum ödrum vagnmanns = þjónum, stal hann ýmist af áfódri hesta þeirra, ýmist hinu og þessu frá þeim og ödrum ferda = mönnum. Loksins gjördi hann eitt skipti svo mikid far af þessu, ad hinir adrir ferda = félagar hans gripu hann í þessum þjófnadi, og lömdu hann svo mjög, ad hann kom veikur heim, lá nockra hríd, spýtti blódi og deyði sídan. Á sínu bana = sænginni ragnadi hann enn nú ydduglega, var svo skapstyggur og gustmikill, ad eckért vard gjört honum til hæfis, og þannig bó hann út af. Hvørr gétur endirinn annar ordid enn þessi? ef vér ecki í neyd og deyd höfum Guds ord og eilífs lífs von ad hugga oss vid.

Nú var kona hans eptir med 6 ó-uppalin børn; enginn gat lidid hana, edur skipti sér af henni, og sjálf gat hún ecki hjálpad sér. Hefdi hún nú þeckt nockud til Guds, og reidt sig uppá hann, hefdi hún gétad unnid, edur þad viljad, svo hefdi hún undir Guds leidsøgn ratad á bjargar vega, til ad fá sorgad fyrir sér og børnunum, en hvørr, sem eckért skeytir um Gud, af þeim slær hann og optlega hendinni. Þá, í stadinn fyrir ad bidja og erfida, greip hún til ad betla, þótt hún hefdi heilbrygda og fullhrausta limu, og nockur af børnunum vóru svo á legg komin, ad gjarnan gátu fengid dvøl, og þessi lífernis-háttur líkadi henni um sídir all vel, því hún ødladist þar med fædu án ómaks og erfidis. Í vergángi þessum vandi hún og smámsaman børn sín til ad stela, því þar med fengu þau meira enn á eintómu betlinu. Þordi hún því þá ei heldur lengi ad dvelja í nockrum stad, heldur lagdi allt land undir fót í snjóum og regnum, og bædi hún og børnin vóru qvik-nakin.

Tvø elstu bernin, piltur 16 vetra, sem hét Andrés og stúlka Agnes á

15 da árinu, høfdu enn nú svo mikla skynsemi, ad þau blygdudust sín fyrir líferni þetta; og þá þau eitt sinn vóru á leid til þorps nockurs, lítinn spøl á undan módurinni, hófu þau rædu þannig hvørt vid annad:

Andrés. Eg ber þó ljóta blygdun fyrir beiníngagvabbid. Hvar vid komum, knúirar fólk ávallt vid ockur, og engin føt høfum vid eins og annad fólk.

Agnes. Já! eg er og fyrir laungu ordin þreytt af því og skammast mín þegar eg sje, ad annad qvennfólk hefir sæmileg klædi, og þarf hvørki ad svelta edur betla. En seig mér þó: hvad veldur ad vid erum svo vesøl og egum ecki eins gott og annad fólk?

Andrés. Þad vil eg þér greina: heyrdi eg þad í gjær-qveldi af bónda heim, vid vórum hjá í nótt, og vard eg svo reidur foreldrum ockar, ad vav'la gét litid módur mína réttu auga. Gjæt þú ad: fadir ockar kunni eckért; hann stal og var lamin til óbóta, módir ockar gétur heldur eckert unnid, en hefir jafnvel bedid

ockur ad stela, svo vid kunnum ecki annars ad vænta, enn ad verda øll saman sett í Tuktþúsid.

Agnes. Æ! Andrés! hvad skal til ráda fyrir ockur?

Andrés. Segja skal eg þér hvad eg í hyggju hesi; í þorpi því vid nú gaungum til, býr ríkur bóndi, gódmenni mikid, hann hefir jafnan gésid mér nockud, og aldrei skútyrdt mig; hann skulum vid finna, og tjá honum út í Høigul frá gjørvøllu voru ásigkomulagi, og hvad hann þá rádleggur ockur, þad skulum vid gjøra.

Med þetta var systirin vel ánægd, og flýttu þau bædi ferd sinni, fundu bónda, og qvørtudu um þeirra bágindi fyrir honum, eins og med þeim var aftalad á veginum. Kénndi hann nú í brjósti um børn þessi tvø, og med því hann sá af þessu þeirra sinnis = lagi, ad þeim enn nú kynni ad verda menníngar nockurrar audid, hélt hann þeim hjá sér, tók þau í dvøl, klæddi þau upp, og lét þau gánga í skóla, svo þau urdu bædi, hvørt í sinni

røð, réttgjörvir menn. Pilturinn varð dugandis bóndi, og Agnes væn stúlka, vel liðin í þjónustu, ástsæl, og féck góða giftíngu. Móðirin féck þará móti skjótt enda á umferð sinni, því hún stal svo miklu, að hún var sett í Tukthúsið; en hin börnin tvístruðust, svo enginn vissi hvað af þeim varð.

Sjáið hér! mínir vinir! hvílík laung røð synda, ógæfu og volæðis! og af hvørju kom nú allt þetta! einúngis af íllu uppeldi Hans Dorsks foreldra á honum. Er það þá ecki ógnarlegt, að einn ógóður faðir getur orðið ógæfu efni svo margra manna. Hvað er náttúrlegra, enn þegar hann uppelur ílla børn sín, að þau þá aptur uppali þeirra børn eins, og þessi enn að nýju með sama hætti ønnur, og það marga ættliðu ígégnum. Hve þúngann reikníng hefir þá þvílíkur stofn-faðir að standa Guði alls-herjar á efsta degi fyrir alla niðja sína, í hvørra tímanlegri og má vera eilífri óhamíngju, hann einúngis hefir sök verið. Svo forðjarfanlegt er það, að stunda ecki børn sín og láta þau án typtunar uppvaxa, en eins stór ysirsjón er það

eg, ad reida þeim ofhátt hægindi og kéb'a þau í eptirlæti, uppá hvad eg nú vil skíra ydur frá einu dæmi.

---

## Um Jens Skraddara og bern hans.

Þá vér lítum annara manna háttalag kríngum oss í heiminum, svo hyrdum ei ad leida oss í þánka, þad sé oss óviðkomandi, heldur eigum vér þad med athygli ad yfirvega. Ashafist þeir þad rétt er og gott, skulum vér taka oss dæmi þar af ad breyta eptir þeim, en drýgi þeir nockud vondt og órétt, skal þad kénna oss ad varast þeirra ávirdíngar, og sneida hjá straffi því og óhægindum, þeir med brestum þeirra yfir sig leida. Guds tilgángur, med því ad líta svo mikid vondt í heiminum, er, ad þad skuli þjóna oss til vidurshnar. Vilјum vér ad eins géfa nákvæmar gætur ad því, sem í heiminum skéður, svo gétum vér numid þar af yfirmáta mikid. Gætid t. d.: ad, þegar þér sjáid mann einn, sem med svikum og rángsleitni hefir audi safnad, ad sjaldan mun þá hjá því fara, ad vér ei

líka sjá megum, að hans børn og barnabørn hafa eckért þar af; það gengur eptir máltækinu: illur fengur, illa forgengur. Ellegar þegar þér sjáið børn, sem sér illa hegða við foreldra sína gamla, svo verdur það þeim aptur, á þeirra sjálfra elli-árum, af børnum þeirra all-optast endurgoldið, og þannig gengur það í mørgu ødru. Þess ber oss einúngis að gæta, þá vér hugleiðum kjør annara manna, að vér ecki undir eins og þeim gengur illa, þegar qveðum svo að orði: það var makleg hegníng fyrir syndir hans; það hefir hann verdskuldað með því og því verki. Nei! það er að dæma óvinsamlega, og hæfir það engum kristnum manni. Guð leggur opt einum kross og mótlæti á herðar, til að gjøra hann dygðugann og guðhræddann; breytir hann við oss, sem skynsamur faðir, sem á stundum hlýtur að brúka vøndinn, þegar áminníngar og aðvaranir ecki fá gagnað. En í staðinn fyrir að fella dóm yfir aðra, skulum vér, með því að líta á kjør þeirra, athuga ockar egið framferði, spyrja oss sjálfa: muntú ecki hafa verdskuldað hið sama, sem nú hendir þennann? ert þú ei sekur í sømu brotum? og finnum

vér oss þá sakbitna, eigum vér ad leggja alla stund á ad leidrétta ávirdíngar vorar, og bidja þann príeina Gud um fulltíngi þar til. Med svofeldu móti vill Gud ad vér skulum ínnytja oss annara dæmi, fyrir þá sek hefir hann og sjálfur í ordi sínu gésid oss mørg dæmi uppá gudhrædda og góda menn, hvørjum vel hefir vegnad, og uppá vonda menn, er sér hafa steypt í ógæfu med syndum þeirra, til þess ad vér skulum kappkosta ad stæla eptir þeim fyrri, en varast ad líkjast enum sídari. Virdid þá nú þannig fyrir ydur dæmi þad, er eg vil tjá ydur uppá eitt of=dátt barna uppeldi.

Þessi Jens Skraddari var madur rádsettur mjøg, sem vel kunni handverk sitt; hann setti sig nidur í kaupstad einum, og géck ad eiga stúlku nockra, sem ei var bersnaud; hét hún María; unnust þau vel; María hjálpadi manni sínum til ad sauma, og bædi vóru þau ydjusøm, svo þau øfludu ríkuglega atvinnu sinnar, og lidu engann skort; þeirra einasta ógledi var, ad þeim ei vard barna audid, hvørs þau þó bædi sér

ýtarlega æsktu. Loks eptir 4 ár lagdist María á golf, og ól son, sem þau nefndu Jóhannes.

Nú var gledi þeirra fullkomin, og sveinninn var þeim kærari, enn öll heimsins audlegd. Á hvørju augnabliki stöck fadirinn upp frá verki sínu, tók barnid í fáng sér, kysti þad og bar nockrum sinnum um kríng í stofunni. Jafnskjótt og einhvørr géck inn til hans, skyldu þeir sjá barnid, máttu þeir og hrósa sveininum ef líka átti. Þegar drengurinn grét, enn þótt hann væri ósjúkur og bristi eckért, þá kostudu bædi Jens og kona hans öllu því þau høfdu handa á milli, hlupu ad vøggunni, og þreyttu hvørt vid annad, ad hlaupa aptur á bak og áfram med barnid, þar til þad þagnadi. Væri hann nú lengi nockud ad hrína, svo meintu þau strax ad hann væri veikur, og hljóp fadirinn þá, sem fætur togudu, á sama augnabragdi til Líknar-búdarinnar eptir medølum. Vardi þetta þannig vid, til þess sveininn var missiris gamall, og var hann nú þegar møg skémmdur. María vildi fegin full-

tíngja manni sínum í handyðn hans, en þar til gafst henni allsjaldan, fyrir synínum, tími nockurr. Medan hann vakti, vildi hann allt jafnt láta bera sig, og þegar hann jafnvel var syfjadur, hlaut annadhvört þeirra hlaupa med hann í fánginu, þar til sofnadur var. Þegar qvöld var komid, og foreldrar hans vildu gánga til hvílu, hafdi hann sofid út, og var öldúngis glad-vaknadur; vildu þau þá hafa húss-frid, máttu þau á ný hlaupa um gólf med hann hálfa nóttina, ella nam hann ecki af hljódum, allt eins og ætti hann von á ad verda barinn. Var þad nú nærsta þúngbært fyrir þjónustufólk, sem á daginn mátti vera vid vinnu, ad þad um nætur hafdi enga ró; en gledi þeirra yfir sveininum gjördi, ad þau lidu allt þetta med þolgædi.

Þá hann tók betur ad stálpast, vöndu þau hann einnig á, ad géfa honum nockud af sykri, edur ödrum sætindum, til ad kjassa hann, þegar hann hrein, og á þetta vandist hann svo mjög, ad jafnskjótt og hann hafdi opid annad augad, vildi hann annadhvört láta bera sig edur fá

eitthvad af sætindum, ella var ei lon á hrinum hans.

Pad er hin stærsta ógæfa, foreldrar géta gjørt bædi sér sjálfum og børnum sínum, þegar þeir koma þeim á þenna óvana; verda børnin sérlynd, og hafa ekki hálfa værd við þad þau haft gæti, þar þó værd og svefn er þad, sem í þeirri blautu barn-æsku hvad mest stydur til heilbrygdi og þroska líkamans. Sjálfir foreldrarnir hafa meiri ørdugleika med barn eitt þvílíkt, enn adrir hafa med 3 edur 4 spøk og vel uppfóstrud. Venjid þar fyrir aldrei børn ydar á ad vagga þeim í svefn, því sídur ad lulla þeim, edur bera þau, til þess þau sofna. Haldid þeim ad eins þurrum og hreinum, og géfid þeim mjólk þeirra og mat í tækann tíma, og skulu þau þá vissulega, þegar þau eru óssjúk, án frekari umsvifa, sofa bædi lángtum værara og lengur enn þá þeim er leyft ad koma fram vilja sínum í hvørju einu.

Nú ox Jóhannis vor, og eins og hann vard eldri, eins vard hann líka

sérlyndari. Yfir þessu furdudu sig foreldrar hans ærid mjøg, og gátu aldrei skilid hvørnig þad fengi skéd, ad sveinninn, er var heill og hraustur, var þó si og æ ánguvær, bágur og óánægdur, virdtist þeim þau hefdi varid hinni mestu umhyggju til uppfósturs hans, og ecki látid sitt til vanta; já, víst høfdu þau gjørt honum hærdur hátt undir høfdi, og þad var ógæfan.

Enn nú fengu þau dóttur einnar, er þau nefndu Kristínu, og allt eins velgjulegt dálæti hafdi hún í uppfóstrinu; þá børn þessi dróguſt betur á legg, dafnadi og med þeim þeckjanlega sjálfrædis - þóttinn og sérlyndid. Þá er þau litu eitthvad, sem þau girntust, máttu þau fá þad, hvad sem gylda átti. Kjæmi einhvørr ókénndur inn í húsid, sem fallegar Tóbaks - dósir hafdi, edur snotra Úr-festi, vildu børnin strax hafa þad, og hljódudu, eins og skyldi þau lífi týna. Foreldrarnir tóku þau þá sér í fáng, kystu þau og mæltu: Þégi þú, litli Hans minn! litla Kristin! ókunnugi madurinn á þad, þú gétur þad ei

fengið; **nei, nei!** orgudu krackarnir, **eg vil fá það, sjá mér það!** foreldrarnir létu sér þá aldrei verda ad mótsegja þessu keipakalli, en sármændu til hinna framandi, svo þeir optastuær máttu láta børnunum af hendi það, þau fá vildu. Fengi nú Hans það, svo vard **Kristín** ofstæk og ætladi af gøslum ad gánga, þor til þeir urdu einnig ad géfa henni það.

Þannig skémma svo margir foreldrar børn sín, og med því ad slaka til vid þau í øllum hlutum, ella þau einmidt í løstum þeim, er þeir ættu venja þau af, og hirta fyrir. Hve margir gjöra og ecki svo'eidis born þeirra hefndargírug medl þeim fyrna ljóta sid, ad undir eins eg eitt barn rekur sig á vegg, edur dettur á gólf. þá heitir það, til ad spekja þau: lemdú þann slæma vegg, trampadú það ljóta gólf. Víst ad sønnu lína þeir børnin med þessu, og fá þau til ad þagna, en venja þau þó jafnframt med því, til ad hefna sín; og skér það fyrst á daulum hlutum, munu þau sídan aldrei þola afgjørd af nockrum manni, án þess ad endurgjalda illt med illu.

Nú vóru børn þessi svo gømul að byrja skólðu að gánga í skóla. Faðirinn bað þá Skólameistarann innilega að ljósta ecki blessaða barna-úngana eður vera þeim of-harður; løgðu foreldrar þeirra einnig óssjálðan í lófa Skólameistarans, svo að hann fann sér engann óhag við að sjá ígégnum fíngur við þau. En einúngis það, að þau máttu sitja kyrr í skólanum, var þeim allt of þúngt, þar þau aldrei vóru von til annars heima, enn að leika sér og ráða með øllu. Vildu þau því nauðug í skólann gánga, og ecki høfðu foreldrarnir ønnur ráð, enn kaupa það af þeim, með sykri, rósínum og þessa konar sætindum; af þessu máttu þau ávallt hafa fulla vasana, ella vildu þau ecki í skólann; og, sem þá gað kom, var ydjan að eyða úr þeim. Lærdómurinn var því eins lítill þar og heima, og eins fákunnandi og þau vóru, eins urðu þau líka lasta-full, þar þau í øllum hlutum skyldu dansa, eptir sínu høfði.

Jóhannes hljóp allt um kríng í býnum og á gøtunum, hvar hann lysti; sló hann stundum gluggana inn, stundum

lánadi einhvørjum stein í høfudid. Kjæmi þar þá nockurr er qvartadi um óskunda þenna fyrir fødurnum, vildi hann ecki trúa, og hirti því aldrei son sinn þar fyrir. Atti hann ad læra handverk fødur síns, hvar til hann enga lyst hafdi, en med makt gat fadirinn nú ei' þvingad hann. Lærdi því ad eins lítid, og erfidadi einúngis þegar hann þess einhvørju sinni í millum svo fýsti. Mestum tíma vardi hann til ydjuleysis og dryckjuskapar, svo hann um sídir gjørdist þad lastaþý, ab hann spiladi og drack út klædinn af kroppi sér, og ad lokunum, þegar hvørki dugdi blídt né strídt, hlaut fadir hans ad koma honum á skip og senda til Vestindía, sem so bata, til þess hann ei befdi daglega skømm og hjartans ángur af honum.

Fyrir dótturinni fór ecki betur: hún støck einnig, hvørt henni var hugqvæmt, og ætíd var hún stødd, hvar handverksveinarnir høfdu lystisemdir sínar og samkomur. Endalokin af því urdu, ad hún vard þúngud af úrþvættis-strák nockrum, þá hún ei hafdi nema 18 ár á baki. Strákurinn

ſtrauk og ſat hún þá ein eptir hjá foreldr= um ſínum, ſem vanvirdt, smáuud, kreinkt qvennſ= nift med bøggulinn. Enginn ráð= vandur madur ſkeytti nú um hana, þeſs vegna lagdiſt hún í ſkammarleganu lifnad, og var enn nú tvíſvar børnud, ad hvørju búnu Yfirvaldid ſetti hana ad lokun= um í Tukthúſid, og þar qvaddi hún heiminn.

Svo ſtóra hjarta = ſorg hafdi nú þeſsi madur af børnum ſínum, og þad einúng= is fyrir þá ſøk, ad hann hafdi látid of= vátt ad þeim. Høfum vér nú ſjed, ad vér gétum gjørt ſtórann ſkada med ofhard= ri umgengni vid børnin, líka og hefi eg ſýnt ydur dæmi uppá, ad eins ſer þad ílla, ad menn annadtveggja alls ekért hugſa um þau, edur og í uppfóſtrinu kébla í allt of = mikiu eptirlæti. Vil eg nú vona, ad ſérhvørr kriſtilegur og ſkynſamur fad= ir og módir þenki, þegar þetta leſa: Gud vardveiti mig frá ad drýgja nock= ra af þeſsum ávirdíngum, og þar med gjøra bædi mig og børn min ógjæfuleg! hann veiti mér ſkilníng og náð til ad uppala þau, eins og mér ber. Viljid þér

þannig þenkja, mínir vinir! og svo fylgja einföldum reglum þeim, eg nú skal géfa ydur, svo munud þér sjá, ad ydur skal þad audnast.

Þad, þér erud børnum ydar um skyldugir, er ad sorga fyrir þeirra tímanlegri og eilífri velferd, bæði fyrir líkama þeirra og sálu.

**Berid þá tilhlýdilega umsorgun fyrir þeirra líkama**, allt frá fædíngunni, ad þau nái upp ad vaxa med heilbrygdum líkømum og vel-skøptum limum. Reifid þar fyrir aldrei fastann børn ydar; margir meina, ad limirnir muni med því réttir haldast, en þeir fá þar med fljótar skékt þá hrá-blautu limi, og hamlad vexti þeirra. Búid þeim ei heldur síðan í barn-æskunni adskorin føt edur allt of-ilsøm. Adskorin føt þreyngja ad líkamanum og tálma liduga hræríngu limanna. Allt of-mikill ilur gjørir børnin ad hér-kælum ørqvisum; þau megu lángtum heldur frjósa enn sveita. Sú náttúrlega fæda fyrir hrá-blaut børn, og þeim hin hollasta næríng, er mjólk mædra þeirra, en hæglega gétur hin sama ord-

id ólifjan fyrir þau, ef móðirin ecki lifir, sem henni ber. Drecki hún brennuvín edur annann áfengann dryck; sé hún reidi-gjørn, skapbráð og gésin fyrir spélni, er allt tilsamans espar blód hennar, gétur hún med því tídum orsakad børnum nidurfalls-sótt og adra sárlega veikleika. Þótt barnid fái nœga mjólk, er þó vel gjørt, svo fljótt það er nockra vikna, ad venja það til matar. Rifid braud, med øli, sem ecki er súrt, er holl fœda børnum, og gjørir þau hvørvetna spakari og heilsubetri, enn þá þeim er gésin mjólk ad eingaungu. Vilji það óhapp til, ad móðirin ei géti haft barn sitt á brjóstunum, og megi því fœda það á kúamjólk, svo á mjólkin ætíd ad blandast med vatni til heiltínga; margir meina, þeir gjøri vel vid børn sín med því ad géfa þeim hina kostugustu mjólk, og þykir allvænt um, ad þau þrífast vel þar af, edur, sem menn plaga ad segja, renna upp, sem fífill í túni, en hún er þeim allt of megn fœda, og lyktar al-þýdlegast med því, ad børnin fá nidurfalls-sótt og deyja. Verdi eitt barn ángurvært edur gángi eitthvad ad því, þá brúk-

id fyrir alla muni aldrei þá al=gengu lækníngu ad géfa því brennu=vín; fólk birlar sér inn það gagni. af því barnið þess vegna verdur dodalegt og fellur í svefn; en þó éspar blódið, og undir eins og þessi skammvinni þýngsla=dodi er hjálidinn, verdur því verra enn ádur, heldur, gángi eitthvad tølnvert ad barninu, svo leitid lids í tíma, hjá skynsømum mønnum, en ecki hjá. Skottu=læknurum edur kérlínga=hrotum. Hafid og ávalt vakandi auga á børnum ydar í þeirra barn=æsku, ad þau ecki án tilsjónar hloupi í kríng, og meidi síg. Hve stór er ábyrgd þeirra fyrir Gudi, sem fyrir hyrduleysi láta børn sín verda kypplínga, og lída tjón lífs og lima.

**Beygid barnanna vilja í þeirri audmótudu barn=æsku.** Margir álíta þad fráleitt; segja: þad er víst synd, ad þvínga eitt barn, ad neita því um nockud! hvada vit hefir þad á, hvad þad má gjøra og ecki gjøra? en jafnskjótt og eitt barn veit ad auglýsa sérlyndi, svo er tími til ad taka ad svegja þess vilja; ecki er sagt þad skuli ské med høggum og sløgum, nei! skyn=

sem umgengni gjørir þad allra best og er þad í því fólgid: þad, sem eitt barn á ad hafa, nefnil.; mat, drykk, þjónustu, eptir því mega menn aldrei láta þad lengi bída, til þess þad ei hríni og hljódi; því þegar barnid fær þad, þá innbirlar þad sér, ad þegar þad ad eins hljódi, muni þad fá allt hvad þad heimtar. En þarámóti jafnskjótt og þad hrín, edur sýnir á sér laungun eptir ödrum hlutum, barna-glíngri edur þessleonar, egu menn aldrei ad veita því slíkt, fyrr enn þad lætur af skjælunum, edur hafa hid minnsta ómak fyrir ad þagga þad: Sé þessa ad eins náqvæmlega gætt af öllum þeim, er búa vid barnid, mun því brádt hverfa lystin til ad sýna sérsinni og verda med öllu eptirlátt.

Byrjid snemma ad uppfræda börn ydar. Undir eins og þau eru 4 edur 5 ára eiga þau ad læra ad þeckja bókstafina og qveda ad. Þad er þad, sérhvörjum þeim foreldrum er lafhægt, sem í úngdóminum sjálfir hafa lært nockud. Vildu menn ad eins gjöra þad, dag hvern, og þó ei væri þad svo utan hálfa klucku-stund á dag, géta þau numid þad ádur menn

varir; og þegar børnin þannig hafa lært að lesa, áður enn þau koma í skóla, er miklu lokið.

**Kénnið børnunum í tíma að þeckja Guð, og hlýðnast honum.** Þenkið ecki, það sé nockuð, sem Prestur-inn og Skólameistarinn einúngis eiga að annast; nei! það eru foreldrarnir sjálfir, sem með daglegri sambúð við børnin, egu að leggja hinn fyrsta og besta grundvoll. Þarf til þess vissulega engann vítt grípandi vísdóm eður mikla þeckíngu; hafið þér að eins falslausa lyst til að uppala yðar børn í Guðs-ótta, getur þá ei einn og sérhvørr af yður, sagt þeim marga góða hluti: að Guð sé almáttugur, og géti því bæði hjálpað oss og hegnt; að hann sé alvitur, og því grandkunnugt allt hvað vér gjørum, hvørt heldur íllt er eður gott; að þeim vegni ávallt vel, er hlýða honum, og þeir ógæfulegir, sem fremja það vonda, hann bannað hefir; hve hægt er ei að kénna þeim að greina hið vonda frá því góða, og sýna þeim þau séu lángt betur farinn með að lifa kristilega og siðsamlega, enn

andvaralaust og ódugdlega. T. d.: að sá, sem er kostgæfinn og siðprúður, sé virtur og tignaður í heiminum, sé heill og ósjúkur og fái ríflega það, hann meðþarf til síns viðurværis; en á móti því sé sá lati og lasta-fulli fyrirlitinn af ráðsvinnu fólki, hann týni heilsu sinni, verði fátækur og vesæll; er nú þetta án efa það, eitt barn 7 eður 8 vetra auðveldlega skilið getur. Ó! hvörsu vel væri ei þeim laungu vetrar-qvöldum varið til þvílíkrar kristilegrar og nytsamrar samræðu við börn yðar! Kénnið þeim: að Guð sé sá, er viðheldur þeim og verndar þau, og látið þau þess vegna aldrei gánga svo til hvílu, eður rísa þaðan, að ei lesi þau morgun- og qvöld-bænir sínar. Tjáið þeim, að Guð veiti oss alla hluti, og að þau fékum þess hvört sinn þau matar neyta, aldrei gleimi að biðja barn og þacka honum fyrir gæðsku hans. Látið þau síðan, að þessn þannig undirbúnu, gánga í skólann, og það kostgæfilega, svo munuð þér bráðlega með gleði sjá, að þeirra þekking mun þróast og þau öndverðlega venjast til sannarlegs Guðs ótta.

**Kappkostið jafnaðarlega að lagfæra barnanna bresti.** Ecki á það að ské með jafnlegri útheglun og nøldri, því síður með høggum, og slegum, svo lengi þau vilja láta lagfæra sig með góðu; að áminna þau með kjærleika og leiða þeim fyrir sjónir, hvørjum skaða þeirra ysirsjónir séu ollandi,, það er það, sem mest um varðar, og þegar þau ei fyrir það bæta vilja ráð sitt, megu réttgjørðir foreldrar grípa til vandarins, en þó jafn-framt fyrir alla muni gæta sín að hitta aldrei í reiði, heldur með skynsamlegri íhugun og eptir ásigkomulagi brotsins, svo að børnin skilið fái, að þau ecki eru strøffuð í øðru tilliti, enn að bæta þau. Brestir þeir, sem venjulega eru barn-æskunni samfara, hyrðuleysi, óaðgætni, laus-sinni, og þeskonar aðrir, egu ei að hegnast of-hardt, þegar þeir ecki eru heldur frekir. En sérsinni, lýgi, blóti, skarn-orðum, sem og sérhvørju því verki, er íllsku vottar, á aldrei að sýnast hegníngar vægð.

**Haldið børnunum snemma til náms-ydni og starfsemi.** Tilefni ó-

mennsku þeirrar, er mørgum fylgir gjørvalla æfi þeirra, er ósjaldan það, að þeir í úngdæminu vanir eru til ydjuleysis; fá þeir þá strax óbifur á vinnu allri, og allt veitir þeim síðan erdugra. Auðvitað er, að menn vel megu gæta, að segja ecki børnum verk það, er krapta þeirra yfirgnæfir, eður heimta sømu staðfesti af þeim, sem fullorðnum. En þarámóti eiga menn ávallt fá þeim eitthvað það að ydja, sem ðørðugt er, og þeim yndælt þykir, svo finna þau með tímanum ánægju í vinnunni, og aldrei liggur þá miður á þeim, enn þegar þau ydjulaus eru. Sæmilegra fríheita og skémtana megu menn børnum unna og únglíngum, leyfa þeim umgengni með jafníngjum sínum, einúngis að foreldrarnir sjái um, að skémtanir þeirra séu algengar, og þau ei hafi sitblendi með øðrum enn ráðsvinnum mønnum, því sé þeim hafnað sæmilegra fríheita, meðan þau eru undir foreldra høndum, rekur þar að, að þau géfa sig til ósæmilegra skémtana og í lítt = vandaðann soll, þegar síðan egu sér sjálf að ráða. Með áranna fjølgun er það réttgjørvra foreldra

skylda, ad láta børn sín læra það, hvar með þau géti unnið sér brauð með ærlegu móti, og í því megu foreldrarnir aldrei fara að eginn hugþótta, heldur náqvæmlega gæta að hæfilegleika barnanna, og velja það fyrir þau, sem þau eru duganleg til. Að setja heilsu- og burða-góðann pilt, sem er tornæmur, til bókarinnar, er ei annað, enn gjøra hann ógæfulegann. Fái hann hrøslast af skólatíð sína verður úr honum Stúdents-nefna, sem eigi getur aflað atvinnu sinnar, í stað þess hann að ødrum kosti ordið hefði dugandis bóndi edur handverksmadur. Að halda ødrum heilsu-linum og grannvøxnum til stréngrar bóndavinnu, edur smída og þesskonar nockurs, sem útheimtir atorku og burdi góða, er vissulega allt eins óvitnrlegt. Á æskuskeiði sínu hefir hann spilað með kraptana og getur sér einkis aflað; en lát þvílíkann verða annaðhvort Bókbindara, Vefara, Skraddara eda Skómakara, svo má honum vel vegna, og ské getur líka að nád fái hinum aldri. Hér hafið þér, mínir vinir! í stuttu máli hið helsta, sem naudsynlega útheimtist, þegar þér viljið upp-

ala børn ydar til gudhræddra og gagnlegra manna; en ein er enn nú høfud-regla eptir, og sé hún undir høfud logd, munu allar þær uudanførnu eckért nota. Það er:

**Gángid jafnan undan børnum ydar med gódum eptirdæmum.** Skipid ydar breytni í øllum hlutum þannig, ad børnin allt eins vel géti hagad sér eptir athøfnum ydar, sem ordum. Ungdómurinn er gjarn á ad breyta eptir þeim eldri, og hvørjum skyldu børnin framar kappkosta ad líkjast, enn foreldrum þeirra, sem þau unna og hafa ætíd fyrir augum? látid því børn ydar aldrei heyra edur sjá annad til ydar, enn þad sem er gudlegt og sómasamlegt, ella verda allar áminníngar ydar og kénníngar ardlausar. Meinid þér þad noti nockud, hvørt heldur sjálfir þér edur Presturinn og Skólameistarinn áminnir børn ydar til lotníngar fyrir Gudi, ordi hans og húsi, þegar þau þaramóti sjá, ad sjálfir þér án naudsynja sitjid heima, og vitjid ei kirkju, skéggrædid saman úti í kirkju-gardi undir Guds þjónustu-gjørd, rædid aldrei heima hjá ydur um þad,

sem þér heyrið í Guðs húsi, og brúkið nafn Guðs til blóts og svardaga? skyldu börnin vera kostgæfin og ráðsvinn, af því foreldrarnir prédika fyrir þeim um mannkosti þessa, þegar þeir þarámóti eru hyskuir og ruddalegir? nei! mínir vinir! heldur hegðið yður sjálfir þannig í öllum hlutum, að þér getið vísað yðar börnum til að haga sér jafnt eptir verkum yðar, sem orðum, svo munu hinir úngu allt eins skjótt taka sér snið eptir yður í því góða, og þeir annars vissulega líkjast yður í því vonda, ef þér sjálfir vondir eruð.

---

## Kvæði(*)

af

## Inkla og Yaríkó,

ortt af

### Síra Jóni sál: Þorlákssyni.

Lagið er: Hæðandi helga trú.

1. Abatans elska kná
   Oss sú er kénndi fyrst,

---

*) Parsð 1ta Hefti Gaman og Alvöru, sem til er bendt í nótu pag. 114 nú er orðið í sárra

Hvørnig líf-girug lá
  Léttu tré fær gjørist.
Til að framselja' á fjøl,
  Fjør vort, eð kjærsta hnoss
Óvissri drøfn í døøl,
  Dirfsku sú færir oss.

2. Abatans elska, skír
  Imindan plógs og tjóns
Audfólginn Inkla knýr
  Inní hol bátu-ljóns.
Orku sá æskunnar
  Offraði karfa bygð
Hans skýn, að verðsla, var
  Var hans, að reikna dygð.

3. Lockar hann laufa' umvendt
  Land fullt með jøtna-róm,
Er vér æ fáum kénnt
  Agirnd og kristinndóm.
Svo Americam sjer
  Seggur, en nærri strønd
Gnoð stormur fyrirsér,
  Fær hann þó haldið ønd.

4. Fold hann með fjøri nær,

---

høndum, lætur Utgéfarinn fylgja þessari 2ri Utgáfu Sidalærdómsins, quædið um Inkla og Varikó, námfúsum úunglingum til fródleiks og skémtunar.

Fèll yfir Breta þó
Landsmúgur yfrid ær,
Þá undan komust sjó
Svalg hinna soltinn dør,
'Samt sparast Inkla líf.
Honum vard flótta-før
Og fagurlimi hlíf.

5. Sprúnginn af hlaupum hér
Hardtnær, med órótt géd
Engelskur undir sér
Eitt niduvarpar tréd.
Allur af ótta brann
Ovíss í hugar qvøl,
Hvørt sverd eda húngur hann
Heims mundi fyrra dvøl.

6. Skyndilegt skélfdum hans
Skarkadi' í eyrum hljód
Eitt þess ókunna lands
Ungt skrapp úr runni fljód.
Hún auga hrødu med
Hal leit frá nordurs ey.
Hverst vard — en hvad afréd?
Ad hverfa burt? ó nei!

7. Svo eru villi-víf
Vør ei, né þýdsk í sid,
Hún gést á horfdi stíf,

Hvítt, kringlótt andlitið,
Klæðnaður hans og hár,
Hýrt tendrud sjónar=ljós,
Allt vár þad unun klár,
Er héldt til baka drós.

8. Otamin yndis=hót
Eins fengu víss á hann,
Að draga dul á rót
Og dempa síst hún kann,
Uppskátt lét augna=ráð
Innra hvað þreidi géð.
Augað féck elsku tjáð,
Og elsku baðst þar með.

9. Elskuverðt ei sig laug
Indinnu vaxtar=snið
Með látum mæltu þaug,
Með látum kynntust við.
Hún bendti hendi' að reck
Hann skundar eptir fús,
Aldinnu fæðdann féck,
Og fylgdi' í lítið hús.

10. Hún sýnir honum lind
Heilnæma þorsta bót,
Hún hlær, og hét þad mynd
Huggunar, ángri mót.
Sinn tíusinnum gést

Sá grant og hár fitlar
Fannst hana furða mest
Fallegu krullurnar.

11. Sérhvörjum morgni með
Mærin Rarikó
Komu-manns kjætti géð
Kosti með, nýjum þó.
Góðsemdar gjerði' hún ljóst
Með gegnum sérhvörn dag,
Að sitt óſidað brjóst
Sæmdi trútt hjartalag.

12. Skeink morgann hún gaf hal,
Og húsið gjerði skreytt
Með skinna mislitt val
Og margskyns fjöðrum breytt.
Skart nýtt, af skéljum þó,
Er skrautlegastar fann,
Hún sér um herðar bjó,
Nær hitta vill sinn mann.

13. Hún géck að fossi fram
Færði, nær hún að rak,
Þar svæfa niður nam
Og Næturgalans qvak
Náqvæmri aumkjun af
Í sínum faðmi dátt
Vísið sinn vin, þá svaf,
Vaktaði hvörja nátt.

14. Mun nordur hér um heim
Hjarta svo gøfugt fást?
Ordfæri þýdust þeim
Þad sama kénnir ást.
Þau talast tvø ein vid,
Tilbjuggu sjálf þad hjal.
Hann skilur kjæru klid,
Kannast hún recks vid tal.

15. Opt frædir Inkle víf,
Ættjardar hans hvad sé
Mjøg yndælt manni líf;
Og margskyns dýrinde.
Fljód hjá sér óskar úngt
Ad fengi' í Lundún sjed,
Hún heyrdi', og þókti þúngt,
Ad þad ei strax var skéd.

16. Þig, qvad hann, þar eg bý,
(Og þreifadi um sinn kjól)
Mørg klædi mislit í,
Meir verd enn þetta skjól.
I høll, sem hálf er gler
Af hestum dregin fljótt,
Fram=ekid þar skal þér,
I þeim stad nærsta rótt.

17. Stúlkan af gledi grét
Gjætandi þrúngnum svip

Utá breidt upsa = flet,
Hvørt eckért sæi skip.
Audnadist innan skamms
Þad æsti drós ad siá
Vør ordin voga = gamms
Vard hrædd og feginn þá.

18. Og leitar upp sinn gést,
Af ást og trygd vid hann
Fødurland forgleymest,
Fljód vid hans sídu rann
Eins gladt á æga drøsn,
Og væri þetta far,
Sem hún leit hýma' á høfn
Hús besta Lundúnar.

19. Beina leid flytur fley
Flughradur óska = byr
Barbados *) undir ey,
Þær óhamíngju dyr
Hvar Inkle skélsdur á
Illfarir sínar leit,
Nær Kaupmanns hyggjan há
Hans vakta þánka beit.

20. Aud frá Indíalands
Ad bera tóma mund,

---

*) Barbados er ein af þeim Caraibsku eyjum Engelskum tilheyrandi, hvar ed tídkast mikid mansal.

Er fyrir ágirnd hans
Ecki nein gledi = stund.
„Svo hef' eg grimmann geym
„Ségnsvamlad, fyrir það,
„Að snúsa snaudur heim,"
Sneiptur hann þetta qvað.

21. Innan skamms Inkle þó
Agirndar sefar gan
Og baud Rarikó,
Einum, sem keypti man.
Hardýdgi hrædilig
Hér kom í þackar stad
J þrældóm selda sig
Sá hún, er líf bar að.

22. Hún féll um háls á þrjót,
Hún féll á kné og grét,
Hún snøkti, hreyn — ei hót!
Hann brúdi selda lét.
„Æ mig þúngada' að þjá!"
Þannig hún klagadi.
Viknar hann vid það? já,
Hún verdur dýrari.

23. Um þrjú pund Sterling stif.
Strák = Breti kátur gó:
„Hér er, minn Herral víf
„Heitir Rarikó."

Omennskur Inkle! gaud
Alldrei þinn liki var
Þín smán, uns øld er aud,
Alla tíd lesist þar,

24. Manngædsku mesta raun,
Mjúkustu kjærleiks trú,
Prældóm í þøck og laun
Þinn bósi! géldur nú.
Vif úngt, er vegna þín
Vedsetti líf og grid,
Hóf þig úr heli' og sín
Heimkynni skyldi vid.

25. Fylgdist þér med um mar,
Og mindarlag gédfelldt
Med besta hjarta bar,
Burt fékst af ágirnd selt.
Stær þig! neinn strákur ei
Stelur þér nafnbót frá.
Med ódygd mun alldrei
Møgulegt þér ad ná.